10. Guds Sonnur ſa ſem Sañleiks Raad, ſialfur atti at Himni og Land, þardi ſitt Braud med Packargiord, þegar hañ umgieckſt hier at Jord.

11. Parſamadur ert þu mijn Saal, þiggur af Drottiñ ſier hvert Maal, Fædu pijna og Foſtrid allt, fyrir þad honum þacka ſkallt.

12. Illum Prœl er þad eilijf Smaan, ef hañ ſo þiggur Herrañs Laan, Drambſamliga, og dreiſſar ſig. Drottiñ geymi fra ſlijku mig.

13. Eptir þañ Saung eñ ecki fyr, wt gieck JEſus uñ Hwusſins Dyr, ad hañs Sidveniu er þad ſkied, til Oliu-Fiallſins ganga med.

14. Lauſnarans Veniu lær og hallt, loſa þiñ Gud og dyrka ſkallt, Bænarlaus alldrei byriud ſie, Burtfort af þijnu Heimile.

15. Yfer uñ Cidrons breidañ Beck, Bleſſadur þa med Sveinum gieck. Saa Lækur Nafn af Sorta ber, ſynir þad godañ Lærdoom mier.

16. Yfer Hormungar er mijn leid, æ medan varir Lijfſins Skeid, undañ gieck Jeſus, eptir eg, at þañ ad feta Rauna Veg.

17. Horfi eg nu i Huga mier, Herra miñ Jeſus eptir þier, Daaſamlig eru Dæmin þijn, dreg eg þau giarnan heim til mijn.

18. Pu villdir ecke Upphlaup hart, yrdi þegar þuſaa igiñ vart, wti Graſgardiñ gieckſtu þvi, gafſt þig i Mañа Hendur frij.

19. Af

19. Af þvi læri eg ad elska ei frekt, egid Gagn mitt, so Fridur og Spekt, þeß vegna raskist: þier er kiært, Polinmædi og Gied høgvært.

20. Sorgandi gieckstu sagda Leid, særdi þiñ Huga Kvøl og Neyd, Hlæandi Glæpa hlioop eg Stig, hefur þu Kvittad fyrir mig.

21. Vort Lijf er Grasgards Ganga riett, Grosiñ er øllum fyrir sett, Syndugra Leid ei leik, þier ad, lendir hun vijst i Kvala stad.

22. Jdrunar Tariñ ættu vor, øll hier ad væta Lijfsins Spor, giegnum Daudañ med Gledi og Lyst, gaungum vier þa i Himna vist.

23. Pa Jesus nu a Veginum var, vid Postulana hañ ræddi þar, henda mundi þa Hrøsun fliot, hardliga Petur þrætti a mot.

24. Frelsariñ Jesus fyrir sier, þa Fall og Hrøsun er bwiñ mier, hañ veit og lijka Lækning þa, sem leysa kañ mig Sorgum fra.

25. Alldrei kvad Petur ættla eg, a þier hneixlast a nockurn veg, þo aller fra þier falli nu, fullkomiñ var hañs Lofun su.

26. Su Von er bædi vollt og Myrk, ad voga frekliga a Holldsins styrk, an Guds Nadar er allt vort Traust, Østødugt veykt og Hialparlaust.

27. Gief mier Jesu ad gä ad þvi, Glas-kieri ber eg miñ Fiesiod i Vidvorun þijna virdi eg mest, Veykleika Holldsins sier þu best, Amen.

Annar

# Annar Psalmur.

## Um̃ Christi Kvøl i Grasgardinum,

Ton: Fadir vor sem ert a Himnum, rc.

JEsus gieck iñ i Grasgard haũ, Gethsemane var nefnur haũ. Af Oliu-Prwgan þad Auk-nafn bar, Oliu Tried rietta Herrañ var, Oleum Hialprædis allra fyrst, af hañs Lijsi þar pressadist.

2. J Alldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesus þad bæta hlaut, Alldengards Eikin A vort gaf, Eymd Synd og Daudi kom þar af, J Alldingardi liuft Lijssins Tried, Lijsgunar Friofgun veita ried.

3. Judas þeckti vel þeñañ stad. Par hafdi hañ leingi umburad, hellst mundi Piatz þad hentugast, Herrañ mætti þar forrradast, so færstir hefdi ad segia af þvi, og Svik hañs lægiu so Hylming j.

4. Satan hefur og sama lag, situr hañ um̃ mig Nott og Dag, hyggiande ad glogt hvar hægast er, i Hættu og Synd ad koma mier, eñ þo i þeim Stad allra mest, sem ꝍ eg Gudi ad þiona best.

5. Heims Borniñ hafa List þa lært, Lygd og Svikrædi er þeim kiært, Forsporum Diofuls fylgiande, Falsrædiñ draga þo i Hlie. Fra hañs og þeirra Hreckiastig, Herra Jesu bevara mig.

6. Opt hafdi Jesus i þañ stad, ædur gengid. Pvi veit eg þad, hefur sañliga Herrañ

rañ miñ huxad um Pijnu og Dauda siñ, Fullting is bedid Foduriñ þar, so feingi hañ stadist Pyslirnar.

7. Jurtagardur er Herrañs hier, helgra Guds Barna Legstader, þegar þu geingur um þeña Reit, þijn sie til reidu Bænin heit, Andlaats þijns giæt og eiñen þa, Upprisu Dagiñ minstu aa.

8. Læresveinana Lausnariñ kiær, liet suma biida nockud fiær, þria took þo med sier Hiarta hreiñ, hañ girntist ecki ad vera eiñ. Saala mijn þar um þeinkia skallt, þier til Lærdoms þad skiedi allt.

9. Guds Christni er Grasgardur hreiñ, Guds Sonar ertu Lærisveiñ, sittu þar sem hañ segir þier, soñ Hlyðni besta Offur er, til Krossins ef hañ þig kallar þar, kom þu gladvær aan Moglunar.

10. Freisting þung ef þig fellur aa, fordastu eiñ ad vera þa, Gudhræddra Selskap girnstu mest, giefa þeir jafnan Raadin best, Huggun er Mañi Moñum ad, Myskun Guds hefur so tilskickad.

11. Hiartanliga vard Harmþrængiñ, Herrañ Jesus i þetta siñ, Holldid skalf vid þad feikna Faar, flutu i Vatni Augun klaar, sagdi graatandi: Saal mijn er, so allt til Dauda hrygg i mier.

12 Hartnær Steinsnari fra þeim for, fiell strax til Jardar Drottiñ vor, flatur sitt blessad Andlit aa, Ognarlig Kvøl

hañ

hañ mæddi þa, Hiartad bardiſt i Briſtio heitt, bædi var Lijf og Sœlin þreytt.

13. Samviſkan mig nu ſialfañ ſlær, ſie eg þad giorla Jeſu kiær, mijn Synd, mijn Synd, hun þiadde þig, þetta allt leidſtu fyrir mig; Avij! hvad hef eg aumur Præll, aukid þier Mædu Drottiñ ſæll.

14. Mier virdiſt ſo ſem mijn Miſgiord, ſie meir ad þyngd eñ Himiñ og Jord, þvi Jeſus þad Fodurſins Ordid er, ſem allt med ſijnum Krapti ber, ſlatur hlaut þo ad falla þar, þa fyrir mig var hañ Syndernar.

15. Hiartans Gledi og Huggun trauſt, hier gieſſt þier Saal mijn efalauſt, þad Gialld fyrir mijna Miſgiord, er meira verdt eñ Himiñ og Jord, hañs Sorg, Skialfti og Hiartans Pijn, hia Gudi er eilijf Kvittun mijn.

16. Fram̃ þegar Jeſus falliñ var, fegurſtu bæn hañ giørdi þar; Abba Fadir Aſtkiæri miñ, af mier tak þeña Kaleikiñ, þo ſo ſem hellſt þu ſialfur villt, ſagde Jeſus med Giedid ſtillt.

17. Urrædin beſt er audmiukt Gied, Angrad Hiartad og Bænin med, hvenær ſem kiemur Hormungad, hura þu Saal mijn vel um þad Þolinmædi og Moglun þver, meiri Reſſingar aflar ſier.

18. O þ bliugur ſkalltu alldrei neitt, utheimta hvad þu girniſt veitt, til Hollðſins muna hentugt þier, hura jafnan ad DROTTiñ ſier,

hvad

hvad Lijfi og Saal til lids er nü, langtum betur eñ sialfur þu.

19. Eins Lijkamiñ og Saalin sie, sañ-audmiuk ligt i Bæniñe, ælijtur Drottiñ iñra hitt, ei-ad sijdur skal Holldid þitt, fyrir Gud med Blygdun ganga fram̃, giordi so fordum Abraham.

20. Jesu! þijn grætlig Grasgards Pijn, gledur or-þiada Saalu mijn, þitt Hiartans Angur Hiartad mitt, fra Hrygd og Modu giordi kvitt, þvi skal mijns Hiartans Hiarta þel, heidra þig miñ Emanuel.

# Predie Psalmur.

## Um̃ Herrañs Christi Daudans Strijd.

Med sama Lag.

Eñ vil eg Saal mijn uppa ny, Upphaf taka æ Maali þvi, Upp stood Jesus þo þreitt-ur sie, þrisvarsiñum fra Bæniñe, Lære-Sveinarnir svæfu fast, St. Petur þvi Avijtast.

2. Til og fræ gieck hañ þrisvar þo. Par fieckst ei minsta Hvijld nie Roo, Undañfæri þvi eckert fañ, allstadar Drottiñs Reidi brañ, giegnum Holld, Ædar Blood og Bein, Blossi Gudligrar Heiptar skein.

3. Himna Liosid var honum byrgt, hellst þvi af Nott var ordid myrkt, Astvina Huggun eingva fañ, allir svafu um̃ tijma þañ, Jordiñ var honum ohæg eins, eingin fieckst Boot til þessa meins.

4. J þessum Speigli þad sie eg, þeim sem Drottiñ er Reidur miog, hverki verdur til Huggunar, Himiñ, Lios, Jord nie Skiepnurnar, æn Guds Naadar er allt um̃ kriing, Eymd, Mæda, Kvol og Fordæming.

5. Framar sieſt hier hvad faarlig sie, Fordæmdra Kvol i Helviite, fra eiñi Plaagu til añarar, i ytſtu Myrkrum þeir raafa þar, O hvad Syndin afſkaplig er, allt þetta færir hun med ſier.

6. J þridia maata af þeſſu ſieſt, þad lærdu Saal mijn allra beſt, Guds Reide-Elld og eilyft Faar, Utſloktu og lægdu Herrañs Taar, allt honum þvi til ama var, ſo allt verdi þier til Huggunar.

7. Hrygdar Sporiñ þijn Herra miñ, Himnariike mig leida iñ, i Nætur myrkrum læ Neyd æ þier, Naadar og Dyrdar Lios gaſſt mier, Vinir þier eingua veittu ſtod, ſo Vinſkap feingi eg vid ſañañ Gud.

8. Þar kom lokſins æ þeirri tijd, þreytti Jeſus vid Daudañ Strijd, Andlaat mitt bædi og Bana Soott, bleſſadiſt mier æ þeirri Noott, Daudiñ tapadi, Drottiñ vañ, Dyrdligañ Sigur gaf mier þañ.

9. A gleck ſo Daudans Aſlid rijkt, eckert Dæmi mæ fiña ſlijkt, allur Lijkami Lauſnarans laugadiſt þa i Bloode hañs, ſa Dreyraſveitiñ Dundi æ Jørd, Drottiñs Pijna þvi miog var hord.

10. J Adams Brote var Bloodſkulld giord, Bolvan leiddi þad yfir Jord, Jeſu Blood hier til

til Jardarhnie, Jørdin aptur so blessud sie, Avøxtur Groode og Alldin klaar, ojs verda ad Notkun sierhvert Ar.

11. Saarkallda Daudans Sveita Bad, um̃ sijdir þa mier kiemur ad, Saarheiti Dreyra Sveiti þiñ, sefe og myki Jesu miñ, Angistar Sveita eilijft Baal, alldrei laat snerta mijna Saal.

12. Mier er so Kvøl þijn miñileg, at Morgni hverium þa uppstend eg, fyrst eg stijg nidur fæti at Jord, fær eg þier Lof og Packargiørd, Blood sveiti þiñ eg bid mier sie, Blessan og Vernd at Jorduñe.

13. Hørmung þa særir Huga miñ, hef eg mig strax i Grasgard þiñ, Dropana tijni og Dreyra þijns, Drottiñ i Sioodeñ Hiarta mijns, þad Gialld alleina gylldir mest, hia Gudi fyrir mijn Afbrot vest.

14. Upphaf alls mesta O-føgnuds, Afløgun straaung og Reidi Guds, bætt er Fridstillt og forlikad, Fadiriñ liet sier lynda þad, Sonuriñ bar hañs Brædi frij, borgadist Præll:ñ wt med þvi.

15. Þess meir sem Pijnan þreyngdi ad, þvi iñniligar Jesus bad, Heilagur Engill Himnum fraa, Herrañ siñ kom ad styrkia þa. Eñ hefur þu hier eiñ Lærdoom, idka og lær hañ Saal mijn froom.

16. Ef þier verdur sem opt kañ skie, Undandraattur at Hialpiñe, Bid, stin, Andvarpa æ þvi meir, sem laukast vilia Harmar þeir, Forurligt

urligt Hiarta hefur Gud, vid hvern sem lijdur Kroß og Naud.

17. Sia þu ad Engill sendur var, Syni Guds hier til Huggunar, þeir goodu Andar oſs eru nær, alla tyma þa bidium vær, hellst þa Lijfs enda lijdur ad, Lazari Dæmi syner þad.

18. Heidur, Lof, Dyrd a Himni og Jørd, Hiartanlig æstar Packargiørd, Drottiñ Jesu þier sætast sie, sungid af allri Kristniñe, fyrir Strijdid þig þiade frekt, þad er vort frelsi æsinlegt.

## Fiordi Psalmur.

Samtal Christi vid Lærisveinana, Ton. Eiñ Gud Skapare allra sa, etc.

Postula kiøri Christur þria, i Kryliñi sier ad vera hia, baud þeim vakid og bidied vijst, brædlig Freistni so grandi sijst.

2. Strax sem Jesus uñ Steinsnar nær, stie frañ leingra (þeß giætum vær) allir Sofnudu sætt med Roo, sialfur Herrañ eiñ vakti þo.

3. Adur var soddan uñ þig spaad, ætsett framkom nu Herrans Raad, þu hlautst Guds Reidi Prwgu eiñ, þreyttur ad troda Jesus hreiñ.

4. Ef eg skal ecke sofa i Synd, so er Natturan veyk og blind, uñ Steinsnar mattu eitt mier þa, alldrei miñ Jesu vijkia fra.

5. Nætur Hvijldin mijn Natturlig, noog er mier

mier trygg þa veit eg þig, hia mier vaka til Hialp-rædes, hvert Kvølld vil eg mier ofka þess.

6. Prisvar Jesus til þeirra foor, þo ad hañ mæddi Piina stoor, hañ bad Petrum med þyrti lund, hia sier vaka um̃ eina stund.

7. Eñ hañ sofnadi æ þvi meir, ei helldur vissu sialfer þeir, hveriu svørudu hønum þa. Herrañs Piinu miøg jok þad aa.

8. Mig hefur liufur Lausnariñ, leidt iñ i Naadar Grasgard siñ, vakandi so eg væri hier, Vitni Skiirnin mijn um̃ bad ber.

9. Ungdooms Bernskan sem vonlegt var, vill de mig ofmiøg svæfa þar, Forelldra Hirting hogværlig, hañs vegna kom og vakte mig.

10. Alldurinñ þa mier odladest afiell Giaalijfis Svefniñ mest, Kieñimeñ Drottins komu þratt, kolludu mig ad vakna braatt.

11. Fullvaxiñ Gleymsku Svefniñ saar, sokti mig heim og vard miøg daar, Diman Heims Elsku droost ad med, dapurt vard mitt til bænar Gied.

12. Þa kom Guds Anda Hræring hrein, i Hiartad mitt iñ sa Liomiñ skein, eñ i Heimskunni so eg svaf, sialdan mig neitt ad slijku gaf.

13. Faarlega var mijn Fijflskan blind, forlaat mier Jesu þessa Synd, hvar med ad jok eg Hørmung þier, eñ Hefnd og Refsing sialfum mier.

14. Laattu þo alldrei leidast þier, liuft Jesu ad benda mier, huxi til mijn þitt Hiartad mildt, hirtu mig lijka sem þu villt.

15. Vil eg nu Hiartans fegiñ sar, Frelsare miñ ad vaka hier hia, Andiñ til reidu er i stad, ofmiøg Holldid forhindrar þad.

16. Jesus unti med liufri Lund, Lærisveinum ad hvila um̃ stund, þvi hañ vorkynti þeim og mier, þad eitt mijn blessud Huggun er.

17. Sijdast allra þa sar hañ þar, Svikara lid fyrir Hendi var, Baud þeim vakid og bidied best, burt er nu Værdar tijdin mest.

18. Soddan Aminiñing Saala mijn, sañlega skylldi naa til þijn, so þig ey skade Svefniñ vær, Svikariñ er hier ecki siær.

19 Dauđiñ forrædur Fiorid þo, fyrr eñ vardi þvi margur doo, hañ er i naand þo siaist sijst, sierhvern Dag er hañs Ahlaup vijst.

20. Dauđiñ þa mætir däpur þier, Domiñ hefur hañ eptir sier, Andskotiñ bijdur hviñ þar, i Báalid vill draga Saalirnar.

21. Siaa þu vel til ad soddan Her, sofande komi ecki ad þier, i hreiñi Jdran þu hvern Dag vak, Herskruda Drottins aa þig tak.

22. Bæninnmaa alldrei bresta þig, hviñ er Freisting ymislig, þa Lijf og Saal er lwid og þiaad, Lykell er hun ad Drottins Naad.

23. Andvana Lijk til einskis neitt, er ad Sioon Heyrn og Maali sneidt, svo er aan Bænar Saalin snaud, Sioñlaus, kølld, dauf og riett Steindaud.

24. Vaktu miñ Jesu, vaktu i mier, vaka laattu mig eins i þier, Saaliñ vaki þa sofnar Lijf, sie hun ætijd i þiñi Hlijf.

# Fimti Psalmur.

## Um̃ Gydingaña komu i Grasgardlũ.

Ton. Heidrum vier Gud af Hug og.

Medan Jesus þad mæla var, Mañfiølde kom i Gardeñ þar, Judas sa Herra siñ forried, Sveinar Prestaña og Striidsfolk med, Skrid-byttur bæru Blis og Sverd. Bwnir miøg wt i þessa Ferd, Um̃ þad eg framar, þeinkia verd.

2. Verdur þad opt þa varir m iñst, voveisslig Hætta biwin fiñst, ein Nott er ei til enda tryga, ad þvi a Kvølldiñ Saal mijn hygg, hvad hellst sem kañ ad koma uppa, kios þier Jesum ad vera hia, Skielfing eingin þig skadar þa.

3. Eñ Judas hafdi adur sagt, Audkieñi þeim og so vid lagt, hvern eg kysse Handtaked þañ, høndlid med giætni og bindid hañ. Varastu Saal mijn Svik og Prett, þo synast megi i Hylming sett, Drottiñ augliost þad dæmir riett.

4. Eñ JEsus adur allt fornam, hvad Ætte vid hañ ad koma fram̃, þo gieck hañ sialfur þeim a mot, þañin ræddi med Kiærleiks hoot, ad hverium leitid, hingad þier, Hopur Illmeñis þañin tier, Jesum Nadverska nefnum vier.

5. Jeg er hañ, sagdi Jesus þa, Judas sialfur stood Floknum hia, Øflugt var Drottins Ordid þad, allir til Jardar fiellu

i stad. Hvad hañs Ovini hrelldi mest, huggar nu mijna Saalu best, i allri Neyd þad auglyses.

6. Þa eg fell edur hrasa hier, hædstur Drottiñ vill reidast mier, þa segir Jesus eg er hañ, sem Endurleyste hañ Syndarañ, med mijnu Bloodi og Beyskri Pijn, Bræði Fadir kiær stilltu þijn, Eflaust er þad Afsokun mijn.

7. Diofull, Synd og Samviskan ill, Saalu mijna þa kvelia vill, Eins segir JEsus, Eg em hañ, sem afmaa þijna Misgiord vañ, lijka sein Vindur liettfær Sky, laangt feikir burt og siaast ei þvi, aa mig trwdu, so ertu frij.

8. Þegar mig særer Soott eda Kvøl, Sorglig Fatækt og Heimsins Bol, Jeg veit þu segir: Jeg er hañ, JEsus sem lækna vill og kañ, Audlegd aa Himnum aattu vijst, Eymd þijn og Hrygd i Gledi snijst, Heimiñ sigradi eg, hrædstu sijst.

9. A Daudastund og Domsins tijd, Drottiñ þad skal mijn Huggun blijd, Ord þitt er sama, Eg er hañ, sem iñ þig leidi i Himna Rañ, Þion miñ skal vera þar eg er, þvi hefur þu JEsus lofad mier, gladur eg þa i Fridi fer.

10. Jeg segi aa moti, jeg er hañ, Jesu, sem þier af Hiarta añ, Ord þitt laat vera eins vid mig, elska eg, seigdu lijka þig, eilijft þad Samtal ockar sie, uppbyriad hier aa Jordune, Amen; eg bid so skylldi skie, Amen.

# Siotti Psalmur.

## Um̃ Judas Koss, og Christi Faangelsi.

Ton. Eiñ Herra eg best ætti.

Frelsariñ hvergi flydi, Fiandmeñ þa laau señ, Herrañ beid þeirra hiñ þijdi, þeim leyfdi at Fætur eñ, hvern hellst þeir hyre ad siña, hañ spyr sem liost eg gier, jafnt sem fyrr Judar iña, Jesum af Nazareth.

2. Eg em hañ, aptur sagdi, añad siñ Jesus haatt, Lærisveinunum lagdi, Lijknar Ord þetta bræætt, ef mijn ydur lyster leita, þa laatid þessa frij. Bwen var hañ ad heita, Hialpræðis Ordi þvi.

3. Hier af maa heyra og skilia, Herrañs vors Jesu Magt, ecki gat aan hañs Vilia, at hann neiñ Hendur lagt. Vid mig þo Hatri hreisi Heiptar Meñ illgiarner, eingiñ kañ utañ hañ leysi, eitt skierda Haar at mier.

4. Fodurnum Hiarta hlydiñ, hañ gafst at þeirra Valld, Saal mijn þvi siert okvijdin, siaa, þitt Ohlydnis Gialld, viliugur villdi hañ bæta, vijst er þijn skyllda audsien, aast og Audsveipni mæta, aatt þu ad leggia i gien.

5. Judas kom fliott sem kuñi, Kyssandi Jesum nu, mællti Flaaraadum Muñi, Meystari sæll vert þu, Herrañ Hogværdar rijkur, hañ sagde þu miñ Vin, med Koss Son Mañsins svijkur, sijst mun þvi Hefndin lin.

6. Evu Muñ Eplid eina, aumliga ginti um̃ siñ, Falls Koss þvi fiek ad reina, Frelsariñ Muñur þiñ, Blijdmælum Diosuls bægdu, so bleckist eg ecki af þeim, Heims Hrecki lijka lægdu, Lijf mitt og Æru geym.

7. Audsien eru Augum þijnum, øll Viel og Laun-Svik hier, hritt þeim wr Huga mijnum, hreint skapa Gied i mier, virdstu mig|Vin þiñ kalla, verda laat Raun þar a, Hollds Brest og Præsni alla, hindra og rek mier fra.

8. J Hrygd og Hæska mykiñ, hefur mig Satan leidt, O hvad opt og verd sviikiñ, ei giet eg hia þvi sneidt, Son Mañsins Svikum mætti, sañliga uppa þad, Svikaña Hæskiñ hætti, hia mier ei findi stad.

9. Muñur þiñ (ad eg meina) miñist vid Jesum bert, þa Hollð og Blood hans hreina, hier fær þu Sæl mijn snert. J Guds Nafni ad þier gærdu, gief hønum ei Koss med Viel, i Trw og Jdran þig tiædu, tilbw þitt Hiarta vel.

10. Þangad þegar ad Stundu, þusti Illrædis Lid, liufasta Lamb Guds bundu. Lokid var øllum Frid, Hardsnunum Reipum reirdu Rangletis mijns hañ gallt, Drottiñ i Droma keyrdu, dosnadi Hollðid allt.

11. Judar þig Jesum streingdu, Jeg gaf þar efni til, Synder mijnar þier þreingdu, þess nu eg idrast vil, Slæpa bond af mier, grei ir og gief mier Frelsed þitt, andlegum Dosa eydir, sem a-fiell Hiartad mitt.

12. Guds

12. Guds Son var gripiñ Hondum, giefiñ svo yrde ea frij, hañ reyrdist hordum Bondum, hlaut eg Myskun af þvi, Fiotur þuna og Fangelsi, freckt læ miñ Herra æ þier, Daudans og Diøfuls Helsi, duttu þvi laus af mier.

13. Bid eg þijn Bondin hordu, bindi nu hvern miñ Lid, fra allskiñs Glæpa giørdum, og goldum Heimsins Sid, laus og lidugur Andi, lijfs medan dvelst eg hier, þier sie jafnan þionandi, þessa Boon veitu mier.

# Sioundi Psalmur.

## Um Vern St. Peturs, og Malchus Eyra-Saar. Ton. Giæsku Gud vier prijs.

Pausnarans Lærisveinar, þa litu Adburd þañ, og Juda Athafnir einar, aller señ spurdu hañ: Eigum vier ecki ad slæ, Ovina Sveit med Sverdi, so hier ei þyngra verdi? Sæl mijn hier gior ad gæ.

2. Ef þu Aforma villdir, eitt hvad sem vandi er æ, þarflig Raad þiggia skylldir, og þig vel fyrer siæ, af þvi optliga sker, sa sem er eiñ i Raadum, eiñ mætir skada braadum, seint þær ad idrast er.

3. Eñ med þvi Mañlig Vitska i morgu nææir skamt, a allt kañ ecki ad giska, sem er þo Vandasamt, Kost þañ hiñ besta kios. Guds Ord sær sijndt og sañad, hvad sie þier leist eda bañad, þad skal þitt Leidar Lios.

4. Petur med svellu Siñi, Sverd wr

Slijd-

Slijdrum dro, hañs trw eg Brædin brynĩ, og beint i Flockeñ sloo, Malchus hlaut hier af Tioon, hañ misti hid hægra Eyra, Høggid tok eckimeira, þessi var Biskups Pioon.

5. Lausnariñ liost nam svara, Læri-sveinunum fyrst, læirid þessa fram̃ fara, frekast i siñi list, Petri svo sagde nu, Sverds Dauda sa skal sekur, sem Sverd ann leisis tekur, Sverd slijdra Simon þu.

6. Meinar þu Fadiriñ milldi, munde ei senda hier, ef eg þess Oska villdi Eing-la til Fylgdar mier, fleiri eñ Tolf Fylk-ingar, eda mun skyllt eg ekki, a steinkrañ Kaleik drecki, sem mier þo settur var?

7. So mun uppfyllast eiga, hvad er i Ritning tiead, og sijdan sañast meiga, hvad sieft fyrer løngu spæd, So epter Sermon hañ, Eyra Pionsins æhrærdi, sem ædur Petur særdi, læknadi ad heilu hañ.

8. Sæl mijn lærum og siæum, med sañre Hiartans list Tveñslags Sverds gløgt vid gæum, greina skal þar um̃ fyrst, Sverd Drott-iñs Domariñ ber, Sverd egin Hefndar añ-ad, sem øllum verdur bañad, þad kieñir Christ-ur hier.

9. Bid eg hier gløgt ad giætir, good Valldstiorn heidarlig, Saklausañ sijst þu grætir, nie sialfañ meid-

meidir þig, vird Sverd Guds Vandlætis, Blood skalltu þvi ei baña, burtsniþd þu Grein Lastaña, merk Dæmi Moysis.

10. Pitt, Sverd sem þitt er egid, fyrir þijna egin Sok, skal ei wr skeidum dregid, skijr eru þar til Rok, Jesus þad bañar vert, honum er skyllt þu hlijdir, hogvær umberer, lijdir, þad moti þier er giort.

11. Ræn ei Gud sijnum Rietti, þvi reiknast Hefndeñ hañs, Valldstiorn til verndar setti, vijda um Bygdir Lands, Elligar ad þvi gaa, Sverd Drottiñs sem hier nefnist, sañliga a þier hefnist, Tioon þitt tvøfalldast þa.

12. Malchus sem misti Eyra, merkir þa alla frij, sem Ord Guds ecki heyra, ega þo Kost a þvi, Heyrn er þeim hægre sliod, Vinstri Hlust heilli hallda, Haad og Spielni Margfallda, noog gieta numid þo.

13. Skalka mark mætti kalla, Malchus hier feingi riett, a Guds Ovini alla, Einkieñi slijkt er sett, Ord hañs ei ackta hier. Jeg bid og jafnan sege, Jesus miñ lattu eigi, þad Merki sicast a mier.

14. Eñ siñur þu hier framar, Frelsarans Dæmid best, Hormungar hættusamar, a honum laau mest, sitt Traust þo setti hañ, a Guds Fodurs Giædsku rijka, gior þu þad Saal mijn lijka, ef Kross þig henda kañ.

15. Kvol sijna Jesus kallar, Kaleik a Steinkteñ sier, Kross þiñ og Eymdir allar, eins mættu

nefna

nefna hier, þvi Drottiñ drack þier til, fyrir þig þa hañ pijndist, so þu mijn Sæl ei tijndist gior honum giarnañ skil.

16. Þu mátt þig þar vid hugga, hañ þeckir Veykleik Mañs, Um̄ þarftu ecki ad ugga, A-dryck in-skamtiñ hañs, vel þijn Vankvæde sier, hid Strasta drack hañ sialfur, sætari og miñi eñ hælfur, Skierfur er sklenktur þier.

17. Heypt mijna og Hefndar næmi, hefur þu Jesus bætt, mier gafst Mañgiæsku dæmi, þa Malchum sieckstu grædt, eg þarf og eiñim vid, Eyrad mitt læknad yrdi, so Ord þitt heyri og virdi, þijdliga þess eg bid.

18. Hialpa mier Herra sæli, ad hallda Krossbikar miñ, so mig ei undan mæli, nie mögli um̄ Vilia þiñ, eg bid Almætti þitt, vorkyñe miñi Veyki, ef verda kañ eg skeiki, hrestu þa Hiartad mitt, Amen.

# Attundi Psalmur.

## Predikun Christi fyrir Gydingum.

Ton. So frials vid Logmal fæddur.

Taladi Jesus tijma hañ til vid Ovini sijna, sem komnir voru ad höndla hañ, heyr um þa Kieñing sijna.

2. Sem til Illvirkia eru þier, vtgeingnir mig ad fanga, ædur gat eingiñ meinad mier, i Musterinu ad ganga.

3. Dagliga hef eg synt og sagt, Sañleik-

liksins] Kieñing mæra ; einginn gat Hendur a mig lagt, ættud nw þess ad giæta.

4. Afer stendur nu ydar Tijd, Uppfylld svo Ritning verdi, Myrkrañа geisar Magtin strijd, mæla so Jesu gierdi.

5. Einfalindi Blessad Lausnarañs, lijttu hier Saal mijn kiæra, sa vill ei Dauda Syndugs Mañs, soddan mættu nu læra.

6. Jesus þeim syndi i sañri Raun, Saalar heill Raad og Frelsi, Guds Syni Judar gulldu i laun, Grimd, Hatur og Fangelsi.

7. Furda þvi Saal mijn eingin er, ei skallt þvi Dæmi tijna, Po Verolldin launi vondu hier, Velgiord miog litla þijna.

8. Gydinga Dæmi skynia skallt, skil þig vid Odygd slijka, Packlæti fyrir Godgiord giallt Gudi og Mоñum lijka.

9. Jeg læt mier þessu jafnframt sagt, Jesu af Ordum þijnum, einginn gat Hendur a þig lagt af egin Vilia sijnum.

10. Pañ Takmarkada Tijmans Punct, tilsetti Fadiriñ milldi, nær þad Anaudar Okid þungt, yfir þig ganga skylldi.

11. Eins Upphaf lijka og Ending med, allrar Hormungar miñar, Fadir Hymneskur er fyrir sied, i Forsioon Myskunar þiñar.

12. Pessi nu Tijmiñ ydar er, Ovinum Jesus sagdi, Herrañs eg þetta Maaltak mier i Miñi og Hiarta lagdi.

13. Nu stendur yfir Raadartijd, Naudsyn er

þess

þeſſ eg giætti, lijdur mig Drottiñs Bidlund blijd, Brot mitt ſo kvittaſt mætti.

14. Ef eg þa tijd ſem Gud mier gaf, Gaalaus forſooma nædi, Drottins Tijme þa tekur af, Tvijmælin̄ øll i Brædi.

15. Pvi leingur ſem hañs Bidlund blijd, bedid forgiefins hefur, þeſſ hardari mun Heiptin ſtrijd, Hefndar þa Drottin̄ krefur.

16. Gudsvegna ad þier giæt mijn Saal, Glæpum ei leingur ſafna, giørum Jdran þvi meir eñ maal, mun vera Synd ad hafna.

17. J Dag vid ſkulum ſkipta um̃ ſkiott, ſkal Synd aa Flotta rekin, hver veit nema ſie nu i Nott, Naadin i burtu tekin.

18. Talar Jeſus um̃ Myrkra magt, merkid þad Valldſtiornendur, ydur ſkal nu j Eyra ſagt, Um̃dæmid Heims tæpt ſtendur.

19. Lioſid Myrkrin̄ burt leidir frij, med Liooma Byrtu ſiñar, Varaſt ad ſkyla Skaalkum þvi, i Skugga Magtar þiñar.

20. Minſtu ad Myrkra Maktin hver, þa Myrkur Daudans ſkalt kaña, j ydſtu Myrkrum eingiñ ſier, Adgreining Høfdingiaña.

21. Myrkri liettari er Magtin þijn, minſt þeſſ fyrir þin̄ Dauda, þa Drottins Haatignar Dyrdin ſkijn, hañ dæmer eins Rijka og Snauda.

22. Fyrſt Magt Heims er vid Myrkur lijkt, mijn Saal hallt þier i ſtilli, varaſtu þig ad reida rijkt, aa Rijkis maña Hilli.

23. Drottiñ Jesu þu Lijffins Lioos, Lystu Valldstiornar Mœñum, so þeir sem rœda yfir oss eflist i Dygdum soñum.

24. JEsu þijn Kallda Kvalastund, Kvalatijd af mier svipti, Guds Barna gafft mier Gledesund, good voru þau uñskipti.

25. Myrkraña þreyngdi Magtin þier, mig svo leystir vr Vanda, Kvalaña ytstu Myrkur mier, meiga þvi alldrei granda.

# Nyundi Psalmur.

## Um Flotta Lœresveinaña.

Ton: Jesu Christe þig kalla eg a.

Þat Lœrisveinarnir sau þar, siñ Herra gripiñ høndum; og hañ af Folki versstu var, vægdarlaust reyrdur Bøndum: Allir señ hønum flœdu fra, forlietu Drottiñ hreinañ, i Hasska einañ. Ad soddan skulu vid Saal mijn gaa, siaaum hier Lærdoom beinañ.

2. Aan Drottins Rœda er Adstod Mañs, i eingvu minsta gilldi, saanytt reinist opt Fylgid hañs, er frekast, hialpa skylldi, hver eiñ vill forda sialfum sier, ef synist Haaski bwiñ, ad Hendi snwiñ, fat þvi varliga ad fallvœllt er, Frænda og Vina Trwin.

3. J sama maata sier þu hier, Saal mijn i Speigle einum, ad hryggiligar sie haattad þier, eñ Herrans Lærisveinum, þeir hofdu Leisi Lausnarans, Lijfi ad forda sijnu, fra saarri Pijnu, Naudugir mistu Naaveist hañs, nu giæt ad Rœdi þijnu.

4. Hvad opt Jesu þier stꝛidi eg fra, freckt ꝛt mot Vilia þijnum, þa Glæpa Vegiñ gieck eg ꝛt, Gyrndum fylgiandi mijnum, forskulldad hafdi eg fyrir þad, Flootta Madur ad heita, til Heliar Reita, eñ þu virdtist mier aumum ad, aptur i Myskun leita.

5. Eiñ varstu Jesu epter þvi, i Ovina lꝛtaiñ Hondum, eiñ so eg være alldrei i, Eymd og Freistingum vondum, allir forlietu einañ þig, allt so mig hugga kyñi, i Mañraun miñi, Eg bid Drottiñ lꝛt ecke mig, einsamlañ nockru siñi.

6. Læriſvein Sꝛl mijn sꝛdu þañ, sem Jesu eptirfylgdi, rꝛnglꝛt Ungmeñi ræntu hañ, riett nakiñ vid þad skildi, ber-snøggur Flotti betri er, eñ Brædralag Oriettinda, vid Selskap Synda, A-viñing lꝛt þig eingvañ hier, i þeirra Flocki binda.

7. Burt þadan Jesum færdi fliott, Flockur Illrædis maña, Lamb GUds saklaust, þa leid ad Nott, leiddu þeir til Kvalaña. Myskunar laus su medferd brꝛd, mier virdist epter vonum, i Nꝛttmyrkronum, þeir hafa bædi hrakt og hriꝛd, hrundid og þiakad honum.

8. J Daudans Myrkrum eg dæmdur Þræll, dragast ꝛtti til Pijnu, Eñ þu tokst Jesus son Guds sæll, saklaus vid Straffi mijnu, Pañin tilbiostu Lijfsins Leid, Liomandi Sꝛlu miñi, þ.. Lijf hier liñi, Andlꝛts kvolum og kalldri neyd, Kvijdi eg þvi eingvu siñi.

9. Hrecktu þvi so og hriaðu þig, Herra miñ Jllsku þiodir, ad hier nu bæri a Hondum mig heilagir Englar goder, Mæðusom urdu Myrkuriñ þier, mæta lietu þig hordu, og Hindrun giordu, Guds Dyrdar Lios svo lysi mier, ad lifandi Maña Jordu.

10. Kvalafør Jesu þesse þijn, sem þa gieckstu einusiñi, veri Kraptur og Verndin mijn, svo Vegiñ Lijffins eg fiñi, latt ecki Diofsul draga mig, i Dosenleik Holldsins blinda, til sekta og Synda, eg bid af Ast og Alwd þig, A-kiesd hans burtu ad hrinda.

## Tijundi Psalmur.

### Uñ fyrsta Ransak fyrir Caipha.

Ton. Allt mitt Rad til Guds eg set.

Til Hañas Hwsa Herran Christ, hardraidir Judar leiddu fyrst, beyst fra eg Bønd hañ særi, hønum strax þadan vijsad var, Vidrøk fieck ei nie Hvijldir þar, miøg so þoott mædur væri.

2. Burt sendi þvi med beyskri Pijn, bundiñ Caipha Mæagi sijn, Hañas vorn Herrañ sæta, Høfud-Kieñimañs hædstu Stiett, hafdi sa þetta Arid riett, Guds Løgmaals atti ad giæta.

3. Ur Himnarijkis Hvijldar stad, Høfdum vid Saal mijn forskulldad, wtreckin vijst ad vera, Eñ Jesus tok nu uppa sig, Onaadan þessa fyrir þig, Lof sie þeim liufa Herra.

4. Hiartad bædi og Hwsid mitt, Herbergi veri Jesus þitt, hia mier þigg Hvijld hentuga, Þott þu komir med Krossiñ þiñ, kom þu blessadur, til mijn iñ, fagna eg þier fegins huga.

5. Caiphas hafdi hier um̃ spaad, hentugast mundi þetta Raad, ad deye eiñ fyrir alla. Embættis mællti Andiñ þar, af þvi Hiartad ei visse par, Sañleik Guds siñti valla.

6. Balahams Dæmi eins var eitt, Andagipt slijk var honum veitt, Spaklega Tungan spaadi, hañ hafdi i siñi Hreckia Raad, Hiartad fieck ecki Sañleiks gaad, þvi han Fiegirndin þiadi.

7. O Jesu! laat þiñ Anda hier, alldrei vijkia i burt fra mier, Leid mig Veg Lijfsins Orda, so Hiartad bædi og Maalid mitt, mykli samhuga Nafnid þitt, Hollds girnd og Hræsni forda.

8. Til Caiphas voru komnir señ, Kieñivalldid og Stiornar Meñ, Biskupiñ þegar ad bragdi, leitar Andsvars til Lausnarans, um̃ Lærisveina og Kieñing hañs, eñ Jesus aptur sagdi:

9. Openberliga eñ ecki leynt, i Musterinu kienda eg beint, hvad spyr þu mig um̃ þetta? kuñgiora mega þar um̃ þier, þeir sem Lærdomeñ heyrdu af mier, þa laattu þig leidrietta.

10. Giæt ad mijn Saal og siaadu þar, Sonur Guds undir Ransak var, krafdur þad Kvoll did leina, A Kvolldi hverju þu koma skallt, Kvolldreikning vid þig sialfañ hallt, med Kvolld Offurs Jdran hreina. — 11.

11. Nu Guds Kieñimañ þeink um̃ þad, þar mune um̃ siþer grenslast ad, hvernin og hvad hier kiendir, ad Lærisveinum mun lijka spurt, sem liet þitt Gaaleysi villast burt, huxa glogt hvar vid lendir.

12. Jesus vill ad þijn Kieñing klaar, Kroptug sie hrein og opinskaar, lijk hvellum Lwdurs hliomi, Launstniadran øll og Hræsnin haal, hindrar Guds Dyrd eñ villir Saal, straffast med straungum Domi.

13. Vangiætslan mijn er margvijslig, mill-dasti Jesu beidi eg þig, vægdu Veykleika mijn-um, Forsoomun eingin fañst hia þier, Fulln-adar Boot þad tel eg mier, Styrk veittu Pion-um þijnum.

14. Eins er hier eiñin øllum riett, alvarlig Kieñing fyrir set, Ord Guds elski og læri, Tru in Jñvortis efli Gied, einardlig Jaatning lijka med, Avøgst hid ytra færi.

15. Byskups Pioon eiñ i Brædi þo, Blessadañ JEsum Prœstur slo, so þad Rittningin segir, hogværligt Andsvar Herrañ gaf. Honum Saal mijn þad lærdu af, um̃ Sakleisi þitt ei þegir.

16. O, vart Samvitskan Adam sloo, illañ Kiñ-roda fieck hañ þo, i fyrsta Falli sijnu, þess-vegna Jesus Hoggid hast, hlaut ad lijda og rodna fast, allra fyrst i hans Pijnu.

17. Drottiñ JEsus eg þakka þier, þetta leid stu til Frelsis mier, Eg bid Astsemi þijna

Samvitsku slegiñ svida skiæd, at Saalu miñi þu mykt og græd, burt taktu Bygdun mijna, Amen.

## Ellefti Psalmur.

### Um̃ Afneitan Peturs. Ton: Dagur i Austri ollu, Upp.

Gudspialls Historian gietur, gripiñ þa Jesus var, allir señ utañ Petur, yfergæfu hañ þar, og Læriſveiñ eiñ añar, Aleingdar giengu hlioott; Herrañs Braut Hrigdar saña, harla dimt var af Nott.

2. Caiphas Kieñimañi, kuñugur Læriſveiñ, iñgeingur ótt med sañi, wtistod Petur eiñ, Ambaatt uppluka beidir, okiendañ Petrum þar i Forsal til Lydsins leidir. Lærdoom hiér fiña mátt.

3. Kross Ferli at fylgia Pijnum, fysir mig Jesus kiær, vorkyntu Veykleik mijnum, þo verdi eg aaleingdar fiær, Pa Triw og Pol vill brotna, þreynger ad Neydin vond, reys þu vid Neyriñ Brotna, og riett mier þijna Hond.

4. Kolelld þvi kallt var nærsta, kveikt hafdi Præla lid, Petur med Sturlan stærsta, stod hia þeim Logañ vid, Ambaatt hañ ein sprogserti, af siet þad heyra liet, mun þessi Mañ (hun frietti) med Jesu af Nazareth?

5. Hañ neitar hart ad bragdi, hræddur vid Ordiñ bist, þañ sig ei þeckia sagdi, þar

þaa gool nu Haniñ fyrst, ætlar sier wt ad rijma, øñ ur Perna hañ sꝏ, talar i añ añ Tijma, til þeirra er stodu hiaa.

6. Af Nazareth nu er þessi, nykomiñ Jesu med, hiñar Gied trw eg þad hvessi, hver Madur spyria ried, ertu eiñ af hañs Sveinum, eñ Petur neita vañ, sagdi med Eidi einum, alldrei þeckta eg hañ.

7. Pridia siñ þar til løgdu, Pionar Caiphas bert, Maalfærid sumir søgdu, segir til hver þu ert, Frændi Malchus ried mæla, mundi eg þig ecki siaa (giet eg sijdst Grun mig tæla) i Gardinum Jesu hia?

8. Petur med bliugu bragdi, braadliga sagdi nei, soor sig og saart vid lagdi, soddan Mañ þeckti hañ ei, gløgt þegar giørdist þetta, gool Haniñ añad siñ, sijst maatti Sorgum lietta, Swt slaug i Briostid iñ.

9. Saal mijn þier Faari forda, frekliga voga sijst, aan leisis Drottiñs Orda, Ostyrkt er Holldid vijst, þykist þu stødugt standa, stilla þiñ Metnad þarft, hver sier vogar i vanda, von er sa falli snart.

10. Adur i Alldingardi, ohræddur Petur var, Kallmeñsku Huguriñ hardi, hans sig Auglysti þar, Audvird Ambaatt hañ hrelldi, ofmiog þvi skelfast vañ, fra Sañleik sijdan seldi, sama þig henda kañ.

11. Kolelldi tveiktum jafnast, Kitlande Verälldar Priaal, Prælar Syndaña safnast, samañ vid Losta Baal, fullir med Fals og Villu, fordastu þeirra Glis, ætijd er med þeim Illu, Einfolldum bwid Slis.

12. Ambaatt med ygldu bragdi, er þessi Verölld leid, mørgum Meinsnorur lagdi, miøg æ Spott-yrdiñ greid, Þyed med Prælum sijnum, Piona Guds lastad fær, Styrk mig med Mætti þijnum, mot heñi Drottiñ kiær.

13. Epter Afneitan eina, wt villdi Petur gaa, hugdi hañ Braut sier beina, bwna þeim Solli fraa, þa kom eitt ødru verra, umkrijngdu Prælar hañ, affoor siñ sæla Herra, sier og formæla vañ.

14. Hægt er hverium ad stofna, i Hættu og Vanda spil, Forvitnis Dælskan dofna, dregur þar margañ til. Ogiæfu Gilldran þraungva, greip skiott hañ kuñi ad naa, wtkomu Von fieck øngva, ad þvi i tijma gaa.

15. Opt maa af Maali þeckia, Mañiñ hver hellst hañ er, sig mun fyrst sialfañ bleckia, sa med Lastmælgi fer, Godur af Giedi hreinu, God-ordur reinist vijst, fullur af illu einu, Illyrdiñ sparar sijst.

16. Hryggilig Hrosun henti, heilagañ Drottins Þion, Syndin miøg saart hañ spenti, Saal ar var bwid tion, hvad mun eg maattar naumar, niega þa standast wid, vangiætiñ Vesæll og aumur, Vielum og Hreckia Snid.

17. J

17. J Verralldar Vondsku Solli, velkist eg Jesu hier, Falli þad opt mier olli, ofstødugt Holldid er, megnar ei moti ad standa, mijn Hreysti Naatturlig, lættu þitt Lios og Anda, leida og styrkia mig, Amen.

# Tolfti Psalmur.

## Um̃ Jdran Peturs. Ton̄.

Kom Andi Heilagi.

Petur þar sat i Sal, hia Sveinum in̄i, tvo ent hafdi Hanagal, heyrt ad þvi sin̄i.

2. Bwen̄ var þrisvar þa, hvert han̄ ad neita, sier Jesum Sælan̄ fra, Sorg mæ þad heita.

3. Drottin̄ vor veik sier vid, vijst um̄ þad gietur, liufur med Lijknar sid, og leit a Petur.

4. Strax flaug i Huga han̄s, hvad þo sijst vardi, Lausnarans Ord og Ans, i Alldingardi.

5. Blygdadest brætt vid þad, Briost fullt af Trega, gieck ut ut greindum stad, og griet beisklega.

6. Siæ þu med san̄ri Trw, Sal mijn æstkiæra Hvad framar hefur þu, hier af ad læra.

7. Hætt galar Hanin̄ hier, i hvers Man̄s Giedi, drygdar þa Synder sier, sem Petur skiedi.

8. Sætrliga Samvitskan, sekan̄ æklagar, Jn̄vortis auman̄ Man̄, ængrar og nagar.

9. Fær han̄ sig friælsan̄ sijst, þo fin̄ist hrelld-

ur, sem Fugl vid Snwning snijst, þeim Snaran helldur.

10. Wijkia þo vilie hañ fra Vondsku hætti, orka þvi ecki kañ, af egin Mætti.

11. Upp þo sier ætli braætt, aptur ad standa, fellur hañ þegar þraætt, i þyngri Vanda.

12. Logmaal Guds hropar baætt, Hanagal añad segir og syner þraætt, hvad sie þier bañad.

13. Pad þvijngar þrwgar med, þad slær og lemur, Sorgande Syndugt Gied, særir og kremur.

14. Pad verkar Sorg og Swt, þeim sekа Mañi, Hialpar þo eingvum wt, wr Synda bañi.

15. Holldid þar þriotskast vid, og þykir illa, eykst a þañ Synda Sid, Svik Hræsni og Villa.

16. Eñ Jesu alit skijrt, Anda Guds þyder, sa giører hægt og hyrt, Hiartad um sijdir.

17. Lætur hañ Logmaal bist, Lemia og hræda, eptir þad fer hañ fyrst, ad frida og græda.

18. Ord Jesu edla sætt, er hañs Verkfæri, hellst fær þad Hugañ kiætt, þo hrelldur væri.

19. Hañ giefur hreina Trw, hañ fallñ reyser, hañ veykañ hresser nu, hañ bundiñ leyser.

20. Ei er i sialfs Vallo sett, sem nockrir meina, Yferbot Jdran riett, og Trwin hreina.

21. Hendi þig Hrosun braad, sem helgañ Petur undir Guds ættu Raad, hvert idrast gietur.

22. Heimska er versta vijst, vid þad ad dyliast, þu muner þaa þier lijtst, vid Prautir skiliast.

23. Ef JEsus ad þier snijr, med æstarhoti, lijttu þa Huga hyr, honum a moti.

24. Grata skallt Glæpi sart, en Guð trwa, elska hans Orðið klart, fra illu snwa.

25. O-nyt er Jðran tæp, að þvi skallt hyggia, ef þu i giorðum Glæp, girnist að liggia.

26. Petur þa formerkt fieck, Fall-Hrosun slijka wr Synda Salnum gieck, so giorðu lijka.

27. O Jesu! að mier snu, Asionu þini, siaðu mig særðan nu, a Saalu mini.

28. Þegar eg hrasa hier, hvað miøg opt sanast, bend þu i Myskun mier, so megi eg við kanast.

29. Opt lijt eg upp til þijn, Augum gratandi, lijttu þvi liuft til mijn, so leysist vandi, Amen.

# 13. Psalm.

## Um Caiphas Doom.

Ton. Jesus Guds Son eingietin.

Foringiar Presta feingu, fals vitni mørg til sett, swsliga fram að gengu, fullir með Svik og Prett, Samblioða urðu eigi, uppdicktað margt þo segi, Jesus þa þagði slett.

2. Lær þu ef Lygum mætir, Lijfsreglu Saal mijn hier, með Þolni og Piost ei Prætir þræ-liga so til ber, hoogvær Þogn Heyptir stillir, Heimskorður Sanleik spillir, opt fyrir sialfum sier.

3. Hirt alldrei hvað sem gilldir, að hætta a osatt Maal, hvert veria eður sækia villdir, verður það morgum Taal; Munur sa laungum lygur;

fra

fra Luckuog Blessan hnijgur, hañ deyder sijna Saal.

4. Sañleiks Vitni þo seigi, sekañ mig Gudi hla, ottast þarf eg nu eigi, Asfokun hef eg þa, Liugvotta Lygi megna, leid Jesus miña vegna, Klogun mig keypti fra.

6. Caiphas frietti fyrstur, Falskliga Herrañ ad, sialfur hvert sie hañ Christur, og so eñ framar kvad, vid sañañ Gud eg þig sæti, ef Sonur hañs ertu hiñ kiæri, segdu ost satt um̃ þad.

6. JEsus Jatar ad stundu, jafnframt þvi so nam tia, Son Mañsins siaa þeir mundu, sitia þadan i fra, til Kraptarins hægri Handar, og hier eptir komanda, skiærasta Skye aa.

7. Kieñimañ reif sijn Klædi, kvad slijkt Gud-lastan er, adspyt med ogna Brædi, um̃ þad hvad halldi þier? Allt Radid undir tekur, er hañ vijst Dauda sekur, soddañ samþyckium vier.

8. Jesus ei ansa hirdte, aadur þa logld var Guds Nafn þo giarnan virdti, gaf þvi Caipha Svar, Lygd Heims þo lijtid sætir, Lausnarans Dæmis giætir, leita Guds Lofdyrdar.

9. Hygg ad og herm hid saña, hvenær sem til er reint, hrædst ei Hootanir Maña, hallt þiñi Jaatning beint, giæt vel ad geymir þetta, Guds Ord og Truna rietta, medkiendu liost og leint.

10. Caiphas Logsogn leida, lært hafa margir eñ,

eñ, hvad sem Hofdingiar beida, hinir ællickta señ, Vinskap sig villa læta, viliandi raungu jæta, fordist þad fromir Meñ.

11 Su er mijn Huggun sama, sem þijn var Jesu miñ, Krossiñ þær ad vill ama, Ossokn og Hørmung stiñ, hia þiñi Hægri Hendi, hier þo ad Lijfid endi, Fagnadar nægd eg fiñ.

12. Pier til Gudløstun lagdi, Liugandi Kieñimañ, Dauda sekañ þig sagdi. Sañliga Urskurd þañ, ætti eg ad heyra helldur, hart med riettu Sakfelldur, vijst eg nog til þess vañ.

13. Andligt Valld einum Romi, Urskurdar Daudañ þier, Drottiñ i Nædardomi, dæmir þvi Lijfid mier, þacka eg Elsku þiñi, þu keypter Sælu miñi, Frijun og Frelsi hier, Amen.

## 14. Psalm.

### Um Pionaña Spott vid Christum.

Ton. Allfagurt Lios oss byrtist.

Eptir þañ Doom sem allra fyrst, Andlegir dæmdu um Herrañ Christ, hafa þeir, þvi ad þa var Nott, þegar til Hvijldar gengid skiott.

2. Drottiñ vor eptir þreyttur þat, Prælum til Giætslu fengiñ var, giørdi ad hønum gis og Dar, Gudlausra Maña Flockur þrær.

3. Hædung, Spottyrdi, Hroop og Brijxl, hver liet med ødrum ganga a vijxl,

Hræktu

Hræktu og slou Herrañ þar, hañ þo a medan bundiñ var.

4. Siaa þu og skoda Saala miin, Saklausa Lambsins beysku Piin, hugsa vandliga um̃ þad allt, af þessu hvad þu læra skallt.

5. Hañ sem ad Nætur Hviilld og Roo, hverri Skiepnu af Myskun bioo, i siñi Ogna Eymda stærd, eingvañ kost fieck a neiñi Værd.

6. Hviildar Noott marga hef eg þaad, Herra Jesu af þiñi Naad, Kvøl þijn Eymdum mig keypti fra, kañast eg nu vid Giædsku þa.

7. Nær sem eg reini Sorg og Sott, seinast ad kiemur Daudans Noott, Nætur kvala sem neyddu þig, niota laattu þa Jesu mig.

8. Samvitsku Sløg og Satans Haad, sesi Jesu þijn blessud Naad, Ofbod Daudans og Andlaats Piin, aftaki og Myki Giæskan þijn.

9. Margur (og viist þad maklegt er) mieg þessum Skaalkum Formæler, Po fiñast nockrir hier i Heim, ad Hegdun allri lijkir þeim.

10. Hvad giora þeir sem hier a Jørd, hafa ad Spotti Drottins Ord, Lifa i Glæpum lioft til sañs, lasta og Forsmaa þiona hañs.

11. Sa sem Guds Naad og Sañleikañ, sier þeckir veit og skinia kañ, kukl og Fiølkyngi kyñir sier, Caiphas Prælum verri er.

12. Soniñ Guds ecki þecktu þeir, þvi Syngda hinir laangtum meir, sem kallast vilia Christnir best, Christum þo lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir sem Hrecki og Synd, hilia þo

þo undir Fromleiks Mynd, Lijkiast þessum sem Lausnaraň, Lomdu Blindandi og Spiodu haň.

14. Hverium sem Spott og Hædni er kiær, haň geingur þessum Selskap nær, Forsmaaň Gudrækins Fatæks Maňs, fyrirlitning er Skaparans.

15. O! Vesall Madur ad þvi gaa, eptir mun koma tijmi saa, sama hvad nidur saair hier, sialfur aan efa upp þu sker.

16. Ef hier aa Jordu er Hrop og Haad, Hædni og Gudlast nidursaad, uppskorid verdur eilijst Spie, Agg og Forsmaan i Helvijte.

17. Ætla þu ecki aumur Maň, af komast muni Strafflaust haň, sem Soniň hefur hier hædt og spiad, horsi Fadiriň uppa þad.

18. Hvad Jesus nu uň Nætur skeid; Naudstaddur hier af Moňum leid, Ogudlegur uň Eilijfd þa, af illum Dioflum lijda maa.

19. Okiendum þier þo aumur sie, alldrei til legg þu Haad nie Spie, þu veist ei hvern þu hittir þar, helldur eň þessir Gydingar.

20. Sialfaň slær mig nu Hiartad hart, hef eg aan efa mikiň Part, af soddan Illsku aastundad, audmiukliga eg medgeing þad.

21. Saad hef eg nidur Synda Root, Svijvirding mijn er morg og liot, Uppskieru Tijmaň ottast eg, aangrast þvi Saaliň næsta miog.

22. Herra miň Jesu Hormung þijn, Huggun er Bædi og Lækning mijn, Sakleysi vijst þu saader hier, Saaluňar Avoxt gafstu mier.

23. Blood-

23. Blooddropar þijnir, blessad Saad, ber þañ A-voxt sem heitir Naad, þañ sama GUD mier sialfur gaf, Saaluhialp mijn þar sprettur af.

24. Hæddur varstu til heidurs mier, Hogg þijn og Sløg mijn Lækning er, alldrei mun Diøfull eiga Valld, a mig ad leggia Syndagialld.

25. Eñ þier til Heidurs aptur a mot, Idrast vil eg og giora Bot, Hollds Vilia giarnan hefta miñ, Hialpi mier Jesu Kraptur þiñ, Amen.

## 15. Psalm.

### Uñ Raadstefnu Prestaña yfir Christo.

Ton. Christs er koma fyrir Hondum.

Miøg aarla uppi vooru, Ølldungar Juda señ, so til Samfundar fooru, fyrstir þo Kieñimeñ, i Raadslag lietu leidast, lijkar þad øllum vel, hvernen þeir giæri greidast, Guds Syni komid i Hel.

2. Heimtu med Heyptar Lundu, Herrañ vorn til sijn braatt, Orïøk þvi eingva fundu, allir señ mælltu haatt, seg oss ef ertu Christur, einasti Son GUDs sa, Grædariñ Giæsku listur, gaf Andsvar þar uppa.

3. Þo ydur eg þad segi, ecki samt truvi þier, Andsvarid mier og eigi, ef eg spyr nockurs hier, Mañsins Son sitjed sitia, señ hia Guds Hægri Hlid, i Skye mun eiñin vitia, aptur med Dyrdar Sid.

4. Ertu

4. Erru Guds Son þeir søgdu: svaradi Drottiñ, jaa, diarfir þañ Doom aa løgdu: Daudamadur er saa Uppstoodu strax ad stundu, strijd þeim i Hiarta brañ: Frelsarañ Fiøtrum bundu, færdu Pilato hañ.

5. Hier maattu Saal mijn saña, so gengur þad til vijst, Ástundan Illvirkiaña, Umhyggiu vantar sijst, aarla þeir Blundi bregda, binda fast øll sijn Raad, Klookliga Hreckium hegda hver sem þess fengi gaad.

6. Eñ þu sem aatt ad vera, Utvaliñ Drottins Þion, Verk hañs og Vilia ad gera, og varast þitt Saalar tion, Andvara eingvañ hefur, Umhyggin lijtill siest, vid Glis Heims Gaalaus sefur, Gud naadi soddañ brest.

7. Marger upp aarla rijsa, ei gieta sofid vært, epter Aud Heimsins hnysa, Hollds Gagned er þeim kiært, Saalin i Brioste sofnud, syniſt ad mestu Daud, til allra Dygda dofnud, sem Drottiñ hellst þa baud.

8. Forsionar Verkmeñ vijsir, Vijngardi Drottins i, fyrst þa Dags Lioomiñ lyser, liuft bid eg giæti ad þvi, um sitt Embætti hyggi, aarla giørd Bænin sie, Idiulausir ei liggi, i Lijkamans Giaalijfe.

9. Haturs Meñ Herrans vaka, huxandi ad giera Tion, epter þvi aattu ad taka, ef ertu hans Tryggda Þion, vilier þu vid þeim sporna, og varast þeirra Haad, aarla Dags alla Morgna vid Ord Gud Halltu Raad.

10. Þrink nu i þijnu Hiarta, þar næst i añañ stad, hvar um Herrañ ried kvarta, hyggia maattu þat ad

Ordum hans ecki treystu, illgiarnir Judar þeir, wr Spurning eingri leystu, æ þvi vesnudu meir.

11. Hver trwir nu hart þo hooti, Herrann Syndugum Lyd, allfæstir inn a moti, idranar Sveriñ bliid, Hirtingar Hialpa ecki, Heimur vestnandi fer, Blindleikiñ tru eg oss blecki, hwid straff naalægt er.

12. Wijst er eg veikur ad trwa, veitstu þad Jesu best, fra Syndum seiñ ad snwa, soddan mig ængrar mest, þo framast þad eg megna, þijnum ordum eg vil, treysta og giarnan giegna, gief þu mier Nad þar til.

13. Þar næst ad þessu giætir, þad er og Lærdooms grein, ef þu o rietta mætir, Assokun dugir ei nein; hafdu þa Bidlund hyra, Herrañ mun til þijn siaa, laa þolgieds dæmid dyra, Drottins þig hugga þaa.

14. Mier er sem i Eyrum hliomi Urskurdur Drottiñs sa arla a efsta Domi, upp þegar Daudir staa, Assokun ei mun stoda, Andsvoor nie Spurningar, sa stendur vijst i Voda, sem verdur sekur þar.

15. Hier er nu Kostur ad heyra, Herrañ talar di i Naad, opni Jesus mitt Eyra, so ad þvi feingi gaad, Hogvær vors Bata bijdur, Blessadur þessa Tijd, añars Heims er hañ strijdur, ollum Forherdium Lyd.

16. Arla Urskurdiñ laadu, a þig Gydingar þo, Jesu, og sekañ s adu, selldu þig Pilato, aarla a efsta Degi. Assokun gilldir sw, til Dauda eg Dæmist eigi, Drottiñ þess miñist þu.

17. Arla Dags uppvaknadur, ætijd eg miñist þijn, Jesu miñ Hialpar hradur, hiura þu æ til mijn, aarla a efsta Domi, Assokun vertu mier, minstu

miſtu þa Frelſariñ froomi, hvad fyrir mig leidſtu hier, Amen.

# 16. Pſalm.

## Uñ Judaſar Jdran.

Ton. Konung David ſem kiendi.

Judas i girndar grædi, af Gydinguni um fyrſt, þriatige Peninga þadi, þvi ſveik hañ Herrañ Chriſt, lioſt þegar lijta vañ, Drottiñ var nu til Dauda, dæmdur og þungra Nauda, Jdradiſt eptir hañ.

2. Greidt i Muſterid geingur, greinir ſo Ritning fra, uñ Sylfrid ſynti ei leingur, ſeñ vill þad Preſtum fa, ſagde med ſarum mood, O! hvad eg giørdi illa, þa yfir mig kom ſu Villa, ad ſveik eg ſaklauſt Blood.

3. Lidſemd Preſtarnir løgdu, litla ſem von var ad, hardlyndir hønum ſøgdu, Hvad eigum vier med þad? Þu mætt eiñ ſiaa uñ þig, Sylfrenu a Golfid grytti, gieck þadan møgg ſiier flijtti, og heingdi ſialfañ ſig.

4. Rædſtefnu Herrar hielldu, hættu þar ſeinaſt vid, fyrir Akur ſialfer ſelldu, Sylfrid Leirkiera Smid ædur ſagt uñ þad var, i Spædoms Søgnum ſoñum, ſa var Vegferdar møñum, gieſiñ til Greftrunar.

5. Siaa þier hvad illañ Enda, Otrvad og Svikeñ fær, Judaſar lijkar lenda, Leitsbrod

ur sijnum hia, Andskotiñ Illsku slær, eñ hefur Snoru snwna, snøggliga þeim til bwña, sem fara med Fals og Dær.

6. Otrw siñ egeñ Herra, ætijd uñ Hælsiñ slo, eingiñ steck af þvi verra, eñ sa Meinlausum bio, Forrædi, Fals og Biel. Judas þvi Heinging hendte, hañ sølskum til sijn bendte, eins og Achitophel.

7. Fiegyrndin Judas selldi, fyrst var hañs Adteckt su, Guds Son Gydingum selldi, gleim, di þvi Æru og Trw, so til uñ sijder gieck, kastadi keyptum Audi, þa kvaldi Sorg og Dau, di', Huggun alls eingva fieck.

8. Undirroot allra Lasta, Agirndin kollud er, Fromleika fra sier kasta, Fiærplogs Meñ Agiarner, sem frekliga elska Fied, Audi med Okri safna, Andligri Blessan hafna, eñ setia Sæl i Ved.

9. Añad hvert er i vonum, Auduriñ fagur nu hafnar þier, Ellegar honum, hryggur burtkastar þu, þa Daudiñ þreyngir ad, Agyrndin otæpt svelgir, af þvi Sælena velgir, i kolldum Kvalastad.

10. Falsi og Fiegirnd ræængri, forda þier Sæl mijn blijd, so mætir ei Ogn nie Angri, þa ad fer Daudans Tijd, vird lijtils Veralldar Plog, hver sa sier lynda lætur, þad lienar Drottiñ mætur, sa hefur alls Nægta nog.

11. Opt Jesus ædur hafdi, Amiñing Judas giørt, Hreckvijsin Hiartad vafdi, hañ hiellt þad einskins vert, nu kom þar eiñin ad, Tilsøgn ha

tade

tade hreina, Huggun fieck þvi ei neina, varastu Vijti þad.

12. Eñ hvad framleiddi hañ illa, ærdur Lijfernid sitt, þessi þo var hañs villa, verri eñ allt añad hitt, ad hañ Orvænting med, Sæl og Lijf setti i Vanda, Synd a mot heiløgum Anda, helld eg hier hafi skied.

13. J Drottni ef villtu deyia, Drottni þa lifdu hier, til ills læt ei þig teygia, Ord Guds sie kiærast þier, sæll er sa so vid bijst, eñ ef þig Ofall hendir, aptur i tijma vendir, undandrag Idran sijst.

14. Brot þijn skallt bliugur jæta, eñ bid þo Gud um Naad, af Hiarta hryggur græta, enn heilnæm þiggia Raad, umfram alle þeinktu þo Son Guds bar þijnar Syndir, og so þu Myskun findir, saklaus fyrir sekañ doo.

15. Drottiñ læt mig ei dyliast, diarfliga Synder vid, þo hier um stund megi hyliast, Herra trur þess eg bid, nær Heimi fer eg fra, Orvænting ei mier grandi, Ord þitt og Sañleiks Andi, Hiarta mitt huggi þa.

## 17. Psalm.

### Um Leirpottarans Akur.

Ton. Fadir a Himna Hæd.

So sem fyrr sagt er fra, Sylfur Peninga þa, hverier loks Judas hrelldu, Høfud Prestarnir selldu.

Diorfung sijna og Hrecki, þeim lijdst so sem
hañ leyfir framt, leingra komast þeir ecki, allt
skal mitt traust, einnarlaust, a hañs Magt jafn-
an standa, hvad munu mier, þa Meñirner, mei-
ga i nockru granda.

8. Jþremslags Tungum var þetta skrad, þvi-
ad vor Herrañ villdi, villdi sijn Elska, Ast og
Nad, allri Þiod birtast skylldi, Hvert Tun-
gumaal, med Huga og Saal, heidri þig JEsu
goodi, sem Kvolin þijn, og Krossins Þijn,
keypti fra Synda moodi.

9. Giefdu ad Modurmaalid mitt, miñ Drott-
iñ þesseg heidi fra allri Villu klaart og kvitt Kross-
ins Ord þitt wtbreidi, uñi Landid hier til Heid-
urs þier, helst mun þad Blessun vallda, medan
þijn Nad vort lætur Lad, Lyde og Bygdum
hallda.

10. Handskript var ein yfir Hofde mier, hun
mijna Saalu grætti, Oñur stood Jesu yfir þier,
sem Angur vors Hiarta bætti, Jesu þu ert, wt-
valiñ bert, undir Kongs Stiornan þiñi, aarla og
sijd, uñi allañ tijd, Ohætt er Saalu miñi, Amen.

## 36. Psalm.

### Uñ Skiptin a Christi Klædum.

Ton. Hvar mundi vera Hiartad 2c.

Strijdsmeñ þa høfdu Krossfest Christ,
Klædnad hans toku snart, skiptu i
Stadi fiora fyrst, fær skylldi hver siñ
 Part,

Part, a Kyrtil prionadan liost med list, løgdu þeir Hlutfall diarft, Foolsku verk medan fullgiørdist, Folkid a horfdi margt.

2. Ritning su eina uppfylld er, ædur var þar um̃ skræd, Skrwda mijnum þeir skiptu sier, skijrliga þad er tiæd, Hlutfallid yfir Fat mitt fer, fæ eg þess eiñin gæd. Set Madur slijkt fyrir Sionir þier, sia Drottiñs myklu Næd.

3. Nu mættu skilia Nakiñ var, negldur Drottiñ á Kross openbert sau allir þar, itruñ iñ Dreira Foss, soddan Forsmæn Guds Sonur bar, sañliga fyrir oss, hier giefst ollum æn Hylmingar, Himneskt Myskunar Hnoss.

4. Kalla eg merki Klædin hans, Christnina i Heimi hier, um̃ fiorar ætter Folldar rañs, Flockur sa dreijsde sier, Lijfkyrtill þessi Lausnarans, Lyknar Ord blessad er, vilie þvi skipta Skynsemd Mañs, Skilning Sañleiksins þver.

5. Ei liet vor Drottiñ Audlegd hæ, epter i þessum Heim, Klædin sem hañ bar Holldi æ eñ hverki Gull nie Seim, þo mætti ei hañs Moodur fæ, hid miñsta af ollum þeim, illir Meñ Hendi yfir þau slæ, alldrei þvi Dæmi gleym.

6. Safna Hoofliga Heimsins Aud, Hugsykin surlar Gied, þigg af Drottni þitt Dagligt Braud, duga læt þier þar med, Holldid þa Jordin hylur raud, hlotnast mæ ymsum Fied,

so

so þig ei gini Girndin snauð, giæt vel hvad hier er skied.

7. Strijdsmanna Heypt og Hardydge, Herrans Kvol gat ei mykt, þo viti noog hann særdur sie, Sinid var Jllskurijkt, Peir sem Fœtækan fir^ra Sie, Folsku verk drygia slijkt, Gud lœti þig ei Glæp þann skie, þu giørir annad þvilijkt.

8. Nakinn a Krossi hieckstu hier, Herra minn Gud og Mann, fullnadar Borgun feingin er, fyrir mig Syndugann, þa Foorn Drottinn, og Sœl mijn sier, su gledst, enn blijdkast hann, Brwd-kaups Klædnad tilbiostu mier, þann besta eg girnast kann.

9. Hentugliga fiel Hlutur sœ, Herra minn Jesu kiær, þu lietst mig aumann finna og sœ, Fagnadar Ord þijn skiær, þeim Klædafalldi þreif~a eg a, þegar mig Hrygden slær, Straumur Syndanna stødvast þa, styrk nyann Hiartad fær.

10. Hier þo nu skipti Heimurinn, Hlœandi Aude sijn, endast sa Glaumur eitthvert sinn, þa Æfin Lijfsins dvijn, mier lœttu hlotnast Herra minn, Hlutfall næst Krossi þijn, so Dyrdar fegursti Dreiri þinn, driwpi a Sœlu mijn, Amen.

## 37. Psalm.

### Annad Ord Christi a Krossinum.

Ton. Ef Gud er oss ei sialfur hia.

Uppreistum Krossi Herrans hia, hans Mooder standa nœdi, Sverdid sem

fyrr ried Simeon ſpaa, Saal og Lijf heñ⸗ ar þiaadi, Johañes eiñin Jeſu kiær, jafnt var þar lijka ſtaddur nær, gløgt ſa ad øllu gaadi.

2. Siñi Moodur hañ ſegia ried: Son þiñ lijttu þar Kviña, vid Læreſveineñ lijka med, Lauſnareñ blijdt nam iña: Siaa þu og Moodur þijna þar. Þadan i fra ſem ſkylldugt var, ſa tok hana til ſiña.

3. Sa ſem Hlydniñar ſette Bod, ſiñe Bleſſan ried heita, þeim ed Forelldrum Styrk og Stod, ſtunda med Elſku ad veita, ſoddan Dygdaña Dæmiñ hier, Drottiñ vor ſialfur gaf af ſier, Bornunum eptir ad breyta.

4. Girniſt þu Barn mit Bleſſun faa, Biørg Lijfs og Giæfu ſijna Forelldrum ſkalltu þijnum þa, Þocknan og Hlydne ſyna, Ungdooms Þverlyndid optaſtnær, Olucku og Slis ad launum fær, Hreckviiſa Hefndir pijna.

5. Eckiurnar ſiña eiñin hier, aagiætis Hugg⸗ un blijda, Jeſus allt þeirra Angur ſier, Um̃⸗ ſion þeim veitir frijda, Ef þær med hreinum Hug og Sid, hallda ſig Drottiñs Pijnu vid, og hañs Hialprædis bijda.

6. Maria Drottins Modir kiær, merkir Guds Chriſtni ſaña, under Kroſſinum optaſtnær, Ang⸗ ur og Sorg maa kaña, til heñar lijtur þo Her⸗ rañ hyrt, Huggunar Ordid ſendir Dyrt, og for⸗ ſion fromra Maña.

7. Þad reyniſt opt i Heimi hier, Hlutfall Drott⸗ ins

ins Astvina, Hormungar Sverdid sært þa skier, Sælld Lijffsins gledur hina, hverier þo Christum hata mest, hefur þad laungum vidgeingest, lijtt vill þvi Angri lina.

8. Eñ þeir sem Jesum elska af Root, undir hañs Krossi standa, Herrañ Bloodfadmi horfa a mot, hvern þeir lijta i Anda, Trwar og Vonar Sionin sett, Saar hañs og Beniar skodar riett, þad mykir Mein og Vanda.

9. JEsus eiñin med Ast og Rææd, aptur til þeirra lijtur, giefur Hugsvolun, Hialp og Rææd, Harmabond af þeim slijtur, adgiætin Foburs Augun klaar, oll reiknar siña Barna Taar, Adstod þañ alldrei þrijtur.

10. Jeg lijt beint a þig JEsu miñ, jafnan þa Hrygdin særir, i mijnum Krossi Krossiñ þiñ, Kroptugliga mig nærir, sierhvert einasta Saarid þitt, sañliga grædir Hiartad mitt, og nyañ Fognud færir.

11. Pa eg Andvarpa, oska og bid, Augunum Trwar miñar, lijt eg hvert einast Ordid vid, upp til Kross Pijnu þiñar, strax syna mier þijn signud Saar, Syndugum Mañi opiñ stææꝛ, Bruñur Blessunariñar.

12. Gledistund Hollds þa giefur mier, Gud miñ ad Vilia sijnum, uppa þig JEsu horfe eg hier, Hiartans Augunum mijnum, Audlegdar Giædin Lijkamlig, lættu þo alldrei villa mig, fra Krossins Fadmi þijnum.

13. Jonas sat undir einum Lund, eingra Mei-

na þvi kiendi, Hœdegis Soolar Hitaſtund, hañ ei til ſkada brendi, Jeſu Kroſſikugga ſkioolid hier, ſkijlir þa langtum betur mier, fyrir Guds Hefndar Hendi.

14. Hvert eg ſef, vaki, ſit edur ſtæ, i Sælu og hættum Nauda, Kroſſi þijnum eg helld mig hia, horfondi a Blod þitt rauda, Lææt mig eiñin þa Æfin þver, wtaf ſofna æ Footum þier, ſo kvijdi eg ſijſt vid Dauda, Amen.

## 38. Pſalm.

Uñ Bryxlin ſem Chriſtur leid a Kroſſenum. Ton: Jeſus ſem ad oſſ frelſadi.

Þeir ſem ad Chriſti Kroſſi ſeñ, komu og fram̃ hia giengu, hriſtu med Hædung Høfuden, hønum til Brijxlis fengu, Heitord ſijn hefdi hañ halldid lijtt, Herrañs Muſteri ad briota, a þrimur Døgum añad nytt, efna med Bygging flioota.

2. Tveir lugu ſoddañ Falsmeñ fyrſt, fyrir Caiphas Domi, af þvi hefdi þa wtboriſt, eptir Fiølmeñis Romi, þeſſir þo hafi heyrt og ſied, HErrañs Jardteiknir frijdar, Lygin þeim betur gaſſt uñ gied, gengur ſo eñ til vijdar.

3. Aulldungar Landſins Folkid fleſt, og Flockur Heidiñ Strijdsmaña, Herrañ vorn JEſum hæddu meſt, med Høfdingium Preſtaña, ſøgdu: Ef ertu Son Guds kiær, ſa þig med Krapte ſtidur, kom

kom þa hier, so þad sicxum vær, sialfur af Krossi nidur.

4. Hañ sa ed odrum hefur hier, hialpad og Læknad marga, megnar nu ecki ad soñu sier, sialfum wr Neyd ad Biarga, soddan Hædyrdi Hroop og Dær, hlaut þa JEsus ad lijda stood þad yfir uñ Stundir þricxr, stutt var Andlæats ad bijda.

5. Pa fram hia Christi Krosse nu, kallsandi helld eg ganga, sem ecki af Hiartans æst og Trw, elska hañs Pijnu stræanga, Heilagleik sijn um hroosa frij, vid Holldsins Fysn sig binda, sijdañ falla Orvænting i, eda Forherding Synda.

6. Ad þijnum Krossi Christe kiær, kiem eg sem eiñ framandi, gief þu mier Leyfi ad ganga nær, Gied mitt styrki þiñ Andi, so eg Hugleidi hvad til kom, Hædung Bryxlord og Pijnu, leidstu Mañgiæsku Milldin from, moti Andlæxti þijnu.

7. Sæal mijn og Lijf þær Sæmdir hlaut, sialfs Guds Musteri ad helta, i Skijrniñi þvi eg þijn ad naut, þad nam Guds Andi ad veita, sijdan hefur þad Syndin morg, sæxrlega giort ad briota, Hollds Næatturan þvi elskar org, Athæfid Heimsins liota.

8. A þremur Dogum þar a mot, þvi hiet eg morgu Siñi, med Jdran, Trw og Yfirboot, aptur þad bætast kyñi, Æ hvad veitir slijkt erfidt hier, Efnin og Dug vill þverra, Brijxlid sem til var bwid mier, bar þvi JEsus miñ HErra.

9. J Velgeingniñi eg hroosa hæatt, Hrausleika

Tiwareñar, i Motlætenu hun bilar brætt, Brest siñ og storañ heñar, eingiñ fullkomiñ a mier siest, Avoxtur Dygda sætur, bar þoi fyrir mig Bryxlid vest, Blessadur JEsus mætur.

10. Hialpa lætst eg med heilnæm Raad, hinum sem illa breita, sialfs mijns Lyta þo sijst sæ gaad, soddan mæ Blindni heita, mier var þar stærsta Mynkun ad, mætti Hædyrdum kvijda, burt tok nu JEsus Bolid þad, Bryxlin þvi villdi hañ lijda.

11. JEsu i þijnu Andlæti, yfir þig Bryxlin dundu, ad so i Fridi Ønd mijn sie, a miñi Daudastundu, Hædung leidstu af ollum eiñ, alla fra Hædung leistir, Alldrei tapast sæ nockur neiñ, er Nafn þitt uppa treystir.

12. Nær sem Hreckvijsta Hædung ny, Hiartad mitt snart vill stanga, yndir þiñ Kross eg fegiñ fly, fram̃ hia skal eigi ganga, þar stend eg kijrr þo Kalls og Spie, kvelki mier Heims Oblijda, uppa þig Jesu eiñ eg sie, allt vil eg med þier lijda.

13. Fyrst þu varst hæddur Herra þa, Harmakvol leidstu slijka, So heidri þig nu hiedan i fra, Himnar og Jordin lijka, Allir Englar og oll Heims mynd, undir þitt Valld sig hneigi, og eg þar uppa aum Mañkynd, Amen af Hiarta segi, Amen.

## 39. Psalm.

### Um̃ Ræningians Idran.

Ton: Eiñ Herra eg best ætti.

Añ=

Aff ñar Ræningiñ Ræddi, sem refsad þad Siñ var, Herrañ vorn Jesum hæddi, hañ gaf þetta Andsvar: ef þar von er til nockur, ad þu Guds Sonur siert, hialpa þier og so ockur, wr þessum Naudum þett.

2. Eñ hiñ þar uppa giegndi, Ecki hrædist þu Gud, hverium Straffs heiptin hegndi, hun var riett forþienud, vid megum vel medtaka, Verka Betaling þañ, eñ þessi er alls aan Saka, epter þad sagdi hañ.

3. Hugsa þu til mijn Herra, þa helldur þu Rijki þitt, Ast Drottins ei nam þverra, Andsvar liet heyra sitt: Sañliga eg þier sege, (sw er Huggunem vijs) þu skallt a þessum Dege, mier þiona i Paradijs.

4. Siaa hier fyrst Straffid Synda, Saala mijn hryggilegt, For herding Hiartans blinda, þo Holldid kveliest frekt. Giefdu mier JEsu goodi, eg giegni vel Hirting þijn, med Trw og Taarafloodi, og tiaai þier Brotin mijn.

5. Ræningians Jdran eina, athugum lijka med, hañ giørdi Jaatning hreina, hatadi Illverk skied, þvi sagdi hañ være ad vonum, Verdlauniñ Rangslætis, Avijtun veitti honum, sem villdi ei giæta þess.

6. Hañ trwdi, a Himnarijki, hefdi vor Jesus

Naad, þo Syndugra syndist Lijki, so treysti ad hans Naad, med Bingdun og hrelldum Huga, Herran sijn minast bad, liuflega liet sier duga, Loford ef feingi þad.

7. Hroop og Haareysti giordu, Heidnir og Judar þar, kringum Krossin a Jordu, med Kalls Bryrl og Haadungar, svarade ei Son Guds neinu, þo sialfan þad snerte han, en Syndugs Mans Orde einu, aan Qvalar giegna van.

8. Saett mier fyrer Sionum skartar, Sæll Jesu Giæskan þijn, þier gieck helldur til Hiarta, Hans Neyd en sialfs þijns Pijn, sama hefur þu Sini, vid Syndugar Skiepnur hier, þvi alldrei Elsku þini, aptur min Herra ser.

9. Illvirkin hafdi unid, O daada verkin stæst, Gotu Glæpana runid, greitt fram i Daudan næst, en Jesus ecki villdi, a þad neitt minast nu, so var mykil hans Milldi, mijn Saal þad hugleid þu.

10. Eingin ervænta skylldi, þo Idrast hafi seint, sem er Guds Sonar Milldi, sie anars Hiartad hreint, þvi hverke vid Stadi nie Stundir, I stylud er Drottins Naad, allt fram Andlaatid undir, oss vydst hans Hialparraad.

11. En þu skallt ecki treysta, oviss ri Dauda stund, nie Guds med Glæpum freista, giorandi hier i Lund; Naadar tijmin sie næsta, noogur Hondum fyrer, slijkt er Hættusemd hæsta, hen i Gud fordi mier.

12. So margt eg Syndgad hefi, Sorgin mig stur-

sturlar nu, Jdrun Guds Naad mier giefi, Glo-andi Von og Trw, Herra Jesu Hiartkiæri, huxa þu til mijn þa, dapur er Daudiñ nærri, og drag mig Kvølum fra.

## 40. Psalm.

### Þridia Ord Christi a Krossinum.

Ton. Skapariñ Stiarna Herra.

Uppa Ræningians Ord og Von, ansadi Guds hiñ kiære Son: Þu skallt sañliga sege eg þier, Sælu vist hafa i Dag hia mier.

2. Siaadu med giætni Saal mijn kiær, soñ Jdrun hveriu kraptad fær, uppa þad Dæmid er hier riett, øllum til Lærdoms fyrir sett.

3. Reidi Drottins þa uppegnd er, yfir Raanglæti Mañsins hier, Jdranin blijdkar aptur Gud, ei verdur Syndin tilreiknud.

4. Þo komi hostug Hefndin braad, hrein Jdran jafnan fiñur Naad, midt i standandi straffi þvi, stilist Guds Reidi uppa ny.

5. Samvitsku Orma Saarin vest, soñ Jdran græðir best, Hugsvalar Saal og huggar Gied, heilaga Engla gledur med.

6. Bæn af Jdrandi Hiarta hyr, hun er fyrir Gudi metin dyr, Herrañ Jesus a hverri Tijd, heñi gaf jafnan Ansvor blijd.

7. Sem Moyses med sijnum Staf, sætt Vatn

dro

dro fordum Steini af, Eins fær jdrandi Andvarp heitt, wt af Guds Hiarta Myskun leidt.

8. Jaatning mijn er su Jesu miñ, Jeg er sem þessi Ræningiñ, Jaa, eingvu betri fyrir Augsion þijn, ef þu villt reikna Brotin mijn.

9. Kiem eg nu þijnum Krossi ad, kañast þu Jesu miñ vid þad, Syndaña Pungi þiakar mier þreyttur eg nu ad mestu er.

10. Alnakiñ þig a einu Trie, wt þijnar Hendur breidande, Saarin og Bloodid signad þitt, sier nu og skodar Hiartad mitt.

11. Þar vid Huggar mijn Saala sig, soddan allt leidstu fyrir mig, þijns Hiarta Dreyra heiløg Lind, hreinsar mig vel af allri Synd.

12. Krossins burt numiñ Kvølum fra, Kongur rijkir þu Himnum a, Herra þegar mig hrellir Pijn, huxadu i þiñi Dyrd til mijn.

13. Segdu hvern Morgun so vid mig, sæll Jesu þess beidi eg þig, J dag þitt Holld i Heimi er, Hiartad skal vera þo hia mier.

14. J Dag (hvern Morgun eg so bid) alldrei laat mig þig skiliast vid, Hugur, Siñi og Hiarta mitt, huxi og stundi a Rijkid þitt.

15. Eins þa kiemur mijn Andlaats Tijd, Ordiñ laat mig þau heyra blijd, J Dag (seg þu) skal Saalin þijn, sañliga koma i Dyrd til mijn.

16. Herra miñ þu varst huliñ Gud, þa Hædni leidst og Krossins Naud, þo hefur þu med hædstri Dald, a Himnarijki Vалld og Raad.

17. Daudanum moot mier Diorfung ny, Dagliga

liga ver af Ordi þvi, J Dag þa lijdur ei laungt um̃ þad, leidd verdur Ønd i Sælu stad.

18. O Jesu! sieu Ordin þijn, Andlaats sijdasta Huggun mijn, Saal miñi verdi Sælan vijs, med sialfum þier i Paradijs.

## 41. Psalm.

### Þad fiorda Ord Christi a Krossinum.

Ton. Af diwpri Hrygd aakalla eg þig.

Um̃ Land giørvallt vard yfrid myrkt, allt nær fra siøttu stundu, Solin þvi Lioma siñ flieck byrgt, señ til hiñar nyundu, GUD miñ, (JEsus so hroopar hæätt,) Hvadfyrir gleimdir þu mier bræätt! Soddan mijn Saal vel mundu.

2. Einginñ skal hyxa ad Herrañ þa, hafi med Efa og Brædi, hropad þañin, nie horfid fra, heilagri þolinmædi, Syndaña krapt og kvalaña stærd, kyñir hañ oss, so verdi hrærd, hiortun fra Hreckia ædi.

3. Soolin blygdast ad skijna skiær, þa Skaparañ siñ saa lijda, hun hafdi ei skilld þad vitum vær, þess Boda Meinsins strijda, O! hvad skylldi þa skamast sijn, Skiepnan sem Drottni jok þa Pijn, med Hrygd og Hiartans Kvijda.

4. Avij hvad maa eg aumur Þræll, angradur nidur driupa, þa eg heyri miñ Herra sæll, su harma bylgiañ diupa, gieck yfir þig, þa gallstu mijn, giarnan vil eg ad Fotum þijn, fegiñ fram flatur kriwpa.

5. J

5. J ytstu Myrkrum um̃ Eilijfd er, Oop og gnijstran Tañaña, Hefndar straff þad var mak⸗legt mier, fyrir margfioldañ Glæpaña, fra þvi Jesu þu frelstir mig, freckt gengu Myrkrin yfir þig, so skylldi eg þa Kvoll ei kaña.

6. J svortu Mykri þad sama Sinn, Sorgar raust lietstu hlioma, þa hroopadir þu mig Herra iñ, i Himneskañ Dyrdar Lioma, i þvi Liooſi um̃ eilijf ǽr, wthroopa skal mijn Raustin klaar, Lof þiña Leyndardoma.

7. Synda, Sorga og Motgangs med, Myrk⸗rin so opt mig pijna, ad gløgt fær ecki Saalin sied, Sælu Geyslana þijna, Jesu Riettlætis Solin ſæt, syrgiandi eg þad fyrir þier græt, Harma⸗raust heyrdu mijna.

8. Gud miñ ſegi eg giarnan hier, geist þo mig Sorgin mædi, Jesu eg lære nu þad af þier, þad skulu mijn Urrædi, Giorvoll þar Heimsins Gledin dvijn, Gud miñ, eg hropa vil til þijn, Gud miñ allt Vol mitt grædi.

9. Yfergiefiñ kvad Son Guds sig, þa særdi hañ Kvoliñ megna, yfirgiefur þvi alldrei mig, eilijfur Gud hañs vegna, fyrir þa Herrañs Hrygdar Raust, Hædstur Drottiñ mun efa⸗laust, Graatbeidni miñi giegna.

10. Þa Soolar Byrtuñi eg svíptur er, Sioon og Heyrn tekur ad dvijna, Raust og Maalfæri mijn fer mier, Myrkur Daudans sig syna, J Miñi þier Drottiñ sæll þa sie, Sonar þijns Hroop a Krossins Trie, leid Saal til Lijfsins mijna, Amen.

42. Psalm.

# 42. Psalm.

## Fimta Ord Christi a Krossinum.

Ton. Eins og sitt Barn, Fadir æst.

I særri Neyd, sem Jesus leid, sagdi hañ gløgt: Mig þyrstir. So Ritning hrein i hverri Grein, uppfylltist ein, um þad mig ræda lystir.

2. Strax hlioop eiñ ad, þa heyrdi þad; hitta Niardar vøtt kuñi, liet a Reyrprik, drap i Edik, med illt Tilvik, og bar Jesu ad Muñi.

3. Forundrast mæ, mijn Saal þar a, Maduriñ hver þess giætir, ad hañ sem Raad, hefur med Daad, a Himni og Laad, Hormung þvilijkri mætir.

4. Hañ, sat sem Vijn, af Valldi sijn, vr Vatni sætt tilreiddi, med Sorgar stick, sieck swrt Edik, fyrir Svala drick, þa saart hañ Þorstiñ neyddi.

5. Þvi mundi ei hier, til Hlijfdar sier, Herrañ Edikid lijka, sem Vijn ægiætt, giæra vel sætt, fyrst gat þad bætt, hañs Guddoms Magtin rijka.

6. Komin var Tijd, Kraptaverk frijd, Christur ei giora skylldi, hin Stundin þa, fyrir Hende læ, Hrygd Kvøl og Praa, Herrañ vor lijda villdi.

7. Krapta verk hrein, kiendu þa Grein, ad Christur Guds Sonur væri, eñ Kvølin hañs, syndi til

sañs,

sañs, ad Syndugs Mañs, Sekter og Giolld hañ bæri.

8. Guds einka Son, giordist vor Pion, þa græddi hañ Mein og Kvijda, Offur-Lamb best, hañ ordiñ sieſt, fyrir utañ Brest, i þvi hañ Kvol nam lijda.

9. Af Strijdi þvi, sem stod hañ i, Styrkleiki Mañs Natturu, þreytast miøg vañ, þvi þyrsti hañ, þadi Vøkvañ, þo af Ediki ſwru.

10. Ja añañ stad, merk Madur þad, og miñst þess hveriu Siñi, ad Herrañ Christ, hefur mest þyst, af Ast og Lyst, epter Saaluhialp þiñi.

11. O Madur nu, þeink þar um þu, þiñ Hugur blygdast skylldi, Gud þyrsti hier, ad hialpa þier, eñ Hiartad þitt er, Oþyrst eptir hañs Milldi.

12. Heyr þu Saal mijn, talar til þijn, Tryggda Brwdgumiñ goodi, Þyrstur eg er, i Þrygdum hier, so hialpi eg þier, wr Hættu Kvalaña Floodi.

13. Ber hønum sijst, þess bid eg vijst, beyskañ Dryck Hræsnis Anda, Ordin hañs hrein, a alla Grein, fyrer utan mein, obriaaalud laatu standa.

14. Uppa Ord þijn, svarar Saal mijn, Sorgin þo Maalid hepter, Þyrst er eg nu, og þad veitst þu, þijdi Jesu, þiñi Mijskunsemd eptir.

15. Ecki er hia mier, þad þyrstum þier, þori eg nu frañ ad biooda, nema fa Taar, Trw veyk, þo klaar, sem til þijn staar, tak þad og vird til Gooda.

16. Lof

16. Lof Dyrd sie þier, Lausn fiecksiu mier, og lietst þig so myklu kosta, Hiartad a ny, hugzgast af þvi, ad eg er frij, fra eilijfum Kvala Posta, Amen.

## 43. Psalm.

## Siøtta Ord Christi a Krossinum.

Med Hymna Lag.

Eptir ad þetta allt var skied, Edikid Jesus smacka ried, Proott og Lijfs Krapta þverra vañ, Þad er fullkomnad, sagdi hañ.

2. Ord þijns Herra med Ast og Trw, athuga skylldir Saal mijn þu, ef þeirra Grunnvoll sañan sier, sæta Huggun þaug giefa þier.

3. Fyrst skalltu vita ad Gud wt gaf, Greinilegt Logmaal Himnum af, hañ vill ad skuli Heimi i, Hver Madur lifa eptir þvi.

4. Algiørt Riettlæti liost og lient, Lijkama Saal og Giedid hreint, Syndalaus Ord og Atvik med, af oss Logmaalid heimta ried.

5. Hugurin vor og Hiartad sie, i hreini Elsku riett breñande, fyrir utan Hræsni Brædi og Bañ, bædi vid Gud og Naungañ.

6. Hver þetta giæri halldid riett, honum var Lijfid fyrir sett, eñ ef j einu wt af brai, eilijf Fordæming vid þvi lai.

7. Eingiñ Madur fra Adam fyrst, epter þañ Dag hañ syndgadist, fullnægiu gat þvi giort til sans, gengur þad langt yfir Edli Mañs.

8. Oværlig vard allra Sekt, epter þoi Drottiñ gieck so frekt, añad hvert skylldi uppfyllt þad, eda Mañkynid Fortapad.

9. Jesus Eymd vora alla sæ, ofan kom til vor Jordu a, Hædum Himna uppruñiñ af, undir Lögmælid sig hañ gaf.

10. Viliugliga i vorn stad gieck, var su Fram̃ kvæmdin Gudi þeck, Fodurnum Hlydni fyrer oss gallt, Fulldkomnadi so Lögmæl allt.

11. Eñ so ad synda Sektin skied, sañliga yrdi forlijkt med, og Bölvan Lögmælsins burtu mæd, beyska Kvöl leid og Daudans Hæd.

12. Pa hañ nu hafdi allt uppfyllt, sem oss var sialsum ad giora skyllt, og bæta öll vor Brotin frij, berlega villdi hañ lysa þvi.

13. Pess vegna Herrañ Hroopa nam, hartnær a Krossi slijgiñ fram̃, ad oss i voru Andlæti, öll hans Forskulldan Huggun sie.

14. Soddan adgiættu Sæla mijn, Sonur Guds hroopar nw til þijn, hvad þier til Frelsis þiena kañ, Pad er Fullkomnad segir hañ.

15. Fullkomnad Lögmæl fyrir þig er, fullkomnad Gialld til Lausnar þier, Fullkomnad allt þad fyrir er spæd, Fullkomna skalltu eignast Næd.

16. Herra Jesu eg þacka þier, þvilijka Huggun gafstu mier Ofullkomleika allañ miñ, um̃bætti Guddoms Kraptur þiñ.

17. Hialpa þu mier so Hiartad mitt, huxi jafnan um̃ Dæmid þitt, og halldist hier i Heimi nu, vid hreina Samvitsku og rietta Trw.

18. Upp-

18. Uppahefsi þijn Ordin traust, Ohræddur dey eg Kvijdalaust. þvi su Frelsis Fullkomnan þijn, forlijkad hefur Brotin mijn, Amen.

# 44. Psalm.

## Siøunda Ordid Christi.

Ton. Herra Gud i Himerijki.

Hroopadi JEsus hatt i stad, Hollds Megn og Kraptur dvijnar: Eg fel miñ Anda, Frelsariñ kvad, Fader i Hendur þijnar.

2. Þu Christiñ Madur þeink uppa, þijns Herra beyskañ Dauda, ad Ordum hans og eiñin gaa, eru þaug Lækning Nauda.

3. JEsus halldiñ i hædstri Kvol, hladiñ med Eymdir allar, dapurt þa ad gieck Daudañs Bøl, Drottiñ siñ Fodur kallar.

4. Herrañ vill kieña þar med þier, þijn ef Mañ raunir freista, Godlyndur Fader Gud þiñ er, gierir þu honum ad treysta.

5. Fyrir JEsum þu fullvel maatt, Fodur þiñ Drottiñ kalla, eñ þo þig Krossiñ þvijngi þraatt þad mykir Hormung alla.

6. Eins og Faderiñ aumkar sig, yfir sitt Barnid siuka, so vill Gud eiñin añast þig, og ad þier i Mykun hiuka.

7. Eiñin tyna þier Ord hans klaar, Odaudleik Saalareñar, þo Kroppuriñ verdi kalldur Naar, kreynkist ei Lijfid heñar.

8. Hvar hun fiñur siñ Hviildar stad, Herrañ synir hier lijka, Hond Guds þijns Födurs heitir þad, hura uñ Rædu slijka.

9. Vilier þu eptir endad Lijf, egi þijn Saal þar heima, under Hond Drottins hier þar blijf, hans Bodord skalltu geyma.

10. Laattu Guds Hond þig leida hier, Lijfs Reglu hallt þa bestu, Blessad Ord hans sem bodast hier, i Briosti og Hiarta festu.

11. Hrittu ei fra þier Herrans Hond, hun þo þig typta villdi, legg helldur bædi Lijf og Ond, liufliga a Drottins Milldi.

12. Hier þegar Mañlig Hialpin dvijn, Holldid þo kveini og sijti, uppa Hond Drottins Augun þijn, ætijd i Truñe lijti.

13. Ad Morgni og Kvølldi miñst þess vel, Maals uppteckt laattu þijna, Af Hiarta eg þier a Hendur fel, Herra Gud Saalu mijna.

14. So mattu vera viss uppa, vilie þier Daudsiñ granda, Saal a þijn mætir Myskun þa, millum Guds Födurs Handa.

15. Hun fiñur eckert Hrygdarstrijd, Hørmung nie Mædu neina, i Fridi skodar ætijd blijd, Asionu Drottins hreina.

16. Eptirteckt mier þad eiñin jook, er eg þess giæra kuñi, Andlaats Bæn sijna sialfur took, Son Guds af Davids Muñi.

17. Bæn þijna alldrei bygdu fast, a Briostvit Naaturu þiñar, i Guds Ordi skal hun Grundvallast, þad giefur Styrk Tiwariñar.

18. Vier vitum ei hvers bidia ber, Blindleikiñ Hollds hvi velldur, Guds Ord siinir hañ sañleik hier, sæll er sa har vid helldur.

19. Vertu Gud Fadir, Fadir miñ, i Frelsarans Jesu Nafni, Hond þijn leidi mig wt og iñ, so allri Synd eg hafni.

20. Hondin þijn Drottiñ hlijfi mier, þa Heims eg Adstod missi, eñ nær sem þu mig hirtir hier, Hond þijna eg gladur kyssi.

21. Daudans strijd af þijn heilog Hond, hialpi mier vel ad þreya, Medtak þa Fadir mijna Önd, mun eg so gladur deyia.

22. Miñ Jesu Andlaats Ordid þitt, i mijnu Hiarta eg geimi, sie þad og lijka sijdast mitt, þa sofna eg burt wr Heimi, Amen.

## 45. Psalm.

### Uñ JESU Dauda.

Ton. Fadir vor sem a Himnum ert.

Pa Frelsariñ i Fødurs Hønd, fool nu Blessadur sijna Önd, Nidur sitt Høfud hneygdi fyrst, Herrañ i þvi hañ sarladist. Drottiñ vor þañin doo a Trie, Daxsemd, kuñi ei meire ad ske.

2. Sancte Paal segir i sañre Raun, Syndariñar sie Daudiñ Laun, Banaspiot hans eru Brotiñ liot, Bodordum Drottiñs giord a moot, so skal deya sem Syndgar hier, soddan Urskurdur riettur er.

3. Eñ þad hier heima ætti sijst, af þvi JEsus er Sakleus vijst, Af heilgum Anda med hreinum Sid, hañ var gietiñ i Meyar Kvid, Guds Fød-urs Veru fegurst Mynd, friaals lifdi og doo af aldri Synd.

4. Hverke Refsing nie heliar Bad, hafdi nu Jesus forskulldad; hvad kom þa til ad Herrañ leid, harda Pijnu og Beyskañ Deyd? Eda hvar-fyrir Hirtist hañ, Hirtingar til sem alldrei vañ?

5. Guds Ande þar a giorir skil, greinir þvijlika Ordsøk til, vegna Misgiorda vorra hier, vissēliga hañ særdur er. hvi Drottiñ lagdi so fyrir sañ, Syndirnar vorar uppa hañ.

6. Siaa hier mijn Saal fyrir Syndir þijn, Sonur Guds lijdur Kvøl og Pijn, hañ doo fyrir þig sem Daudans Bad, dærliga hafdir forskulldad, hañ liet sitt Lijf so lifdir þu, Lijfs eilijfs von þvi ættu nu.

7. A mig var fallin þyngsta Praut, þviad eg Drottins Løgmaal braut, Samvitsku særdi syn-da græd, so fiek Daudiñ sterk Yfirræd, til Fordæmingar mier Fiøtrin hans, fastliga hielldu vijst til sans.

8. Løgmaal safnadi Sektum mier, Sektiñi Daudiñ eptir fer, Daudiñ til Domsins dregur snar, Domuriñ Straffid vrskurdar, Straffid uñ Eilijfd alldrei dvijn, Eilijf þvi var hin þyngsta Pijn.

9. Løgmarlid hier sig forgreip fyrst, feldi þad Dom yfir Herrañ Christ, þad baud ad sa Bøl-

vadur

vadur sie, sem Bana lijdur a einu Triel, diarfliga eptir þvi Dauðiñ gieck, Drottiñ fra Lijfi skiled fieck.

10. Sekt þa sem Logmaal setti mier, sialfur borgadi Jesus hier, þad misti sijna Magt i þvi, mig verdur nu ad laata frij, Daudans Broddur var brotiñ þa, burt hans Faangelsi slapp eg fra.

11. Eilijfur Daudi Deyddur er, Daudi Jesu þad viñur hier, dyrt metur Drottiñ Dauda miñ, Daudi hvar er nu Broddur þiñ? Daudiñ til Lijffins stutt er Stig, Storliga Daudiñ batar mig.

12. Daudiñ þvi orkar eñ til saños, wtsloknа hlytur Lijfid Maños, Holldid legst i siñ Hvijldarstad, hans Magt næer ecki lengra eñ þad, Saalin af ollu Faari frij, flutt verdur Himna Sælu i.

13. J þijnum Dauda O Jesu! er mijn Lijfgiof og Huggun trw, Dæsemdar Kraptur Dauda þijns, dreifist nu iñ til Hiarta mijns, uppa þad Synd og Jllskan þver, wt af deye i Briosti mier.

14. Þu hneigder þijnu Hofdi liost, Herra þegar a Krossi doost, med þvi bendtir þu mier þad siñ, ad miñast jafnan a Dauda þiñ, eins þa eg dey skulu Augun mijn, upplijta Drottiñ sæll til þijn.

15. Fyrir þañ Deyd sem þoldir þu, þig bid eg Jesu uñ þad nu, ad giefi mier þin Giæskan blijd, gooda Christeñs Maños Dauda Tijd, Holld mitt laatt hvijlast hægt med Frid, Hond þijn Saaluñi taki vid, Amen.

# 46. Psalm.

## Um̃ Teiknin sem urdu vid Christi Dauda.

Ton. Pa liñir hier mijn Lijkamans.

Þegar Christur a Krossins Trie, kañadi Daudañ strijda, Teikn og Stormerki mestu skie, mælir so Ritning frijda, Mustcris Tialldid møg um̃ vendt, i midiu vard ad rifna i tvent, hristist Jørd harla vijda.

2. Sundur klofnudu Biørgin blæ; bygrd Leidin opnast foru, Lijkamir Daudra lifna þa, lijt hier þau Undurin stooru, eptir Lausnarans Upprisu, iñ i Borgina vitiudu, af sumum þar sienir voru.

3. Hvad hier Historian hermir riett, hygg ad þvi Sal mijn mæta, þier til Lærdoms er þad framsett, þess aattu vel ad giæta, Jørdin skalf þegar JEsus doo, jafnvel þeir hørdu Klettar þo, syndu Medaumkan sæta.

4. Steini hardara er Hiartad þad, sem heyrir um̃ Jesu Pijnu, giefur sig þar þo ecki ad, añ meir Giarlijsi sijnu, Kañ nockud soddan kallt Hugskot, Christi Dauda ad girnast Not, Gud stiorni Giedi mijnu.

5. Pad mar undra hin þunga Jørd, þreyde ei kyrru ad hallda, Blaagrytis eiñin Biorgin hørd, Bresti lidu margfallda, holldid þo ei nie Hiartad Mañs, hryggist vid Pijnu Skaparans, sem hañs þe hlaut ad giallda.

6. For-

6. Fortialldid syner Sañleik þañ, sundur þa rifna nærdi, aftakast skylldi øll fyrir sañ, eptir Guds settu Rædi, Gydinga Kynsins Konglig stiorn, Kieñivalldid og Løgmalsfoorn, sem Nit=ning sialf uñ spærdi.

7. Hindrun ried øllum ærid stoor, iñ i Guds Rijki bañа, þvi velldur Synda sektin vor, og Saurugleikiñ Verkaña, Eñ fyrir Jesu dyrstañ Deyd, Drottiñ tilbioo oss opna leid, hiedan upp til Himnaña.

8. Hier i Christuiñar Helgidom, høfum vier Frelsi ad ganga, þar bodast Nærd og Blessan from, burt er þa Sorgin stræxnga, Sælin vor hefur brwna Braut, beint i Abrahams Gledi=skaut, eptir Heims Hørmung længa.

9. Frelsarans Dauda eiñin ad, ønduð Lijkin hier niota, Gudligur Kraptur giørdi þad, Grá=firnar opnast hliota, þvi Drottiñs Jesu Dau=di a Kross, Daudañ sigradi fyrir oss, Afl hans og Brodd nam Briota.

10. Merk, ad vor Jordu mætti ei neiñ, Mad=ur fra Dauda standa, fyrr eñ tiedi vor Herra hreiñ, Holld sitt aptur lifanda, fyrstur allra þvi uppreys hañ, af egin Krapti, og þar med sañ, Endurlausn os til handa.

11. Høfdingiñ Krossi Herrañs hia, hier med allt Folkid lijka, Jafnsnart sem þet=ta Jardteikn sia, Jarning þeir giørdu slijka: sañliga hefur saklaus hañ, og Son Guds verid þessi Mañ, Briost sla, og brætt heim vijkia. K 5 12.

12. Folkid sem harda Krossins Kvol, Christo fyrr oſka nœdi, sañ nu hid þyngsta i Briosti Bol, Beyſklig Samvitſkan þiædi. Ofhastarlegañ Urſkurd fly, ef þu villt vera af Sorgum frij, hœtt er raſandi Nœdi.

13. Daudi þiñ Jeſu Drottiñ þa, dyrdlegañ Krapt wtſendi, Heidnum Mañi ſo hier vid brœ, h iñ þig Guds Son medkiendi, Jeg bid Giœſkuñar Giedid þitt, gief þu vid liſni Hiartad mitt, ad ſo fra Illu vendi, Amen.

## 47. Pſalm.

### Uñ Christi Kuñingia.

Ton. O! JESU Elſku hreiñ.

Kuñingiar Chriſti þa, Kroſſinum lœngt i fra, ſtodu med þungri Prœ, þeſſa Tilburdi ſia.

2. Var þar og vid ſtadt med, ad viiſu margt Kveñfolked, Sœr Jeſu feingu ſied, Sorgandi barnu Gied.

3. Af þeſſu mijn Sœl þu ſier, ſañliga hverſu er, vallt allt i Heimi hier, haf ſlijkt i miñi þier.

4. Dvijnar og dregſt i hlie, a Daudaſtundu ñi, Vinſkapur, Frœndur, Fie, fallvallt hygg eg þad ſie.

5. Po villdu Vinirner, velta Hialp nockra þier, Börn þeirra onyt er, eingiñ Daudanum ver.

6. Lijſinu hiwkar Hond, þa herdir Sottar grond, hialpa þo eingin Ond, upphurud Nœdiñ vond. 7. Vin-

7. Vinskap i Synda sid, Saala mijn þess eg bid halltu ei Verølld vid, vilier þu sofna i Frid.

8. Hreinañ Vinskap hallt þu, vid Herrañ þiñ Jesum nu, i helgri Hiartans Trw, fra Heimsins Elsku þier snw.

9. Hañ eiñ mæ hialpa þier, þa Hiastod Mañlig þver, Heim þig a Hondum sier, i Himna sælu ber.

10. Pad hier i Sañleik siest, er Sonur Guds andadest, Sorgin þa særdi mest, sem hañ Elskudu best.

11. Christs Born eru Kross Born, vid Christum Hlydnisgiorn, hañ synir þeim Hialp og vorn, þo hord sie Stwtarkvorn.

12. Pu skylldir þar ad gæ, þo þeir stædi langt fra, allir samhuga siæ, Son Guds Krossfestañ æ.

13. Komid so Konur og Meñ, ad Krossinum Jesu señ, þo Naudin þreyngi þreñ, þar fæst noog Lækningeñ.

14. Kom þu Sæl Christin hier, sem Kross og Mañrauner ber, settu fyrir Sioonir þier: Son Guds sem pijndur er.

15. Uppa hañs heilög Sær, horfi þijn Trwin klær, þad nykir Trega og Tær, temprar allt Sorgar fær.

16. Siertu Syndugur Mañ, særdur uñ Hyggiu rañ, horf þu beint uppa hañ, sem Hialp þier a Krossi fañ.

17. Hver sem Eirormiñ leit, af Israels Maña Sveit,

Sveit, Eitrid ei a hañ beit, oll stilltist Plaag-
an heit.

18. So stoor Synd eingin er, ad megi granda
hier, ef þu a Jesum sier, Idrandi i Trwñi hier.

19. Sie eg þig sæll Jesu, so sem aleingdar nu,
von mijna og veyka Trw, vid bid eg hrestir þu.

20. Þa eg sie Saaren mijn, særir mig Hiar-
tans Pijn, Saarin þa sie eg þijn, Sorg oll
og Kvijdi dvijn.

21. Laat mig, O! JEsu kiær, alldrei so vera
hier siær, ad siaai ei Saar þijn skiær, þa Sorg
og Eijmd mig slær.

22. Veit mier eg verdi og sie, Vin þiñ og Kuñ-
inge, þo hverft Heilsa og Fie, Hialp mun þa
noog i tie.

23. Jeg fel i sierhvert siñ, Saal og Lijkama
miñ, i Valld og Vinskap þiñ, Vernd og Skiol
þar eg siñ, Amen.

## 48. Psalm.

### Um Christi Sijdu Saar.

Ton. Tunga mijn af Hiarta Hliodi.

Ad Kvølldi Judar fra eg færi, til Fun-
dar señ vid Pilatum, og þess beiddu ad
ecki væri, ønduð Lijk a Krossenum, þvi
Haatijdin var harla nærri, hier so Ritn-
ing greinir uñ.

2. Strijdsmøñum hañ baud ad briota,
Beinin þeirra, og so var giert, Heliar
stund

stund þeir hreptu fliota, hinir tveir sem greini eg hert, eñ Jesum lietu sijns Lijfslaats niota, Limina hans ei feingu snert.

3. Strijdsmañ eiñ med Heyptar hooti, Hardlindur gieck Krossi ad, Lausnarans Sijdu lagdi Spioti, Lagid nam i Hiarta stad, Blod og Vatn þar fra eg wr flioo-ti, fyrr var adur spaad uñ þad.

4. Umhugad er einum Drottni, allra siña Barna Lijk, hier i Jord þo Holldid rotni, Huggun traust mig gledur slijk, hañ vill ei tijnist Bein nie brotni, Blessud sie su elskan rijk.

5. Gud Drottiñ af Giæsku Rꜳdi, giordi Adams Sijdu af, Frijda Kviñu fyrst a Lꜳdi, fast hañ þo a medan svaf, Vaknadur þess ad vijsu gꜳrdi, og veglegt heñi Nafnid gaf.

6. Sofnadur a siñe Sijdu, Sꜳrid Drottiñ Jesus bar, so ad af Vatni og Blodi hañs blijdu, bygdist heilög Christnin þar, nꜳdi hun edla Nafni frijdu, nær til himna stijgin var.

7. Skoda þu hvernin Skijrnin hreina, skiliast nu med riettu a, ad vijsu jafnan Vatnid eina vor Lijkamlig Augun siꜳ, eñ Trwar Sionin so mꜳ greina, sonar Guds Blod þar lijtur hia.

8. Æ hvad mꜳ eg sælañ saña, Sancte Thomas Postula þiñ, Pa Sijdu mꜳtti hañ Sꜳr þitt kaña, sijna Hond har lagdi iñ, þu munt ei mier þiꜳdum baña, þad ad skoda Jesu miñ.

9. Allar Jesu Ædar stoodu, opnadar i Kvöliñe, Dreyra Lækir dundu og floodu, uñ Drott-ins

ins Lijf a Krossens Trie, Nægd af Lausnar Gialldi godu, Guds Son fyrir mig liet i tie.

10. Eñ so eg skylldi siaa og iaata, saña Elsku Drottins mijns, villdi hañ ecki læstar laata, Lijfs Ædarnar Hiarta sijns, hvi er, Saal mijn mykil wr maata, Myskunseme Lausnara þijns.

11. Opnar Dyr a Arkar sijdu, iñ um̃ gengu Skiepnurnar, sem sialfur Drottiñ baud med Blijdu, biargast skylldu iñi þar, fyrir Vatn sins Floodi strijdu, Frelsi og Lijf þeim giefid var.

12. Lijfsins Dyr a Sijdu siñi, setur Jesus opnar hier, so Angrud Saala Adstod fiñi, oll þa Mañlig Hialpin þver, hver sem hefur þar Athvarf iñi, fra eilijfum Dauda leystur er.

13. Noe um̃ siñ Arkar glugga, upp til Himens litid fieck, halldiñ dym̃um Hrygdar Skugga, hvatt þa Vatnsins Floodid gieck, so hañ mætti um̃sijdir hugga, Solar lioma Byrtan þeck.

14. Giegnum Jesu helgast Hiarta, i Himiniñ upp eg lijta maa, Guds mijns Astar Byrtu biarta, bædi sæ eg ad reina og siaa, Hrygdar myrkrid Sorga svarta, Saalu miñi hverfur þa.

15. Guds var maattug Milldin prwda, Moyses þa Steiniñ sloo, wt til allra Jsraels Bwda, øgiætt Svala vatnid droo, hresti þyrsta þiooda lwda, þeim so nya Krapta bio.

16. Pa sialfur Gud a Sonarins Hiarta, sijnum Reidi-Sprota slær, um̃ Heimsins allar alla Parta, ut rañ Svala Lindin skiær, Saalijn

lin vid þañ Bruñiñ biarta, Blessun og nya Krapta fær.

17. Vid þeñañ Bruñiñ þyrstur dvel eg, þar mun eg nya Krapta fa, i þessi iñ mig Fylsnin fel eg, fargar eingin Sorg mier þa, ſælañ mig fyrir Truna tel eg, hun tekur so Drottins Benium a.

18. Hiartad mitt er Herrañ goodi, hryggiliga ſaurgad mieg, þvo þu þad nu med þijnu Bloodi, þess af Audmykt beydi eg, viñi mier Boot a Mæddu og Modi, Mysfunsemin Guddomleg.

19. Hiartans Jnstu Ædar mijnar, elske, lofe prijsi þig, eñ Hiarta Blood og Beniar þijnar, blessi, hressi, grædi mig, Hiartans þiidar Packir þijnar, þier sie Giæskan eilijflig, Amen.

# 49. Psalm.

## Um Christi Greftran.

Med Lijksaungs Lag.

Joseph af Arimathia, Edalboriñ Rædherra ſa, Gydinga Svik vid Son Guds ſkied, ſamþyckt hafde þeim alldrei med.

2. Hañ var Lausnarañs Lærsveiñ, Lijfernis fromur, Dygda hreiñ, Gydinga hræddist heyptar raun, hiellt sig ad Christo þo a laun.

3. Þessi um̃ Kvølldid þangad gieck, þa af Pilato Leyfid fieck, ad mætti Jesum andadañ, ofan taka, og Jarda hañ.

4. Jo-

4. Joseph took strax af Krossi Christ, keypte þo nyañ Lijndwk fyrst, Nicodemus kom þegar þar, þangad kostulig Smyrslin bar.

5. Joseph Grøf eina atti þar, Utkløppud sú i Steini var, i Alldingardi þar allskamt fra, eingiñ fyrr Daudur i þeñi lꜳ.

6. Dyrlega smurdu Drottiñs Lijk, Dæmin mꜳ øñur fiña slijk, Byrgdu med Steini Bwna Grøf, burtgeingu strax fyrir utan tøf.

7. Maria Jacobs Moodir ein, Magdalena a sømu Grein, Salome eiñin sat þar hia, sꜳu vors Herra Greptran a.

8. J þeirra Selskap Saal mijn blijd, settu þig nidur litla tijd, Greftrun þijns Herra giæt vel ad, Gagnlaust mun ecki vera þad.

9. Vid Jesu Greftran Jeg sæ sted, Joseph og Nicodemum med, ꜳdur þordu þeir ecke Christ Openberlega ad jꜳta fyrst.

10. Nu fꜳ þeir næsta nyañ Hug, nooga Diorfung og styrkvañ Hug, Augliosliga so allir sia, Elsku sem Drottni høfdu ꜳ.

11. Rukande Trwar Horiñ hier, Helgur Ande so vid nærer, Liomandi þar af Lioosid skijn, Lijfgar hañ allt med Krapti sijn.

12. Huggest þeir nu sem Hiartad deygt, hafa og Trwar Megned veykt, Bidie uñ Styrk og stodugt Gied, stundi og læri Guds Ord med.

13. Veittu Jesu ad veyk Trw mijn, vari Dagliga og Elska þijn, efliſt ſo med mier Jñ- vortes, Ytra good ſiaaiſt Merki þ'ſſ.

14. Añad þu lijka merkia maatt, Miſlijkar Drottni a eingvañ haatt, þo heidarlig ſie hier a Jord, Holldi Utvaldra Lijkfør giord.

15. Mætaſt Guds Anda Muſtere, Mañs var Riettchriſtens Lijkame, þui maa honum veitaſt Virding riett, vel med Stilling og Hoofe ſett.

16. Erfis Dryckiur og o-nytt Priaal, ecki a ſkyllt vid þetta Maal, Heidingia Skickun Heim- ſkuleg, hæfer Chriſtnum a eingvañ veg.

17. Strijd þa ſier þu ſaarad Holld, ſett vera nidur i Jardar Molld, Hryggur þu vert og hugſa bratt, hier vid þu lijka ſkilia att.

18. Lagt þegar nidur Lijkid ſier, laattu ſem Daudiñ hvijſle ad þier, laangt maa ſkie ecki ſijdi uñ þad, legg eg þig eins i ſlijkañ ſtad.

19. Goodi Jeſu fyrir Greftran þijn, gief þu ſijdaſta Utfør mijn, verdi Farſæl og Fridſom mier, Frelſud Saal nái Dyrd hia þier.

20. J þridia maata Huggun hrein, hier veit- iſt mier a alla Grein, Guds Sonar Holld þvi Greftrad var, Greftrun miñi til Virdingar.

21. Helgum Guds Børnum Herrañs Holld, Helgadi bædi Jord og Molld, Grøfin þui er vort Svefn-hws ſætt, ſo maa ei granda Neid- in hætt.

22. So ad lifa eg ſofni hægt, So ad deyja,

ad Kvøl sie bægt, So ad Greſtraſt ſem Guds Barn hier, giefdu ſætaſti Jeſu mier, Amen.

## 50. Pſalm.

Um̃ Vardhalldsmẽñena. Nær þvi med þeim Ton: Eins og ſitt Barn.

Olldungar Juda añars Dags, iñ til Pilatum geingu ſtrax, ſøgdu Herra vier høfum meſt i Huga feſt, hvad ſa Falſare herma lietſt.

2. Epter þria Daga Ott fyrer ſañ, uppriſa mun eg ſagdi hañ, vid ſlijku er beſt ad leita lags, læt geyma ſtrax, þeſſa Grøf iñ til þridia Dags.

3. Mæ ſkie Lijkid med Leyndum hliott, Læreſveinar hans taki um̃ Nott, og Lydnum ſegi þad Lyga ſkyn, þa lijtſt ei kyn, þo verdi ſu Villan verri eñ hin.

4. Pilatus vijſt þeim Vardhalld ſieck, Vaktin ſtrax ut af Stadnum gieck, Grøfiñi bliſu Herrañs hia, og ſo til ſiæ, ſettu Jñſigli Steiniñ a.

5. Gydinga hørd var Heipten beyſk, Hiartans Blindleiki og Villan treyſk, þeim kuñi ei nægiaſt Kvøl og Bañ, ſem Chriſtur fañ, lijka daudañ þær laſta hañ.

6. Fordaſt þu ſoddañ Fijſlſku Grein, Framlidins Mañs ad laſta Bein, ſa Daudi hefur ſiñ Dom med ſier, hver hellſt hañ er, ſem beſt haf gæt a ſialſum þier.

7. Gydin-

7. Gydingar villdu veita Riird, vors Lausnara Uppri/u Dyrd, eñ Drottiñs Valld og Viisdoms Raad, þess vel fieck gaad, Verk sitt framkvæmde viist med Daad.

8. Hefdi ei Vaktin geymt og giætt, Grafariñar sem nu var rædt, Ordsøk var meiri ad esast þa, hvert upp ried stað, Drottiñ vor Jesus Daudum fra.

9. Eñ þeir sialfer og er þad viist; Uppriisu Drottiñs hafa lyst, þo Kieñimeñ Juda af kalldri Stygd, kvaldir af Blygd, keyptu þa til ad bera Lygd.

10. Øll Svikraad Maña og Atvik ill, onijter Drottiñ þa hañ vill, hañs Raad uñ Eiliifd stødugt staar, og Stiornin klaar, Slægdin Dramblaatra sliett Forgaar.

11. Hviili eg nu siidast Huga miñ, Herra Jesu vid Legstad þiñ, nær sem eg giæti ad Greftran þijn, Gledst Saala mijn, Skielfing og Otti Daudans dvijn.

12. Sektir mijnar og Syndir barst, sialfur þegar þu pijndur varst, uppa þad doostu Drottiñ kiær, so kvittudust þær, Hiartad þvi nyañ Føgnud fær.

13. Pu groofst þær nidur i Grøf med þier, gafst þitt Riettlæti aptur mier, J Hassins Diwp sem fyrirspaad siñst, þiem fleigder iñst, uñ eilijfd verdur ei a þær miñst.

14. So er nu Syndin Jñsiglud, Jdrandi Saala kvitt vid Gud, eilijft Riettlæti uppbyr-

jad i añañ stad, Trwud Mañeskia þiggur þad.

15. Daudi þiñ JEsu deydi hier, Daarliga Hollðsins Girnd i mier, Grefin þijn hylie Glæpi mijn, fyrir Guds Augsyn, efli mier Styrk Upprisan þijn.

16. Steinþroo mijns Hiarta wthoggvin siest, Heilagur Andi vañ þad best, Lijndwk Trwar eg læt i tie, miñ Lausnare, Jlmandi Smyrsl Jdranln sie.

17. So fiñi eg hæga hvijld hia þier, Hvijl þu JEsu i Brioste mier, Jñsigli heilagur Andi nu, med Ast og Trw, Hiartad mitt so þar hvijlist þu.

18. Dyrd, Valld, Virding og Vedsemd hædst, Vitska, Magt, Speki og Lofgiord stærst, Sie þier O! JEsu Herra haar, og Heidur klaar, Amen, Amen, um̃ eilijf Aar, Amen.

## Eiñ Psalmur um̃ Gagn og Nytsemd Pijnuñar Christi. Ton: Hallt oss Gud.

Miñstu, O! Madur a miñ Deyd, Miñstu a mijna saaru Neyd, Miñstu eg hefi eiñ fyrir þig, i Daudañ giefid sialfañ mig.

2. Pad laattu nu þier vera kient, ad þetta hefur þu ei forþient. Af Elsku hef eg þier allt þad veitt, eñ ecki fyrir þitt Verkid neitt.

3. Pvi laattu þad uppvekia þig, ad þu komer fram̃ fyrir mig, med Angri og Jdran Hiarta þijns, so ad þu nioter Dauda mijns.

4. Ad Saal þijn verdi af Syndum hrein, og

saur-

saurugligri Lastagrein, Fyrir þañ Dreira i dapri Pijn, sem dundi wt af Sarum mijn.

5. Eñ hveriu giegnir Heimskan su, ad huxad fæer uñ þetta nu? Margur er sa Madurinn þar, uñ mijna Pijnu ei huxar par.

6. Hvernin hañ kuñi hellst ad fæ, Hialp Andar siñar og frelsast fra, eilijfum Dauda og Andar Pijn, og Reidi Guds fyrir Synder sijn.

7. Eñ fagna og gledst mijn fartæk Hiord, fyrir miñ Dauda holpin giord, sem hefur allt þitt Traust a mier, ad vijsu vil eg hialpa þier.

8. I mijnum Dauda er þitt Lijf, Þijn Hialp þitt Traust, þijn einka Hlijf, mitt heilagt Blod þier hialpar mest, og hreinsar þijnar Syndir best.

9. Lof og Heidur sie Lausnariñ þier, fyrir Lijkn og Myskun þu veittir mier, fyrir þiñ Dauda og Dreyra Foss, O! Drottiñ hialpa ollum oss, AMEN.



# A Paaska Hatijdiñi, wt af Upprisu vors Herra Jesu Christi, Psalmar og Lofsaungvar.

## Lofsaungur, maa syngia eins og:

Boriñ er Sveiñ i Bethlehem.

I Dag oss Christur upp aptur reis, Alleluja, Oss er þvi ollum Sælan vijs, Alleluja.

2. Sa syrra Dag leid saara Pijn, Alleluja, Saklaus fyrir allt Mañkyn, Alleluja.

3. Pier hrœddu Kviñur farid fram̃, Alleluja, fliootliga i Galileam, Alleluja.

4. Lærisveinum̃ þad segi þier, Alleluja, Sa Kongur Dyrdar upprisiñ er, Alleluja.

5. A Paaska Gledi sætt Lof sie, Alleluja. Sungid Drottni af Christniñe, Alleluja.

6. Heilagri Preñing hœdstu Dyrd, Alleluja. Af Hiarta segium og Packargiord, Alleluja.

## Añar Lofsaungur, ma syngia eins og: Christur reis upp fra Daudum.

Uppreis Herrañ Christur, oss var þad Sigur mestur, Honum Judar sier hrundu fra, Heidnum Lyd vill þvi vera hia, Alleluja.

2. Fyrst kom Folki Juda, Frid og Myskun ad biooda, Peir villdu ecki þiggia Christ, þvi tok hañ sier hia Heidnum vist, Alleluja.

3. Aminti þa ad trwa, idrast fra Syndum snwa, So hlioti Arf og Himna Frid, hlyddi þvi ecki Juda Lid, Alleluja.

4. Saalar Heill þeir hafna, hins leitudu mest jafnañ, hvernin þeir Son Guds saklausañ, svijkia kynnu og deyda hañ, Alleluja.

5. Flest til Saka feingu, Falsvitnin morg ad geingu, Blessud Ord hañs og alla Dygd, uñisneru þeir i Roog og Lygd, Alleluja.

6. Flecklaus Fordœmingu, fieck hañ af Mord tungum, sem Illvirkia wtleiddu hañ, Oh! Madur siaa hvad til þijn vañ, Alleluja. 7.

7. A Krossi sem bar Christur, Kvalin̄ var han̄ og festur, han̄s sæta Moodir Harm þa bar, og heilagt Folk sem nærri var, Alleluja.

8. Um̄ han̄s Lijf allt voru, Undir og Beniar storu, Gall og Edik til Dryckiar þeir, Drottni færdu ad pijndist meir, Alleluja.

9. Vid Kross var Folk Juda, vanvirda han̄ og hæda, allt fram̄ til þessi Fødurs Hønd, fram̄stijgandi gaf sijna Ønd, Alleluja.

10. Urdu Undur þessi, i þvi han̄ doo a Krossi Bifast Jord, Sol ei Birtu gaf, brast, Tialld klofnar Griot, opnast Grof, Alleluja.

11. Bert hieck Holldid saxa, hulid allt i Dreira, J hægri Sijdu sett var Spiot, so Blood med Vatni ran̄ þar wt, Alleluja.

12. Af Krossi ad Kvolldi, koma ad nær hans Holldi, Radherran̄ Joseph an̄ar var, og Nicodemus Drottni kiær, Alleluja.

13. J Lijni vel vofdu, virduglig Smyrsl med hofdu, Logdu i Stein-þro Lijkaman̄, lær þar eing in̄ fyrri en̄ han̄, Alleluja.

14. Maria Magdalena, mest girntist honum þiena, Eins hofdu til hans ástseme, Jacobs Modir og Salome, Alleluja.

15. Arla For uppbyria, ætla sier Christ ad smyria, Saau ad Steini vellt var fra, van̄st þeim i Grof ad ganga þa, Alleluja.

16. Englar þeim kun̄giora, Christum uppirisin̄ vera, Lijted þan̄ stad sem lagdur er, Lærisveinum þad segi þier, Alleluja.

17. Gudspiallameñ greina, glediandi Christni hreina, Upprisu hañs a allañ veg, optliga sijna og byrta miog, Alleluja.

18. Heidurs Kongur hædste, og Herra vor stædsti, Fagnadar Sigur fremstañ vañ, Fæŋga leysta wtleidde hañ, Alleluja.

19. Drottiñ reys af Dauda, Dyrd hañs Ovirder Juda, Honum til Lofs i hverium stad, uñ Hætijd Paaska syngium þad, Alleluja.

## Eñ eiñ lijtell Lofsongur, uñ Upprisuna Herrans Christi.

Med Ton. Christur reis upp fra Daud.

Upprisiñ er Christur, af øllum Kvølum leystur, Af þvi glediunst nu allir vier. Jesus vor Hialp og Huggun er, Alleluja.

2. Ef upprisiñ ei væri, øll Verølld fyrerfærist, Drottiñ Jesus Daudañ vañ, dyrkum og lofum þvi allir hañ, Alleluja.

## Fiordi Psalmur, med þad lag.

Allfagurt Lios oss byrtest b.

Fagnadar Kieñing Kviñum fær, klaar Guds Engill talar vid þær, J Galilea Christur Kiær, kañ vijst sien vera sijnum nær.

2. Grøsiñi skiott þær geingu fra, greina Postulum slijkt sem sia, Lifanda Jesum lijta þa, lutu hañs Fotum og þreyfa aa.

3. Heyrandi þetta Herrans Piod, hradt ferd ast sem þeir feingu Bod, Ad lijta Christ þeim

Girnd er god, Gledi, Von, Traust af þessu stod.

4. Jordin og Soolin byrtast blijd, byst og reid i hañs Dauda tijd, Pa-Christ lijta ad Lijkanis Sid, Lærisveinar og mæla vid.

5. Klaarliga Saar þeim syndi hañ, a sijnu Holldi er Daudañ vañ, Uppristñ jaata allir þañ, Elijsa Myskun veita kañ.

6. Lijknsamur Kongur Christe þu, kveik i oss til þijn Ast og Trw, ad liñi þier alldrei Lof giord su, Lydur a greida leysstur nu.

7. Milldasti Gud su Myskun þijn, med Upprisunar Fognud skijn, Vid Ogn Daudans og Andar Pijn, ollum hlijsi Trwudum sijn.

8. Nu dyrkum allir Drottiñ þañ, af Dauda reis og Siguriñ vañ, Med Fodur og Anda helgum hañ, hefur þad Valld ei endast kañ.

## Fimti Psalmur, med sama lag.

Christnin syngi nu sætlegt lof, Syni Gud þacki Lausnargiøf, Ovin med sijnum ollum Her, i Siooiñ Rauda sokktur er.

2. J stoorum Voda vorum þa, villdi hañ alla oss afmaa, Lausnari vor sa Lijf oss gaf, leiddi i giegnum þad Rauda Haf.

3. Fridadi oss og frelsti wr Neyd, Fleckkausa Lambsins Blod og Deyd, þa Christur bardist, vegna vor, Vykijngiñ kiæfdi diupur Sioor.

4. Paaska Lamb heilagt høfum hier, hvert a Krossi oss bakad er, Holld þess er Fædi Heidurs verdt, Herra Jesu þad sialfur ert.

5. Petta er ſaña ſæta Braud, ſviptandi oſſ eilijfum Deyd, Dyraſt Blood, Lambſins dreckum vær, Diofull oſſ þa ei ſkadad fær.

6. Packir alldrei vær gietum giert, Gudi ſem er þad Offur vert, Fra Ofsgnud og Andar Kvol, erum vier þar med leyſtir vel.

7. Lamb Gudsþier hæfir Loſgiord beſt, Lotning, Heidur, og Dyrden meſt, oll þijn Chriſtnin i Heimi hier, æſinligana Packi þier.

## Siötti Pſalmur, med ſijnum Ton.

JEſu Endurlauſnin vor, ertu og Hiartans Girndin ſtor, Skapariñ allrar Skiepnu ſa, i ſkijrum Mañdomi liet ſig ſiaſt.

2. Meſta þig þar til Milldin droo, Miſgiordꝛer vorar ad bera ſo, Holldſins þolandi hatdañ Deyd, hvar med oſſ leiſtir af Daudans Neyd.

3. Helvijtis giegnum Hlidin gieck, Hertekna ſijna frelſad fieck, Sigurvegariñ vid Merkid mætt, med Fodur ſitur a Himnum hædſt.

4. Pijn Godvilld til þeſſ þreyngdi þier, þijns Folks ad bera Miſgiorder, Pyrma oſſ og ſvo þar med ljá, þitt millda Auglit vier mættum ſiaſt.

5. Herrañ Chriſtum nu heidrum vier, hver ad af Dauda uppriſiñ er, Fodur og helgum Anda med, i ollum Londum Loſ ſie tied.

## Loſſaungur, med þeim Notum:
### Chriſtur reis upp fra Daudum.

Uppriſin er Chriſtur, af Bondum Daudans ley-

Ton: J Blægiu eiñi er byrgdur i Molld.

Vænttu æ Daudans Vinur kiær, vonum framar hañ stendur nær, vid hvern Dag þeinki Huguriñ þiñ, hañ mun vera sijdasti miñ.

2. Hvad sem þu giørir hugsa ber, hvert soddan Idia hæfdi þier, ef i þvi Verki ættir þu, Andast þa strax og dæmast nu.

3. Lijfi fleckstu ad Lani nærd, Lijfs hefur þu ei Eignar Rææd, Nakiñ komstu i Heimiñ hier, hiedan eins lijka aptur fer.

4. A hverium Degi deyr þu hier, Daudañ hver Lijfs stund færir þier, allt hvad hier eykst vid Æfi Mañs, allt kortar þad Lijfs-daga hañs.

5. Þess leingur sem vær lifum hier, Lijfid þess styttra eptir er, uñ þad sem einum afrañ bar, eptir þvi miña Leidar var.

6. Lææt fra þier deyla Lesti fyrst, Lijfid ædur eñ fær þu mist, Hver sem deyr vondum vilia fra, vijst lifir Gudi i Dauda sa.

7. Adam gamla af ollum mætt, a medan lifir deyda ætt, þa mun Drottiñ nær deyia fer, dæsamlegur lifa hia þier.

8. Daudiñ flytur og færir Mañ. fra Hiegoma i Himna Rañ, i hveria ætt sem Eykin datt, er hun þar kyrr, þad true eg satt.

9. Ef þu ihugar opt og þrætt, ad endelega deyia ætt, Adhalld er þad og Ordsok þier, ad ækta lijtt þad sem Heimsins er.

10. Athuga þu hvad Andlææt Mañs, afmyn-

dad gietur Limi hañs, þetta skylldi þig fæla fra, forboñud verk ad girnast a.

11. Saal og Lijkama svijdur þad, sañ-naudug verda skiliast ad, Andarslit hver sem athugar, elska mun sijdur Syndirnar.

12. Sa sem med vondri Syndagiørd, sier hefur stofnad Andar mord, i giegnum Daudañ geingur hañ, i Glotunarstad þo eilijfañ.

13. Peir einir hliota Himna vist, hier nu lifa i Gudi fyrst, þeirra Lijf Drottiñ eflaust er, i Trwñe sem hañ binda sier.

14. O! Drottiñ gief oss øllum nu; iñlijfast þier med sañri Trw, lijka deyia og lifa þier, lofa sijdan med Engla Her, Amen.

# 44. Psalm.

## Huggun fyrir þa sem missa sijna Astvine.

Ton: Hædsta Hialprædis Føgnude.

O! Christin Saal umþuka fyrst, a Dauda stundu Jesum Christ, þviad Ogn Daudans alldrei kañ, ofbioda þeim sem þeinkia uñ hañ.

2. Beyskt Vatn i Mara miøg sætt var, þa Moyses Tried i Bruñiñ bar, þad Lijfsins Tried er Drottiñ dyr, sem Daudans Reñu i Sætleik snyr.

3. Sa edla Kvistur allra Boot, uppruñiñ er af Jesse Root, hver sem geymer hañs heiløg Ord, hañ smackar alldrei Saalar mord.

4. Eymd Mañsins deyr eñ ecki hañ, er Daud-

iñ Leid i Himna Rañ, Afgangur hañs er Ending Kijfs, og Fæding holl til eilijfs Lijfs.

5. Ecki missum vier Astvine, undan oss þo þeir sender sie, fyrer Sorger þeir Fognud fáa, fra myrkrum iñ i Liosid gaa.

6. Yfir Lijfdaga hættast Haf, i Hofn Dauðans þeir komast af, leyster fra allre Siwt og Sekt, syrgia skulum þa ecki frekt.

7. Hvijtañ Skrwda vid Herrans Hlid, hafa þeir nu og Paalma vid, Sorgar Klædi ei somer þa, fyrir soddan Meñ ad taka uppa.

8. Oll hefur þeirra Augnataar, af þurkad Drottins Hondin klaar, Lambsins Stooli þeir lifa hia, Liomandi syngia Gloria.

9. Allskyns Hliodfæri hlioma þar, Horpur slaande Gullegar, hia Englum Guds sier una þeir, ecki skulum þa graata meir.

10. Laattu þier ecki gremiast Gied, Gud þo taki hvad hefur oss lied, Ef þu misser þiñ aast-kiærañ, eiñ Elskara snart fiñur hañ.

11. Alijt þad ei þo adskilied, athuga framar Samkvæmed, sem eptir kiemur eilijft þo, i andvaralausri Sælu og Roo.

12. Andlaat sitt virdir Abatañ, Upprisuñi satriwa kasi, hverrar Imyndan auglios er, Edlis Skapning i Heimi hier.

13. Eydist Heims Lios ad Aptni Dags, uppreñur þo ad Mogni strax, Grasid visnar þa vetrar ad, a Vorin aptur Blomgast þad.

14. Af Eykum falla Avextir, aptur þo vaxa

Blomlegir, og ef Sædid skal Friofgun fáa, fyrst i Jordunni rotna maa.

15. Pa Phœnix hefur Æfi endt, i egin Hreidri sig sialfann brennt, af Ösku kvikuar aptur þar, ungur med Fiadrir Gullegar.

16. So Endurnyast allskonar, Egin Foreyslu þad sem var, alldrei skylldi neinn efa þa, Uppriisu Holldsins Doms dag a.

17. Þu meinter kann skie, Ment og Fie, Mektast hefdi þinn Astkiæri, i Guds Rijki audugur hann, alla Speki vel skynia kann.

18. Hædsta Tign þo hier hefdi gist, i Himnarijki er betri Vist, Drottni hefur, so þocknast þad, þinn Vilie skal þar hneygiast ad.

19. O! Drottinn þu tookst aptur nu, Eign þijna sem mier lieder þu, þitt Nafn heilagi Herra klaar, hædst sie lofad umm eilijf aar, Amen.

## 45. Psalm.

### Umm þann sijdasta Doom.

Ton: Tak af oss Fadir.

Pa Christur kiemur, Kongur Riettdæmur, Allt auglioft verdur, Ord, Hugun og Giordir, Alla uppvekur, er þeim Hefnd-frekur, sem Doms er sekur.

2. A allar Sydur, Ogn þeim ofbijdur, under Elldgangur, yfer Gud straangur, Samvitskan særir, Satan aakiærir, Synd Friotion færir.

3. Hvar mun þa Hæli, Herra minn sæli? Eg veit

veit mig argañ, uñid hafa Glæp margan, Eg ottast Domiñ, wti er tijmiñ, eñ eilijfd komin.

4. Her Himins hiadnar, hrinur og bradnar, sig saman lykuar, Sool rodnar, Tungl bliknar, þijn Verk ei þordu, þig siaa i Dyrdu, er eckert illt giordu.

5. Eg aumur Madur, ofmiog saurgadur, hvad mun þa þora, þig reidañ ad heyra? Hvert ma hellst flyia? hvad skal þa segia? Hver veit ad vægia.

6. Pu Herrañ hijri, hædsti Domari, mier munt ei nyia, maa eg þvi til þijn flyia, þu þolder Dauda, þiña so Sauda, bættir Bol Nauda.

7. Þig Son siñ sendi, siñi af Hendi, Fadiriñ frijdi, ad Fridkaupa Lydi, er þvi ogladur, ef nockur Madur, tynist tapadur.

8. Vijst vill hañ eigi, eg vesall deyie, Herra þad heyrdu, hañs Vilia fullgiordu, laat ei Erfd þijna, Eilijft Bol pijna, aumka Qnd mijna.

9. Lægd Logmaals frekañ, lysir mig sekañ, þiñ Muñur medan, mig kallar blessadañ, þad ma mier meira, mun eg þo heyra, Fridar bod fleira.

10. Eg er ohræddur, i þier Naad giæddur, þo Ovinir aller, yfir mier Hefnd kalli, þu Fridar Fornin, Frelsar þijn Bornin, vor Heill og Vornin.

11. Pu Herra Hlydiñ, helgadir Lydiñ, lietst lijfid Æda, til Lausnar oss wt blæda, veit Vægd i Domi, vor Brodir Fromi, þitt hædst Lof hliomi, Amen.

# 46. Psalm.

## Um þad, Hvernin Mañ skal lannga eptir eilijfu Lijfi.

Ton: Pa liñir hier mijn Lijkams vist.

Ei mattu Saal mijn elska daatt, offallvallt Lijfid þetta, med helgri Girnd i Hædir haatt, helldur skallt þier upp lietta, þar er Æska eñ Elli sijst, eingiñ Daudi og Lijfid vijst, og aangurlaus Unun rietta.

2 Utvaldir skijna eins og Sool, Englum Guds næsta lijkir, Osinker hafa eilijft Skiool, allskyns Nægd mettast slijkir, Drottiñ Gud fullur Dan-semdar, dryckiar þa Straumum Vellystar, iñbyrdis Elsku rijkir.

3. Eilijf Giædi eru so stoor, eingiñ kañ þaug ad mæla, og so dyrmæt, ad eingvum for, vel tala nie noog hæla, ovollt Heibrygdi æ er þar, Unun og Nægd Guds Vellystar, og frabær Fagnadar Sæla.

4 So godur Hlutur eingiñ er, sem eiñ Gud Himna Hæda, Jñdæli mest þa alla skier, sem eignast hañ og vidræda, oss i honum og hañ i oss, hyrañ siaaum þad Gledi Hnoss, er Rootin allra Giæda.

5. Jerusalem þar uppe er, eckert Musteri hefur, med hondum giort, nie Sool þar sier, sijst Tungls þar Porsin krefur, heñar Musteri og Byrti best, er Blessadur Gud sem liomar mest, og Upplysing ollum giefur.

6. Eins

6. Eins sem ei heyrdist Axar hliod, þa upp var verid ad smijda, Jerusalem a Jordu stod, jafnt mun og hiñi lijda, þeir andlegu Steinar eru hier, med Oxi Motlætis kantader, sem heñar Bygging hlijda.

7. Drottningin su sem sockti heim, Salomon Kong hiñ rijka, er søñ Figura Saalum þeim, sem koma i Hollu slijka, Giimsteina hver og Gullid ber, goodra Dygda sem framdi hier, Engla fylgd fær hun lijka.

8. Kongsins Spekt hana furdar frekt, og Fioldañ dyrstu Rietta, dyrmæt Klædi sem mestu Mekt, og Musteris Prydi Setta, i Forundran so segir su, sijst var þess von med miñi Trw, giæti eg gripid þetta.

9. Hier maattu Saal mijn heyra og siaa, hvad Drottiñ vill þier veita, ef þu girnist hañs Hwsum naa, heilaglega skallt breita, andligs gooda ef vænter vijst, Veralldar Giædum æltir sijst, med Akiesd eptir leita.

10. Ef þu gyrnist ad audnist þier, af Lijfsins Trie þig metta, naadu Christo i Heimi hier, hrein Trw maa orka þetta, iñ i Guds hws kañ ecki naa, Otuckt, Mañdrap, Heypt, Lygi, Praa, nie sarnyt Gyrnd Fiedraattar.

11. Heilog Preñing med hollri Raad, Hiartad mitt virdstu byggia, a mier hafdu allt Eignar Raad, alldrei laat mig þig styggia, gief mier hier smacka Farsælld fyrst, fyll mig sijdar þijns Hwss Vellyst, so megi eg þier Lof til leggia.

# 47. Psalm.

## Um þa Farsælld, þegar Madur fær ad sia og skoda Gud i eilijfu Lijfi.

Ton: Ad idka gott med Æru.

O! Drottiñ Alls valldandi, eg vil giarnan til þijn nær, A lifandi Maña Landi, læt mig Nægd hins gooda siaa, nær eg þig, næ ad fiña, Neydar stig, mun þa liña, læingar mig, heim til Hwsa þiña.

2. O! þañ Fognud frabæra, Fognud allañ sem gnæser, nær nun audnast su Æra, ad siaa Gud miñ sem byr i þier? Þijns Hwss siaa, Sælu rietta, svanga mar, dryckia og metta, er þier hia, eilijfs lijfs Uppspretta.

3. O! þu Lijf æskilega, O! þu blessud Farsælld Blijd, þar Heilog Preñing hæga, Hiartans gyrnd fyllir alltijd, ad lijta Christ, Liomañ biarta, i Lijfsins Vist, hia honum skarta, gnæsir mest, Gyrnd alla vors Hiarta.

4. O! Jesu Elskan blijda, Edla Bidell Sælar mijn, nær ætlar þu iñleida, i þiñ Kongs sal Brwdi þijn? Hvad vantar i effstu Hollum? Ecki par, nie hætt vid Follum, Gud er þar, sialfur allt i ollum.

5. Er þar Gud allra besti, Augum vorum Prydi ny, Hunangs Seimur sætasti, Saungur fagur Eyrum i, Balsam kiær, best sem skarta, Blomstur skiær miuk ad snerta, hver þar fær, hvad hañs girnist Hiarta. 6. O!

6. O! Dærfrijda Asionu. O! sæta Noddu Lausnarans, Dyrdar Kryndur Koronu, kiær draup Nærd af Vorum hañs, fyrst hañ er, allt i øllum, upplyser, varnar Follum, Fridiñ tier, Konum jafut sem kollum.

7. Gud er sa Liossins Liomi, Lios i hverium siæum vier, þad er vor Sæmd og Somi, ad siæ hañ i sialfum sier, lockar Mañ, Lijfid dæla, lofa hañ, og vid mæla, alldrei kañ, ad wttalast su Sæla.

8. O! far sæl Borgin besta, Blessud Hollin uppi þar, heimili Heilagasta, Hæxleitrar Guds Preñingar, nær mun ny, Nærd su gledia, nær i eg frij, mig þar sedia, og Gudi i, Gud sialfañ tilbidia.

9. Nær mun su Soolin reña, sem uppliomar þessa Borg? Nær mun eg fæ ad fiña, Fognud þañ ei snertir Sorg? Sæla mijn, siæ þaug Mæri, sæl þu skyn, i Eptirlæte, Arfleifd þijn, er Gud Drottiñ sæti.

10. Vier lifum Gudi Lifanda, lijka erum Kyrkia hans, vier eigum hañ hier i Anda, eñ þar ad Raun riett til sañs, Sælu ad, sia margfallda, samastad, Lijfsins hallda, giefe oss þad, Gud um Alldir Anda, Amen.

## 48. Psalm.

### Um þad allra ærstudligasta Samlag; sem vier skulum hafa vid heilaga Engla i eilljfu Lijfi.

Ton: Mykilli Farfælld mætir sa.

Eilijft Lijfid er æskilegt, ecki neirn gyptist þa,

Englum lijker i ædstu Megt (eigum vier Gud ad siaa) Vitska, Tign, Dyrd og Virding Mañs, vegsamlig mieg þa er, so alldrei kuñi Hiartad hañs, hana ad skynia hier, Jñdælid er þad allra mest, Auglit Drottins ad skoda best, alla Blessun þad underbyr, alla Heill Dyrd og Naad, allt Epterlæti ad oss snyr, allt batnar þa vort Raad, allt Añstreymid so a burt flyr, alldrei snertir oss þad.

2. Ei er Farsælldar framar von, eñ frijdañ Gud ad siaa, þessi hin fagra Fridar sion, fyllir gyrnd alla þa, Engla Umgengni odlunst þo, astwolig verdur su, samlijkir þeim i Sælu og Ro, sañheilagri eñ nu, Hvijtum Skrudda so skrijdunst vær, skijnandi Lamsins Stoli nær, Syndaña Flykum færder af, frijlega lofum hañ, Hialprædis Klædid gott oss gaf, glediandi Riettlætañ, vakni sa upp i Syndum svaf, siaai Dyrdarlioman.

3. Eingiñ æreitir añañ þar, eingiñ kañ reidast þa ei er þar Bruñur Jllgiørdar, eingin Metnadar þra, eingin Motlæting, Eymd nie faar, Jdrunar taar ei nein, ei helldur Daudleg Synda saar, Saalum viña þar Mein, Hungur og Þorsti horfiñ er, af Herrañs Elsku mettunst vier, Utvalda Drottiñs alldrei þa, Ofhiti skada kañ, yfer þeim helldur Hendi sa, Himneskañ byggir Rañ, af Lijfi þeirra sem liomar a, Lifandi Vatn frañ rañ.

4. Utvoldum Guds, so gledièst Gied, Giesta bod er tilreidt, Klaara Vijn, Feyti, Mergur med, mun þar til Rietta veitt, soddan Veitslu vier sitium ad, sæler um eilijf Ar, og Lof syngiandi þock-

um þad, þa verdur Gledin klaar, allt mun þetta þa uppfyllast i Anda og Sannleik fullkomnast, Lijf og Andi Guds ordid er, Otti Daudans þa flyr, hañ var svelgdur i Sigur hier, sia hañs Broddur er rijr, oll vor Augna Taar afþerrer, Angri i Gledi snyr.

5. Hrygdarlaus Gledi hliomar þa, Heilsa Motlætis frij, Lijfed ann Mædu, Lios ei faa, Lystigardi þeim i, alldreie følnar Elskan þar, alldreie Gledin dvijn, einginn Madur þar andvarpar, eingvañ snertir þar Pijn, Yndishægd er þar ollum tied, andvaralausri Sælu med, andvaralaus hin rietta Roo, Roosamlig Unun mest, Unnunarsamlig Farsæl fro, farsæl Elijfdiñ best, eilijf Preñingar Eining þo, Eining Guddoms þar siest.

6. Upp upp mijn Saal, athuga nu, Æru og Vegsemd þa, sem ockur er vijs þa eg og þu, erum Guds Stoli hia, ockar Vardhallds Engil hañ, er hiernu stydur vid, þa munum giorla þeckia hañ, eñ þurfa hañs ecki Lid, er þa samkvæmis Unun stoor, allkynandi i Dyrdar kor, O! Jesu kom, og ei vid tef, iñleid i Sælu þa, O! Jesu kom og Gledegief, Guds Hwsum laat oss naa, O! Jesu þig fyrer utan ef, um̃ Eilijfd gief oss ad sia, Amen.

## 49. Psalm.

### Um þær feiknu Kvalir, sem þeir Fordæmdu verda ad lijda i Helvijti.

Ton: Gud oss Lærdom siñ liosañ gaf.

Hver Christin Saal þad hugleide, hvad Viitis Piisler bytrar sie, so stendur betur Syndum moot, segiandi opt af Hiartans Root, i fra Andar Deyd oss bevari Gud.

2. J Helviiti er alls ills Nægd, a ollu goodu mesta Ohægd; Obærilegur Hiti hnaar, Heliar niistandi Grimdin saar, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

3. Myrkur og Svæla siifelldleg, Sorg og Dioska mynd Ofriin mieg, Op og Jlfraner eiliifs Veins, Andstyggileg Lyckt Breñisteins, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

4. Ormur Samvitsku etandi, Otti Purkur, Sveingd, Harmkvæli, Osund, Hatur, Viil, Orbyrgd mest, Eingin good Von med Heilsu Brest, J fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

5. Sool og Tungl eingiñ siaa þar kañ, siist af ollu þo Gud sialfañ, su litla skyma Eldi af, eingva Hug-hægd Fordæmdum gaf, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

6. Magiñ i Hungri mædist mest, Muñur af Porsta piinist vest, Ellds Logiñ verkar Oop og Kvein, iñlæsist hañ i Merg og Bein, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

7. Af einum Neysta i Eymdar Glood, Oliid anligri Piina stood, eñ þo Kviñu hier kyñi saar, Kvelia Jodsott uñ Pusund aar, J fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

8. Sælgiæti Ols og Matar mest, margur af

hveriu

hvertiu hiellt sig best, Hug sroe þeim það einginn er, ei saa Vatns Dropa að svala sier, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

9. Dyrmæt Klædi og Metord med, minst kunna þa ad hugga Gied, iklæddir Skom um eilijf Ar, Eingin Vegsemd til boda staar, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

10. Audur stodar þa ecki par, aller jafn snauder sinnast þar, Guds blijda Augligt alldrei siaa, ollu þyngra það liggur a, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

11. Kvala Elldinn um eilijf Aar, uppblæs Guds Reidi stormur haar, Samvitsku Ormur innra slær, ytra Dioflanna Girnd frabær, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

12. Hata Fordæmdir hver annann, hata þeir lijka Gud sialfann, hata þeir Engla Heilaga, hata þeir alla utvalda, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

13. Oll Olucka sem innast maa, oll slæst i eitt og plaagar þa, alla varir það Eilijfd þo, alldrei sinnandi Vægd nie Roo, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

14. Minsta Korn þa af minstu Kvol, er myklu þijngra enn allt Heims Bol, og þo ad Adams Arfarner, aller skipte þvi jafnt med sier, i fra Andar Deyd, oss bevari Gud.

15. O! Drottinn gief oss ollum það, að þeinkia so um Kvala stad, að þangad komunst alldrei vier, i varfærni framgaungum hier, i fra allri Neyd, oss til Lijfs innleid.

# 50. Psalm.

## Um̃ þad, hvernin eilijflega munu vara, þær Helvijtsku Kvalir.

Ton. Myskuna þu mier milldi Gud.

Ef þu Christin Saal athugar, ad Pijslirnar, Eilijfar eiga ad vera, þvi betur lærir þar af þu, ad þeinkia nu, hvad þungt sie þær ad bera, Helvijti heitt, Huggun fær eydt, þad bitra Baal, brennande Saal, alla tijd a ad vara.

2. Fordæmidra Lijf i Elldi þa, er Daudi sar, Æ er yfir hangandi, þeirra Daudi Lijf einin er, sem alldrei þver, i Kvølum ofegiandi, Breñi-Bødlar, þreytast sijst þar, Alukandi Kvøl, ofan a Bøl, med allskyns Eymd og Grande.

3. Hvad er þad Mañ kañ þyngra ad þiar, eñ þad sijst sar, er hañ mest eptir langar? Eñ hitt um̃bera verdur vijst, sem villdi sijst, Plagur og Pijslir strangar, ælycktad er, ad sa sem hier, sij-syngda vañ, sært Hefnda Bañ, ei skuli af honum ganga.

4. Tapadir safna Syndum sier, um̃ alla hier, Eilijfdar Æfi sijna, um̃ Guds eilijfd þeir þvingast þvi, þeim Pijslum i, sem alldrei ega ad dvijna, hañs Giæsku Gied, og Myskun med, utslocktu þeir, i sier þvi meir, kvelur þa Kvøl og Pijna.

5. Þeir elskudu Aud oþarfañ, of-fallvalltañ, Vellyst og Virding bædi, Himneskum Fie-siod sintu sijst, sem er Gud vijst, ei girntust andleg Giæ-di,

di, skamvinn Lijfs Lyst, leidist þeim siist, hrapande
þui, Helvijtid i, eilijfa Eymd og Mædi.

6. O! þu Eilijfd o-endanlig, einginn kann þig, wt-
sia nie noog ad grunda, O! hvad myked þu eykur
a, alla Pijsl þa, Tapada hlijtur henda? nær ara
stund, Otal Pusund, umm leid o-hast, onnur byr-
iast, so geingur aan alls Enda.

7. O! þu Eilijfd, O! Eilijfd þu, ein ertu su,
sem mest kann mein ad vinna, Fordæmdra Pijsl er
þungbær þa, þui heita mæ, bitur og beysk ad finna,
og þyngre er, þui margfolld skier, allra þyngst þo,
þad undir bio, ad hun skal alldrei linna.

8. O! þu Daudi sem alldrei deyr, Ending þijn
er, a ny þig uppbyriandi, Daudann girnast For-
dæmdir sæ, fyrrest hann þa, Lijf tru eg langt fra
standi, Aumt Hel þad er, sem alldrei þver, og
lijfi þui, ad lifa i, sem alltijd er deyandi.

9. O! þu ban-væna auma Lijf, ef þu ert Lijf,
þui villtu þa so deyda? O! þu lifanda auma Hel,
Ef þu ert Hel, þui villt ei Lijfs Eymd eyda? O!
eilijf tijd, Illum miog strijd, ad þeinkia til þijn,
er þijngri Pijn, enn annad allt sem lijda.

10. O! Saal mijn, Saal mijn sia ad þier,
sæsrheit Pijsl er, opt er þad athugandi, Næxdar-
tijmanum gief ad gaum, gior Idran aum, Eymd
slijk so alldrei grandi, sa Syndum sier, safnar
tijdt hier, þess meira Baal, brennir hans Saal,
Ellds Mat so aaleggiandi.

11. O! Drottinn Jesu herra hyr, i Hædum byr,
vor Sijndabotin sanna, fullu borgandi fyrir oss,
festur

festur a Kross, Lijf, Heill og Laustnin Mañaj, liuf-
ur Lijkn sijn, leys oss fra Pijn, illt Andar bol,
eilijfa Kvol, oss lætu alldrei kaña.

12. O! þu riett-nefndi goodi Gud, sem glǫtud-
um Lyd, sender þiñ Son i Heimiñ, oss ad leysa
fra Andar Deyd, og allri Neyd, sie þier Dyrd
sǫgd og framin, og þier Jesus, sem frelstir svs,
Guds Anda med, Gǫfgun sie tied, um̃
Allder Allda, AMEN.



# Fimti Partur þessarar Psal-ma Bookar, hefur iñi ad hallda andliga Psalma og Lofsaungva, hljtd-andi uppa þær sierliguſtu Hǫfudgreinir Christi-legs Lærdooms, um̃ hvern kient og Predik-ad er, i Christiligri Kyrkiu.

## I.

## Um̃ Christi Persónu, hans Em-bætti og Velgiǫrninga.

D. Marth. Luth.

Giǫrvoll Christnin skal glediast nu, og Gudi
Lofsong færa, So ad af ǫst og sañri Tru, syn-
gia kyñum og læra, ad sialfur Gud oss syndi
hier,

hier, sætustu Raad og Varsemder, gaf til þess Gialldið dyra.

2. J Diofuls Fiotrum eg fangiñ lá, Fær daudans viist eg skildi, Dag og Natt mig særdi Syndin þa, su miñi Fæding fylgdi, æ jafnan vox miin Synda sekt, saurgadi Lifnad miñ so frekt, til allrar Illsku tældi.

3. O-gilld voru miin Verkin from, vanst þeim ei mig ad stoda, Sialfrædid flyr Guds dyrañ Dom, Dadlaus til alls hins goda, hugviils sieck mier su Hrelling liot, hia mier var Daudi eñ eingin Boot, og viis Helviitis vodi.

4. Eiliifañ Gud ængradi þa, Eymdin miin morg vr Mæta, hañ mintist siina Myskun a, mier villdi hialpa læta, sitt Fodurligt mier byrti Briost, af bliidri Naad, eñ eingvum Piost, hañ kostadi dyrt miñ bata.

5. Mællti vid kiæra Soniñ siñ, Sie eg mæl Naad ad giefa, far nu til Sonur mæti miñ, Mañkyni aumu ad hliifa, Leys þad af sarri Synda Kvol, sialfañ Daudañ þu sla i Hel, Lat þa so med þier lifa.

6. Guds Son i Heim vitiadi vor, Vilia siins Fodurs fylldi, fæddi hañ Meya Moodir kiær, miñ Broodir verda villdi, Gieck hier med aumañ Holldsins Hatt, og huldi miog siñ Guddoms Mætt, ad Satan sigra skylldi.

7. Mier sagdi hañ, þier halltu vid mig, heill eg þier goodum Vilia, Eg gief mig sialfañ fram fyrir þig, til Frelsis þier læt mig kvelia, þvi eg er

þiñ, og þu ert miñ, og þar eg er, skalltu vera med mier, Diøfull skal oss ei skilia.

8. Mijnu Bloodi wthellir hañ, hier med lijfi mig sviptir, þier til hins besta og þetta vañ, þijn Tru hugsi þar epter, Sialfur Daudiñ sigradur var, Synd þijna mitt Meinleysi bar, so ad Andar Hvijld þu hreptir.

9. A Himna aptur til Fødursins fer, fra þessa Lijfsins hætti, ad eg Myskun wtvegi þier, og Anda hañ senda mætti, sem Huggi þig i hverskyns Kvol, so i hreiñi Tru mig þeckir vel, og a Leid Sañleiks þijn giæti.

10. Bod mijn og Verk þau bijd eg þier, i Breytni og Kieñing ad sijna, Guds Lof og Dyrd ad efsir hier, og aukir svo Christni mijna, Setningum Maña siaa þu vid, sem saurga þeñañ Hialpar Sid, þeim skilmaala skalltu ei tijna.

## Ein gømul Vijsa, snuin og umbreytt JEsu Guds Syni til Lofs.

Eiñ Herra eg best ætti, er mijnar Syndir bar, ad prijsa af mesta mætti, þvi mier so godur var, hañs blessada Nafn vil eg bera, i Briosti og sleppa ei, Su hlijfd mun mier hollust vera, hvert sem eg lifi eda dey.

2. Laat mig nu Herra læra, Losid ad vanda þitt, þier hæfir Heidur og Æra, eñ Hiartad kallt er mitt, Send þu mier nu þad Siñi, eg syngi af Hiartans gruñ, hvert eg er wti eda iñi, um̃ øll þijn Verkin kuñ.

3. Miñ

3. Miñ Jesú Morgun Stiarna, og mætast Balsam ert, Þier vil eg þiona giarna, so þu miñ Tulkur siert, Gior Saalina Herrañ hreina, adur hun kiemur fyrir Dom, sem Gullid og Gimsteina, so gietur hun reiknast from.

4. Samlijkur Sooliñi klaaru, sem yfir Heimiñ skyn, þijnir Geyslar blijdir baaru, burtu Sorg og Pijn, A Valld þitt vil eg mig giefa, eg veit þu slockvur wt, (þad sem eg ecki efa) Angur og alla Swt.

5. Allfagrañ Engla skara, þu æ til Pionustu fær, þeir taka truliga vara, hvad skipar Herrañ kiær, Gud Fadir þig sialfur setti, vid sijna hægri Hond, þu rædur og styrir Rietti, og rijkir um oll Lond.

6. Po giøre eg þijn Bod ad briota, bædi med Ord og Verk, laat þu mig Naadar niota, nog er þijn Hondin sterk, Bindstu fyrir Blessadar Undir, Brædi og Reidi þijn, Afma þu allar Syndir, mig aangrar Vondskan mijn.

7. J Syndiñi mijn Moodir, mig gat og þad er vijst, J saaru Synda Floodi, sijdan hef eg vafist, þvi stend og vesæll i Voda, nema veitir þu mier Lid, og sialfur sender ad boda, Samvitskuñi Frid.

8. Þvi fly eg til þiñar Naadar, þu kañt ad viña Boot, añad er ei til Raada, eg bid af Hiartans root, vid blessud Ord þijn eg blijfi, bædi til Sioos og Lands, æ medan eg er aa Lijfi, so alldrei verdi a stañs.

9. So lengi sem eg hiari, i Sorg og Tymdar

 dal,

dal, J Otta Guds framfari, og fyfist ei meir eñ skal, Piñ Andi Endurnye, allt mitt Hiarta og siñ, so liota eg Lostu flye, legg þu til Styrkiñ þiñ.

10. O! heilagi Lijfsins Herra, heyrdu nu hvers eg bad, þijn Æra ei skal þverra, af Hiarta eg gyrnist þad, ad fare eg ei fyrri ad sofa, eñ frelstur af allri Neyd, miñ Lausnarañ megi eg Lofa, mig leysti fra Andar Deyd, Amen.

## Af Herranum Jesu eiñ Lofsaungur.

Mā syngia sem: O! Herra Gud þijn helgu Bod.

O! Jesu þier, Æ vilium vier, Vegsemd og Heidur jata, Nafnid þitt, sem bidia blijdt, birga villtu lata, Fodurin vid, þu festir Grid, fyrir þig, Sonin kiæra, þu lietst a Kross, ad lijfga oss, Lof eilijft sie þier og Æra.

2. Hæstu Raad, a Himni og Laad, hefur þier Fadiriñ fengid, Synd, Diøful, Hel, sigradir vel, Satan fieckst yfergengid, Fridhelga Braut, þvi hver Mañ hlaut, hia Gudi Saal ad næra, Þu lietst a Kross, ad lijfga oss, Lof heidur sie þier og Æra.

3. Þijn Raadin hrein, er nægri ein, eñ nockur kuñi ad hyggia, Vegur og Lios, þu leidir oss, lijfs æfenlegt ad þiggia, Verolldar Sion, þig virdte Pion, vorar hvern Syndir særa, þu lietst a Kross, ad lijfga oss, Lof Heidur sie þier og Æra.

## Ein Lofsøngur um Mannsins Endurlausn, med Lag, Giørvoll Christnin.

Riettruad Hiarta huxa nu, hædst Lof Gudi ad færa, Af ollum mætt han heidra þu, hallt han þinn Fodur kiæra, ærn hans þo berir alla stund, Angur og Viil i þinni Lund, þitt Liif þo kann ei næra.

2. Af Hiarta hefur a þier Ast, og veiter þier siin Giædi, Sa lætur þijna Synd afmæst, Sæt þinar Andar grædir, Og vopnar þig i Andlegt Strijd, Ovina Krapt so standist vid, so ad þinni Sæl ei nædi.

3. Munadarlausum Monnum hier, Myskun og Rad vill senda, sem vid hans Sanleik hallda sier, Hræsni allri fra venda, Sem riettur Fadir fylgir þeim, Framferdi sitt i þessum Heim, Heilaglega ad enda.

4. Sem goodur Fadir giarnan ber, Giæsku til Barna sinna, Eins lætur Gud i Heimi hier, huggun oss auma finna, Hans eilijf Rad og Elska milld, oss fyrergiefur alla Skulld, og lætur yfirvinna.

5. Giefur han helgan Anda sinn, Endurnyar vorn Huga, Ad uppfyllum hans Ordin sonn, enn þo med Hollsins Trega, Styrkir oss hier med Heill og Rad, Himneskan Arf og Sama stad, sialfur vill oss utvega.

6. Epter vorum Tilverknadi, villdi oss hefnd ei veita, Sælar Tion vort samaumkadi, syndl oss Elsku heita, Hans Rad og Giæska Eilijf er,

 ollum

öllum bwin sem vilia hier, til hañs af Hiarta leita.

7. Astverk sem hefur uppbyriad, a oss mun hañ vel enda, þvi giefum oss hañs Giæsku Nad, og gongum hönum til Handa, Hañs Ord og Skipun vondum vier, og vonum hañ til Dyrdar sier, voru Fram̃ferdi venda.

8. Himneski Fadir hia oss sierf, hliif oss i þessum Voda, ad Rædvandt sie Athæfi vort, og sæle Ending gooda, upplysi oss þijn Ordin hrein, ad Heims i Myrkri ei Blecking nein, giori oss Andar Skada.

9. Herra, til Lofs og Þackar þier, þad verdi sem vier syngium, Læt oss þijn Ord so heyra hier, Hug vorn i giegnum gengi, Milldi Gud veit oss Matt og lid, med riett andlegum Riddara Sid, Fagnadar Koronu fengium.

## Eiñ Psalmur um̃ soñ Rok vorrar Endurlausnar, og hvar fyrir vor Endurlausnari hlaut ad vera sañur Gud, og sañur Madur. Ton: Giorvoll Christnin.

Adams Ohlydni ollum kom, æ megum vier þad kiæra, i Hormung og þa hædstu Raun, hættir su Hrygdar Snæra, Diofulliñ eiñ þañ drygdi Prett, sem driugum Syndir hefur giort, Gud mun þad eiñ lagfæra.

2. Hier mælir fyrst Guds Magtin snjallt, mun hun viist Bootum vallda, Eg kañ burt taka Bølid allt, þeim beyska Dauda giallda, breñandi

Viitis briota Hlid, og buga Satan Velle vid, so vil eg Sigri hallda.

3. Guds Riettviisi þa greidir Svar, og Glæpi hittir flesta, med hrygdar Piin, og Hefndar var, þvi hier mæ eckert bresta, Nær Riettlætid og Riiklegt valld, rata i eitt Samþycktar halld, þad er su Vegsemd mesta.

4. Myskunin lioos nu mætir þvert; og Milldiliga oss aumkar, Ef Gud vill epter greindum Riett, giorvallri Liinkind seinka, Hvar er þa Heill og Rædin sæt? og hin Hæleita Spekin mæt, sem Herrar sier til einka.

5. Guds Viisdomur gaf Rædid sliikt, giæsku fullt alla Daga, ad vier holldum so allt forliikt, þad eingiñ kuñi ad klaga, Guds Veldis Magtin varir fast, veglig Myskun sær eckert Last, æn Riettviisiñar Baga.

6. Oss hæfer ollum (hlyded a) i heidri jafnt ad standa, so goodar Packir giefist þa, Gudi til ad vanda, hugleidid nu miin Hiartnæm Ord, hvar af Gledin er Englum giord, og Moñum Hialp til Handa.

7. Hver gietur Synda golldid sekt? Og Grimd Reidiñar hladist? Hver fiñst so hraustur af fullri Mekt, hañ sæi Daudañ stadist? Nema Gud sialfur giori þad, og griipi Mañiñ wr Symdarstad, og þeim þañiñ liiknadist.

8. Var nockrum Synda Byrdi hier, nema sierhverium Mañi? Þvi Adam sokti oss med sier, i aumu Lasta bañi, hier af sañliga segiast kañ, sæt um

vier midt i Heliar Rañ, giætid þess vel jafn-
frañi.

9. Þvi liet Gud miñ siñ liufa Son, Lijkamans
Hollðgan hliota, ad vier mættum med hañs Til-
sion, Himnarijkesins niota, ollum er tapad
Jilskumatt, Andskotans, hver ad liggur lagt,
Christur liet hañs Krapt þriota.

10. Heyr þu til mijn Madur hver, hvad Jesus
Christur bydur. Honum ad hlijda hæfir þier, þvi
hañ er ollum þijdur, Kom þvi til mijn i Kiær-
leiks Tru, Af Kvolvil eg þig leysa nu, og þiñe
Sorg slaa nidur.

11. So bydur Christur sijna Raad, samt fatæk-
um og rijkum, sem ad Guds Ordi hafa gaad, wt
i giørvollum Rijkium, Eñ sa Guds Syni gley-
mer hier, gloandi Pijnur hreppir meir, i heit-
um Heliar Dykium.

12. Hver sem truir a Herrañ Christ, hañ er
Guds Barnid blijda, Sa ottast Gud af allri lyst,
og Elsku synir vijda, Siñe Kallan med sæmdum
añ, so Satan alldrei vielar hañ, hañs von vill
Christur bijda.

13. Þar fyrir syngur Himna Sveit, Gudi sie
Lof aan enda, þvi hañs Elskan miøg var so heit,
Heimi ried Son siñ senda, Med þier syngium af
þydri Lund, og þockum Gudi hveria Stund, A-
men ad aller vanda.

## Jesus heyr mig.

Ton. Allt mitt Raad til Guds.

Je-

Jesus heyr mig fyrir þiñ Deyd, Jesus þyrm mier i Pungri Neyd, Styr mier og stiorna aumum, þu þeckir mitt Gied, gaumgiæf mijna Raust, Gief mier af Himinsins Hædum Traust, eg er nu staddur i Naunum.

2. Jesus frels mig fyrir þijna Kvol, fiærlægt gior þvi allt Synda Bol, Geym mijna Sææl fra Pijnum, Hagræd þu miñi Hiartans Root, uñ hvad eg bid þig Dag og Nott, med ollum Utvolldum þijnum.

3. Peim sem þiona þier Æfe sijn; þig bid eg Drottiñ snu til mijn, Send mier Ast þijna saña, Leystu þiñ Lyd fyrir Lijknar Boon, lijka twvega þeim eilijf Laun, sem þiñ Styrk æ vilia kaña.

4. An efa er eg eiñ af þeim, sem vitia þijn med Hiartans Kvein, lææt mig Næd þijna hliota, so Muñur miñ rædi miukt þar uñ, hver Hialp af þier i Heimiñ kom, mot Synd og Helvijti liota.

5. A ollu þvi oss kastast mot, kroptuga viñur þu hier a Bot, hvert þad er meira eda miña, Hvad sem Lijkamiñ þarf og vor Sææl, veiter þu vijst fyrer utan Tææl, til allra munt þu soo iña.

6. Eg er su Sool sem ætijd skijn, Beyskleik þijnum bregd eg i vijn, og i Bruñ Sætleiks Anda, Hvad eg vil fremia a Himni og Jord, fram kvæmer allt mitt Helga Ord, Pa Tign gaf mier Fadir til Handa.

7. Allar Skiepnur i Heimi hier, hliota ad eingvu verda fyrr, eñ nockur Piona miña, sem trua a

mig med traustre von, tapest og fære Andar Tion, fyrir Sekt Misgiorda siña.

8. Gangi nockur i Glæpa Bañ, so Gud Fødur afræki hañ, sa byr sier Bølvan stranga, Hverfi þa til mijn med hraustre tru, af Hørmung vil eg hañ leysa nu, Guds Hylli hañ skal fanga.

9. Eñ hver sem mier vill mæla a moot, mæta fær alldrei Sælar Boot, Guds Brædi skal þeim tapa, sem hæda mitt hæleita Ord, hættleg þañ grijpur Bølvan hørd, af Himni mun hañ hrapa.

10. Þvi ræd eg øllum raunar hier, þeir reki mitt Ord ei fra sier, helldur i heidri halldi, og hirdi þad i Hiartans þel, hvad mijnum Børnum hæfer vel, þvi Rædi gleymid riett alldrei.

11. So Deydir Jesus Ðløfla Mætt, dapra af Dauda reiser brætt, Daudiñ mæ hønum vijkia, hañ er Maña miukust Biørg, sem mædast hart i Heimsins Sorg, og eiñ Herra Himnarijkia.

Hymn. Jesu dulcis Memoria

Ma syngia sem, A þier Drottiñ.

Jesu Miñing miøg sæt er og miuka Hiartans Gledi lier, fram yfer Hunang og allt hvad er, þa ilmar af Jesu Nafni hier.

2. Syngiast ecki sætara mæ, nie segiast gledilegra fra, Hugsun er eingin hærri ad fæ, eñ Herrañ Jesum ad miñast a.

3. Jesus er von þeim idrast kañ, vid alla milldur sem bidia hañ, þeim hañs leita, liufur añ, med Lykn vill græda sierhvern Mañ.

4. Jesus er Hiartans Sykur sætt, sa Lijfsins Bruñur og Liosid gladt, Þu yfergeingur einka hratt, allañ Fognud og dyrsta Skart.

5. Tunga eingin tala maa, nie Tign upp skrifa nockur þa, Oreinder truad þvi eingver faa, hvad Elska er Jesu good ad naa.

6. Jesus er Drottiñ dyrstur og skiær, Dasamligasti Siguriñ fær, Osegianliga eiñ frabær, og æskilegasti fyrr og nær.

7. Herrañ milldur hia oss bw, og heilogum Gafum uppfyll þu, Nætur myrkri fra Moñum snu, med þijnum Sañleik fæd oss nu.

8. Jesu Elsku eg ætijd ber, idugliga i Hiarta hier; Hunangs Seimuriñ sætur er, Saña lys Soolin Jesu mier.

9. Jesu Elska er eiña stærst, ilmandi af Sætleik hæst, med þusundfalldri Pocknan glæst, þeim sem hun er i Hiarta læst.

10. Jesus er Eingla Prydi hyr, i Eyrum fegurdar Saunguriñ skijr, i Muñi Hunangs Ilmur o-rijr, i Hiarta Himna Dryckuriñ dyr.

11. Miñ goodi Jesu gief mier haa, Gnægd af þiñi Elsku ad faa, Veit mier aan enda ad vera þier hia, Vegsemd þijna og Dyrd ad siaa.

12. Jesu þijn Elska alltijd hier, Endurlijfgan Hiartans er, ad soñu aan Leida Sadning ber, Saalina Hungrar eptir þier.

13. Hver þig smackar af Hungri þreyr, Sa þig dreckur þyrstir æ meir, Añad girnast ecki þeir, nema Jesum, hver ad þeim er kiær.

14. Gloo-

14. Glooandi hef eg girnd til þijn, miñ goodi Jesu þu kom til mijn, þu gledur mig sem af Giæsku skijn, og giefst mier Sadning lijka fijn.

15. Jesus þu ert Mýskun mest, miøg dærsøm Gledi i Hiartad fest, af Goodsemd alldrei Gud miñ liest, Gief mier þig ad elska best.

16. Dyrd sie jafnan Drottiñ þier, sem af Meyuñe fæddur er, Med Fodur og Anda helgum hier, hiedan af og um̃ allar Allder.

## O! Jesu mætur, Ma syngia so sem, Gud þañ Engel siñ Gabriel.

Guds Son þu varst ad Guddoms art, gietiñ af helgum Anda, þu hefur med Magt, i eyde lagt, Snorur þess illa Fianda, Fyrir Adams Brot, þu giørder Bot, blijdri Gud hialp ried heita, hañs Nærd mier villdi veita, mijn Sekt og Synd, ad yrdi tijnd, Huggun ei er, þeim hafna þier, hreina Mýskun ad bijda, hver þig ei fær, nie fiña nær, eilijfa Eymd mun lijda.

2. O! Christe nu, eiñ stiller þu, Forfedra Sorg so længa, sem Ar og Dag, med Eymdar lag, af vite ei nædu ad ganga, J hardri neyd, hropudu: O! Gud, liuk upp Hlidi Himnaña, opna þu Gotu faña, Send þu þiñ Son, ad veita oss Von, af Hørmun hier, þad hliotum vier, fyrir hañs dyrstañ Dauda, Miñ Herra þvi, hier Heimi i, hædst Lof þier aller biooda.

3. O! Jesu hreiñ, þu ert alleiñ, aumum Huggun a Jordu, ad þvi hefur gæd, eilijft Guds Ræd,

vt-

ꝛotvaliñ Mañ þig giordi, oss øllum traust efunarlaust, Alla þa munt afslietta, sem ei hafa Truna rietta, Guds hædsti Son, mijn Hialpar von, hia einum þier, þu hefur mier, ꝛotvegad alla Gledi, Von og Tru mijn, set eg til þijn, þu mier Nææd mesta tiedir.

4. O! Christe dyr, sem Kvol af snyr, Ast þijn hefur eingvañ enda, hrein Milldi er, ad hefur þu mier, hialpad til þijn ad venda, Dyrst Kieñing þijn, mig droo fra Pijn, og Diktun falskra Maña, hverier þiñ Heidur baña, Sijn Hræsnis Verk, þeir hielldu sterk, þa meinte eg hier, ad munde mier, Nææd af Giorningum verda, eg forliet þig, ei dæmdu mig, Ovitska mijn þad giordi.

5. O! Jesu hier, þitt Ord lyser, øllum med Roddu styrkri, Hialpa ꝛor þijn, ꝛotvolldum þijn, sem sitia i nockru Myrkri, eñ hafa þo, ei Hviild nie Ro, af heimskra Maña Lærdomi, þijn Ord auk þeim i Tomi, Veg þeirra greid, a þijna Leid, þa hugga nu, sem hefur þu, helgad med Bloodi þijnu, Von vor øll er, a einum þier, ecki a ødru neinu.

6. O! Christe kiær, ei kiemur so nær, þitt Ord skal fra mier vijkia, þa komi til mijn, Mijskuniñ þijn og læt mig ecki svikia, Mælsku og Slægd, nie Menta Nægd, sem Mañ kañ valla ad þeckia, þau Svik læt mig ei bleckia, Þvi soñu lijkt, ad syneft slijkt, Þijn heilog Raust, er Huggun traust, hefur oss kient hid vissa, og Ordin þijn, eru Fæda mijn, læt mig alldreie missa.

7. O! Jesu Christ, eiñ Gud ert vist, allsvalld-andi

andi alleina, Ei er ſa Mañ, ſem ma nie kañ, Marꝛt þiñ nie Heidur greina, Allra Knie, þijnu Vallde, æ verda Lotning veita, Eingiñ mat þvi neyta, Skiepna þijn, O! Kongur miñ, nær Heimi fra, eg hlyt ad gaꝛ, Mitt Hiarta mæꝛ þad lijda, þa hialpa mier, ad megi eg med þier, eilijfleꝑana liſa, Amen.

## II.

# Um̃ Guds Ord og Truna.

## Hroſan og Prijs Gudlegra Orda.

Med Ton. Naatturan oll og Edli.

GLedied ydur nu Herrans Hiord, af Hiarta Lof ſkal ſyngia, Um̃ Londin oll hañs Heilagt Ord, hlytur auglioſt fram̃ ganga, Sa finſt ei Mañ, þvi forda kañ, fullreynt vier þetta bodum, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, illum og ſo godum.

2. Adam, Adam, af ædſtri Art, þu eldſte Fadir Maña, i Paradijs þa falliñ vart, fieckſtu þa Huggun ſiña, Ad Meyiar Sæꝛd, mun ſenda æ Lard, ſvipter þvi Harmi þungum, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, Olldrudum og ſo ungum.

3. Noe, Noe, Guds Godi Vin, gafſt þier hañs ærſt ad ſiña, af þvi vel geymdir Ordin ſijn, Eid virdtiſt hañ þier viña, ad Verolldu hel, ei viña ſkal, Vatns med Voda ſlijkum, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, oreigum og ſo rijkum.

4. Abraham hañ fieck Fijrerheit, um̃ Fiolda ſiña Barna, hellſt þvi Riettlætañ halldiñ veit, hañ tru-

trudi Gudi giarna, Heiduriñ þañ, nu hliota kañ, hver sem Gudi vill trua, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, þeim þaug i Brioſti bwa.

5. Loth var Goodſivs og Gofugur Mañ, Gud þeim tuo Eingla ſendi, Af Sodoma wtleiddi hañ, aptur bañar ſier vendi, Elld rigndi bràtt, af Himni hatt, Heidni ſendur ad pijna, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, fra illu frelſa ſijna.

6. David var eiñ ſa Kongur kiær, kallaſt lijkur Guds Lyndi, Hañs Kieñing jafnan hiellt ſier nær, med Hug og Verk þad ſynde, Af Ættum hañs, hiet Gud til ſañs, Holld Mañlegt a ſig ad taka, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, a Himni og Jordu lijka.

7. Jeſus Chriſtus Guds ſañi Son, ſem Mey Maria fæddi, a honum ſañaſt oll vor Von, er hver Spamañ um ræddi, Hædſti Gud, af Himni baud, honum ſkulu þier hlyda, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, eigum þau loſa og pryda.

8. Heyr þu Madur og hugſa vel, hvad þeir framar oſſ ſkrifa, þad nya Teſtament eg tel, Trwudum Huggun giefa, Jardteikna giord, og Jeſu Ord, jafnan megum þar læra, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, æ meira A voxt færa.

9. Mattheus Levi Læriſveiñ, liuſt var Tollbwd ad neita, Fyrſtur Gudſpiallid frañ bar eiñ, og fyrir oſſ ad leita, ad Jeſu Chriſt, ſem vijſar vijſt, veykum til ſijn ad koma, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, med ædſtu Dyrd og Soma.

10. Marcus þar næſt af Mætti þeim, miog glogt

glögt upptélur añar, Dasemdarverk sem veitte Heim, vor Drottiñ, þar med sañar, esunarlaust, ad Truin traust, ein giørdi oss Riettlæta, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, þeim hryggva og þeim kæta.

11. Lukas eiñin hañ Lærdom bar, liosar Jardteiknir kleñir, Gudspialla Pion sa þridie var, þar til miukliga miñir, Af Himna Tron, siñ sæta Son, sendi Gud oss ad fræda, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, Ond vora best þau græda.

12. Johañes hañ var Jesu kiær, jærtar hañs Dyrd hiñ siordi, Upphaf greinir og Ord hañ skiær, allt hvad hier leid og giørdi, Amiñir nu, ad i ærst og Trw, aller Guds Nædar leiti, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, ørugg Hialp illu i moti.

13. Saulus, Pæælus wtvalid Kier, Ord Guds ad vijdt wtbreidi, Hatur bañad og Ofund er, afskipud Ogn og Reidi, Verolldiñ ill, ef ecki vill, af sijnum Syndum læta, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, vor bid eg virdist giæta.

14. Paull Postuli vel telur trw, i Tignar Kieñing þiñi, Heimsins Vitsku ovirder þu, Verk hans ill bydur liñi, Um Truar Krapt, þu kiender opt, kañ ein til Guds ad leida, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, þo Heimskir dirsist hæda.

15. Petur, Judas og Jacobus, jafnan þiñ Lærdom greina, a frahvarf og Jdran fysa oss, fyrir Jesum alleina, Hañ er sa eiñ, ei añar neiñ, oss vill og best kañ biarga. Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, mot Ædi allskyns Varga.

16. Hver

16. Hver Mañ nu helist þad hura skal, Hugbodi sijnu gleymi, tru þu Ritningar Ordum ad, aastsemd Drottins þig geyme, Sie Verk þijn dyr, eda Vitsku skijr, virdtu meir Gudi ad trua Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, a vijsañ Veg oss snua.

17. O! Jesu Christ Guds kiæri Son, kieñ oss ei fra þier ad vijkia, ad megi oss ecki af millori von, Maña Lærdomur svikia, fyrir Magtar Ogn, nie sæta Sogn, syngium þier Heidur ad gialda, Ord Drottins hrein, eru eilijf ein, um̃ allar Allder Allda, Amen.

## Ein trwlig Vidvørun, ad Meñ ecki forsmæe Guds Ord, Ton. Vaknid upp Christ.

Vak i Nafni vors Herra, vakna skal Christnin tru, Pier ber Packir ad giora, þijnum Brwdguma nu, Ord sijn þier aptur sendi, uñ̃ þessa Nædar Tijd, og a voru ydsta Landi, allstadar klaar þau kiendi, liost fyrir øllum Lyd.

2. Ovin sa Ormur gamle, eiñ Fadir Lygiñar, um̃bryst so ad þvi hamli, af Heypt so wrskurdar, Bana og Bañs skal sekur, Bodandi Gudspiallid, wr Lande opt þa rekur, Eitrar, breñer, aftekur, þo sigrar ei þar med.

3. Fyrst Ognar frekt med Toñum, Falski Dreki af Mood, ætlar fra Ordum soñum, ad fæla Christna Pıood, Fylg Gudi fast af Huga, fyrir þier ber hañ Sorg, sa þig sækist ad buga, Gialld grijpur i hans Auga, Hañ er þijn Hlijfdar Borg.

4. So Hialpadi vor Herra, Hiord siñe Jsrael,

Pharao Fiandmañ þeirra, fieck i Hafenu Hel, Fliott vard Jericho falla, fyrer Jsraels Lyd, Lestist þa Lwdrar kalla, Lijkn sa og adstod alla, Guds Born þa þurfa vid.

5. Madianitar mæddu miog illa Drottins Lyd, Amalekhitar æddu, Jsrael beiddi Gud, Gaf hañ þa giordi lausa, Gedeon er Nafn hañs, Guds Born i Lwdra blaasa, bardist so Piood Gudlausa, Fiell Hundrad Þusund Mañs.

6. Sia hverniñ Drottiñ dugdi, David Kong moti Saal, sa Bana hønum hugdi, hlijfdi og sijdar vel, vid sijnum Syni braadum, sem nefndist Absalon, sa David svipte Raadum, setti af Rijkis Raadum, þo bættist þetta Tion.

7. Merk Guds Stod milldelega, mot Jeroboams Magt, um̃ Abia tvo vega, i Strijdi hafdi lagt, so hvern til Heliar leiddi, hiner Gud kalla a, Hug grim̃ra Herrañ eyddi, hañs Folk med Vopnum deyddi, Fim̃ Hundrud þusund þa.

8. Giæt hvernin Gud ried hefia, Gøfugañ Assa Kong, Sæmd hañs soktist ad kefia, Serah og Fylgd hañs strøng, Þusund Þusunder þora, Piood Guds ad rijsa a moot, Herrañ gaf þeim Heill stoora, hiuggu so nidur Mora, eigi stod eiñ a Foot.

9. Þeink hvad vel þyrmdi Drottiñ, þeim Kong Ezechia, Senacherib med Spotti, sokte hañs Rijki a, Fyst ist ad yrde fundir, fyrir Jerusalem, Engill sloo uñ Naatt-stunder, Attatiju þusunder, þvi sneru hiner heim.

10. Heyr

10. Heyr og Guds Hiastod blijda, hveria Josaphat fañ, Moab og Amon strijda, a þeñañ froma Mañ, Hañs Sveit af Hiarta bidur, Herrañ var þeirra Traust, Ovinum var ei Fridur, iñbyrdis hiuggust nidur, Folk Guds vard Vodalaust.

11. Oll Christnin a þad hlydi, Ovini Drottiñ slo, hañs Folk fieck Hialp uñ sijder, Hond Guds ei stytteft þo, Hañ vill þig vernda og næra, veit þiña Hæra tal, Læt nu Satan sig stæra, soñ Guds Ord girnst ad læra, Erfd þijn ei bregdast skal.

## Uñ Guds Ord, og Christelega Trw, eiñ Lofsaungur, Ton. Eiñ Herra eg best ætti.

Herra Himiñs og Landa, heyr mig fyrir þiñ Son, Gief mier þiñ gooda Anda, gloandi Tru og Von, Uñ sætt Ord þitt so mætti, syngia og virda þad, sem kiemst med kroptugum hætti, klaart nu i margañ stad.

2. Ei lat oss aptur miss, Astsemdar Huggun þa, Synd vor þo orki þessa, þad kieñ oss riett ad siaa, af Adams megni eigi, erfdum þiñ Dyrdar Frid, Fyrst ad vier fognum Lygi, og folkum Maña Sid.

3. Ord þyn æsenleg standa, sem Esaias kvad, Verollv þo vilie þeim granda, vijst heñe tekst ei þad, Marger med Raade raungu, reitudu Lærdom þañ, orded hafa ad ongvu, alla þa Christur vañ.

4. Hlijf oss vid Heyptar Domi, Herra vor

Lijknar von, Lijt oss med Myskunsemi, minst a þiñ
sæta Son, Med Krossens Kvol og Dauda, kvitt-
adi oss Syndum af, ollum sem honum hlyda,
Heilla Saatt þijna gaf.

5. Þig eini Gud og þreñi, þess bidium aller vier,
Aukning gief oss i Truñi, ad stondunst fyrir þier,
væri so villdir hyggia, voru Riettlæti ad, mun þig
wr maata styggia, mællti Esaias þad.

6. Afstemdar Ordiñ dyru, O! Fadir minstu
þaug, Johañis i þridia eru, Pu elskadir Verolld
so, þiñ Hiartans Son hefur giefid, hver sem truer
a hañ, sa odlast eilijft Lijfid, alldrei fortapast kañ.

7. Eg skal eflaust trua, Ordum þijnum og Raad
So ei mege mier snua, Mañaña Sider og raad
Ad eg Verk nockur voni, Veg mier til Hialprædis,
Fyrir Hollde Hel þo skijne, hvad Mañ i Tito les.

8. Gud sier uñ allar Alfur, a Riettrwud Hiort-
un ein, Jeremias so sialfur, segir i fimtu Grein, æ-
tijd mig a þad reldi, er sa Grundvollur klaar, Sañ-
leiks vegi hia sneider, sa þessu moti staar.

9. Riett Christner eingvu kvijda, kuña vel stand-
ast giegn, Synd, Vijti, Diofli, Dauda, Drott-
iñ þeim veitir megn, þad skal hver Madur mer-
kia, i Mootgang og sijdustu Kvol, Samvitsku sij-
na ad styrkia, so erum vier bwner vel.

10. Hver a hañ ecki trudi, er nu Fordæmdur
vi ist, Raad Guds fra honum flwdi, frelsa hañ
Verkiñ sijst, Godverk eru þaug alleina, audsynir
Truen klaar, sem Christnum so vill þiena, sem i
Mattheo staar.

11. Myskun

11. Myskun Drottins vardveiti, veyk a Mēñ Jordu a, so þa ei Piꝏning þreyti, þyrmi og verndi þa, So Byrdi Guds bera kyñi, bila þeir skiott vid Heim, sem kieña Christ med muñe, kallt er þo Hiartad þeim.

12. Christna eg eins ꝏmiñi, ad ꝏkalla Drottiñ vorn, ad giefi med Giæsku siñi, godra Valldsmaña stiorn, sem ad Guds Ordi giæti, og giarnan hlijfi þvi, af Milldi Guds so mæti, meiri Sæmd Heimi i.

13. Pier sem sitied i Volldum, Saklaust ei dæmid Blood, ad mætid ei Myrkra Giolldum, miøg heitri Vijtis Glood, Hefndar dom hædsti giefur, halldid þad ecki Spie Andreas Grwber ort hefur, i sijnu Fangelse.

## Eiñ Lofsøngur uñ Guds Ord og Truna,
### Ma syngia so sem, Natturan øll og Edli Maňs.

Þack Herra þeim þad veitti mier, þangad til lifa nꝏdi, Ord haňs uñ Heim wt komid er, af þvi fæ Heill og Gledi, So opinbert, er ollum giort, ad hver a Jesum Christum, hier hefur nu, af Hiarta Tru, hreiñ er af ollum Lostum.

2. Eg beidi þig, ad rietta Tru, af Nꝏd vilier mier veita, ei forlꝏt mig mier hialpa þu, minst þiña Fyrerheita, þu bydur sætt, þvi er ohætt, þiñar Nꝏdar ad leita, Knye þier a, opnast skal þa, Ei vil eg Syndugum neyta.

3. Medan a Jord mier endist Tof, mijnum Gudi skal trua, Mitt Traust haňs Ord og Andargiof,

argiørf, alldrei mun fra mier snua, So fylger hañ, ei falla kañ fra Lijfgiafara mijnum, Hañ er mitt Traust, hefur mig leyst, Hialpar so ellum sijnum.

4. Þig Herra miñ af Hiarta bid, hvad lengi sem skal lifa, ad Lærdom þiñ og Anda med, ætijd vilier mier giefa, a allañ hætt, so Satans Mætt, sigri og nidur brioti, Ef Ordid þitt, er Fylgid mitt, Ovin stendst þar ei moti.

5. Hvad stodar oss, Eign, Skart og Valld, ann Guds Orda ad hallda, Mætt, Heidur; Gots og vijd Verolld, Velferd Sæælu ei gialda, Jesus Guds Son, þa sælu Von, med sijnu Bloodi veitt hefur, Oss kvittar þad, wr Kvala stad, Christs Arf og Fognud giefur.

6. Siñ Son gaf oss glotudum Lyd, Gud sialfur af Nææd siñi, Hañ doo a Kross, hia Fødur Frid, fieck oss allri Kristniñi, Allt Mañlegt Kyn, med Christi Pijn, keypti so Gud wr Voda, Sa Frelsareñ, fyrer auma Meñ, Flecklaus leid sæærañ Dauda.

7. J mijnum Saung eg um̃ þad bid, af Nææd vilier þeim veita, sem Vitska Raung, svo villir miog, vilia ei til þijn leita, fyrir Ordid þitt, ad fiñi riett, Fridar veg Sæælum sijnum, og fylgi þier, eñ fordi sier, Formi Antachrists og Pijnu.

8. Heims Gots og skart, Heidur og Snilld; hrapar og ei vid stendur, Eins dettur snart, Dygd Verk og Villd, sem dikta Maña hendur; Ei añad neitt, eñ Ordid þitt, æfinlega skal bliifa, hver tru a þeim, hefur i Heim, hañ skal an enda lifa.

# III.

# Um̃ Jdran og Yfirbot.

Psálmar og Loffsaungvar.

## Ein Bæn og Jaatning til Guds.

Med sijnum Ton.

AF þig alleina Jesu Christ, er mijn Von hier i Heimi, Hlijfd þijn giorir mig holpin̄ vijst, Hiastod an̄ari eg gleymi, Fra ondverdu var eingin̄ sa, og alldrei helldur fædast ma, sem kvittad faai mig Kvolum fra, Kalla eg þig aa, Hialp þin̄i laat mig Herra naa.

2. Mijn Synd er þung, og þo miøg morg, þreynger ad Hiarta mijnu, Frelsa mig vid þad Faar og Sorg, fyrir þin̄ Dauda og Pijnu, Vid sialfan̄ Fodur mig sattan̄ gior, sem fyrir mig ei þyrmdi þier, vid Synda Klyf þvi kvittur er, Christe hallt nu hier, lijkt sem þu virdtist losa mier.

3. Gief þu mier Jesu Grædari min̄, Gloandi Tru og hreina, So ad eg Naad og Sætleik þin̄ san̄liga mætti reina, Øllu framar ad elska þig, og Naaungan̄ sem sialfan̄ mig, ad Fram-for mijn sie fridsamlig, forda mier Heliar stig, laat Diofla Girnd ei gledia sig.

4. Heidur sie Gudi a Himna Tron, hædstum Fodur alls Gooda, Og Jesu Christ han̄s sæta Son, sem leisti oss fra Voda, Helgum Anda med sama Sid, sem ætijd veitir Christnum lid,

Ad Aſt og Tru oſſ auki vid, i þeſſa Heims tijd, ſijdar eilijfan̄ eignunſt Frid.

## Ein Jdrunar og Yferbootar Amiñing.
Med þad Lag. Guds Son kallar.

Hialpræðis Dag nu hver Man̄ ſier, og heppelig ur Tijmi er, San̄giarnir Men̄ þvi ſæti, æſt Giøf þeſſa vier oſkum vel, þvi ohacklætum kiemur Kvøl, ſijns Efnis ſierhver giæte.

2. A effſta Degi eaum von, aller ad lijta man̄ſins Son, þa dyrſtan̄ Dom vill greina, San̄liga fær þa ſierhver Man̄, ſin̄a Verkan̄a makleg Laun, Ord tom þad ætt ei meina.

3. Þad Trie, hvers Friofgun ſin̄ſt ei god, ſelle verdur ſtrax og lagt i Glood, ad bren̄i æ þar in̄i, Af øllum hüga þvi idraſt nu, Ord þijn og Lifnad betrir þu, ſo Sælin Fognud ſin̄i.

4. Hliota ei allir Himna viſt, ſem Herra Herra nefna Chriſt, nie i Guds Rijki koma, Helldur ſem giarnan giørdu þratt, Guds vilia af ſijnum meſta Mætt, honum til Heidurs og Sooma.

5. Skijni þitt Liooſid ſkiært og hreint, ſkal þad eingvum Man̄i leint, þijn Tru ſig þan̄ Veg lyſe, ad Verk þijn god fyrir ſioonum ſie, af ſon̄um Vilja lætin i tie, Gud Fødur ſo fleſtir prijſe.

6. Þa ſem i Trun̄i teingiaſt Chriſt, tæla kan̄ ei Holldlig Lyſt, þeſſ Vilia ad ſamſin̄a. J Andans Rædum ætijd gæ, illum girndum fra, ſier, ad ſlæ, eyda og yfir-vin̄a.

7. Lijkiaſt mættu ei Heimi hier, hver Diofuls Rijki

Forelldra siña, so i Olucku afgruñ hier, ecki steipe þaug sialsum sier, ef so ddan ecke viña.

11. Hiwunum eiñin iñgief þu, Alwdar hlijdni rijka, Hwsbændum þioni holl og tru, Hiartans i einfalldkika, so sem þaug viñi sialfum þier, somuleidis Hws Herrarner, elski þig eiñin lijka.

12. Laattu Heimilis Hoopiñ hvern, hier nu um Christindomiñ verda Heimilis Hws og Born hveria þu Dyrdar Liomeñ, elska kuñer og Einglarner, O! Drottiñ heyr hvers bidium vier, i Jesu Nafni, Amen.

# 44. Psalm.

## Bæn fyrir Vinum og Velgiørda mønnum. Ton: Sæler eru þeir aller nu.

O! Drottiñ Gud sem allskonar, wthellerGnægtum Blessunar, og ætijd aumum biargar, þu sem Velgiørder veiter mier, af Vina miña Hondum hier, bæde myklar og margar, Eg bid þig Gud ad aũast þa, audga styrkia og þeirra gæ, og veita Velferd alla, laattu þier þocknast þeirra Verk, þa leide sijdan Hond þijn sterk, Hiedan til Himna Halla.

2. Forelldrum giet eg alldrei hier, umbunad so sem verdugt er, uppfræding Ast og Giædi, þvi bid eg þig af Alud mest, allaũ Goda sem launar best, ad þu añest þaug bæde, vertu þeim eilijft Endurgialld, og einka Borgun fyrer mijna skulld, laat mig og eiñin kuña, af soñu Dæme Sonar

ár þijns, sijna þeim Velsemd eftis mijns, stoda akta og uña.

3. Eg befala þier eirn Vegiñ, oll mijn Systkyn og Vanda meñ Heilsu og Hage þeirra, giefdu þeim eilijft Erfda Fie, og þeir Brædur og Systur sie, Jesu vors hædsta herra, uñ þu ad hallda eitt med mier, i þijnu Naada rijki hier, Natturu nꜳnum ollum, gief mier hina med Glede ad siꜳ, sem Gud miñ leiddi Heime fra, lifande i Hiinna hollum

4. Slijks ꜳrna eg af Allwd eñ, ollum Velgiordꜳ vinum señ, sem mier til gooda giora, Natturan miñer mig a þad, mier skuli vera ahugad, uñ Velferd Andar þeirra, J þijna Tialldbud taktu þa, trufaste Drottiñ Himnum a, þu sem þvi heited hefur, ad lꜳta ei olaunadañ, eirn Vatns Bikar sem nockur Mañ, þeim hinum þyrsta giefur.

5. Hvad myked framar muntu þa, margfallda Umbun hinum tia, sem af orlætis Hende, allskonar lꜳta leida af sier, Lijnkynd og storar Velgiorder, þeim sem eru þurfande, O! Drottiñ lꜳttu sierhvort siñ, sijfelldañ Naadar straumiñ þiñ, fossa yfer þa alla, sem ad Velsemda reñslu tiett, rijflega hafa lꜳted sliett, yfer miog marga falla.

6. Spretti þeim ætijd upp hia þier, alls hꜳttar Giæsku straumarner, er til añara Maña, lꜳta wtfliota lꜳngt og vijdt, Læke allmarga opt og tijdt, Velveittra Velgiordaña, alla sem Aude ofpart sꜳ, æfenlig Giæde lꜳttu þa, i adra Hond iñtaka, vertu þeim eilijf Andar hlijf, er giarnan sedia Hungrad Lijf, og Lꜳt ei uppa saka.

 7. Lꜳttu

7. Læittu þeim mykiñ mælast iñ, Myskunar verka Avoxtiñ, þo ad hitt hverra megi, er þeir af taka Aulmusur, Audur sa er viist stundlegur, eñ ofallvalltur eigi, þeim sem ad giefa, gief þeim þu, Giæde Himnesk og stundleg nu, alls hins gooda Giafare, hier sie Lof Dyrd og Packargiørd, þu sem skapader Himiñ og Jord hvør ad um Eilijfd vare, Amen.

## 45. Psalm.

### Bæn fyrir vorum Ovinum og Offoknar moñum, Med sama Ton.

O! Herra Jesu Himnum a, sem hefur sett ost Reglu þa, ad elska Ovine vora, Offoknar moñum eiñeigin, og þeim oss hata nockurt siñ, øllum þessum gott giera, eg oska þeim og ærna goods, og bid saker þijns Nærdar Bloods, uñ Hræring heilags Anda, ad Kvittun mijn og Bænin best, ad bidia þeim Saalar heilla mest, mætte Hiarta hreint standa.

2. Hvestu ecki þitt Hefnda Sverd, hardlega møte þeirre giørd, Smyr þeirra Høfud helldur, Nærdar Velgiørda Vidsmiøre, vel svo ad i þeim wißlokne, Hiartaña Heyptar Elldur, ad hañ ei blaaseft upp so ad, Eilijft Kvalabæl verde þad, gief þeim þess giætur hafa, ad þeirra Lijf ei añad er, eñ sem stugge sa burtu fer, Reikur, Gustur og Gusa.

3. Og ad þeir giæte ad þvi viist, Ogudlegt Hatur somer sijst, Daudlegu Hreyse hafa, eda ad Saal

ar

ar Ovin ſiñ, i Beykt Herberge taka iñ, ſem er allt Holld aan efa, hvers eins argaſte Ovinur, er ſialfs hans forne Fiandſkapur, ſem Saal myrder og meyder, orſneidande ſo aumañ Mañ, ollu good du ſem verda kañ, i eilijft Baal iñleder.

4. Laat þa lijta ſem optaſt iñ, i Giæſku Naad- ar ſpeigel þiñ, ſo þar af þeckia kuñe, hvad hætte- legur Hlutur ſie, Heipt og oſvarleg Laangrækne, og aflaate Illſku ſiñe, O! Drottiñ Gud mier uñ og kieñ, ad hafa Frid vid alla Meñ, og ſnu Ovin- um mijnum, til Samlindis og Einingar, ſo alls goods verde Samarfar, med bleſſudum Born- um þijnum.

5. Laat oſſ ecke i Heime hier, hafa iñbyrdis van- ſætter, ſem a hædum Himnaña, væntum oſſ ſomu Sambwdar, ſama Drottni þionande þar, hvad oſſ ſkal Hatur baña, Eiñ Lijkame nu erum vier, under þvi Hofdi Gud ſem er, af þvi Einingar Bande, i ſomu Skijrn og ſomu Tru, ſami Ande oſſ ſtiorne nu, ſamhuga ſamlifande.

6. Eg bid þig Drottiñ Allsheriar, Opſoknar moñum Chriſtniñar, uñvender elrnin lijka, þeirra Bloodgyrugt Aform allt, onytt gior þu og aptur hallt, kieñ þeim riettañ Veg vijkia, Sañleiks Liomi og Lioſid biart, lyſe ſo þeim i Augu ſkarpt, ad þau vel opnaſt kuñi, ſo i þeim ſtilleſt Illſka ſu, aflaatande uñ ſijder nu, æde og ofſokn ſiñe.

7. Syndu þeim ſialfur ſaña Raun, ad ſoddañ ſtodar þa ecki Baun, ogagn ſtort er þeim þetta, Broddunum ef þeir Bakſpirnaſt, bræadlega munu

fordiarfast, og wr þeim alldrei rietta, Ulfaarimd er þeim allra siist, eptir ad breita, þar þeir viist, vita þad vissele ga, ad Jesu Blood þad wthellt er, yfir oss alla Christna hier, osþart þo alla vega.

8. Pvi munu þeir so þyrster þa, þessu saklausu Bloodi nær, og þvi unum wthella, fyrir hvort ædur wthellt var, edla Blood Jesu Gudssonar, þad vita þeir þo giorla, O! Drottiñ snu þeim aumum Lyd, a rietta leid, so Nærdar tijd, megi þeim Farsæl falla, ad Avöxt siñar Jdrunar, odlest þeir nu og sijdan þar, hia þier uñ Eilijfd alla, Amen.

# 46. Psalm.

## Bæn fyrir Motgangs Mønum.

Ton: O! Jesu Ønd mijn leytar.

Herra i Heidre soñum, Heillen vor Lijf og Traust, sem øllum Motgangs Møñum, Myskunar ærna baust, eg bid þig, þreytta og þiæda, þu viliер styrkia mest, hugga hressa og næda, hiukrande eirna best.

2. Himnesku Krapti klærum, klæd þa og viñ þeim Boot, er Pijlum Satans særum, svitnandi stijma mot, O! þu allra sterkaste, Andskotans Sigrariñ, Diofuls illu adkaste, afvende Sigur þiñ.

3. Lææt ei Satan þa svikia, svali þeim Nærd þijn ny, hverra Bein þornud þykia, Pianinga Ellde i, reystu þa fliott sem falla, Fæære og Slisum ver, Lijkamans Anaud alla, Andlega Lækning gior.

4. Kieñ þeim þad sia og saña, Gott og Kraankdœmi Mañs, sie fylgiare Syndaña, sem og Bodi Daudans, Gief þu þeim Polinmœdi, þar med og sterka Tru, Lijkams og Anda bœde, einka Lœkner ertu.

5. Laattu þa fœa og fiña, fyrra Krapt Heilsuñar, þo so framt þad kañ viña, Pienlegheit Velferdar, styrk þu þungadar Kviñur, þiaadar i Sorg og Swt þu eirn þad orka viñur, ad leida Fostred wt.

6. O! Jesu jafnan vertu, Joodsiukum Kviñum nær, og hyrre Hiukrun snertu, Hondiñ þijn leysi þær, so ad ofþiaaest eigi, i Tymd og Hormung sijn, ad fiølga Mañkyn megi, Milldur Gud þad er þijn.

7. Fæd þu Fodurleysingia, foostrandi Børniñ señ, og þa sem Tymdir þvinga, Adstodar lausa Meñ, O! Fodurlausra Fadir, Forsvar Ecknaña best, gief þeir verdi verndader, Verølld sem myar mest.

8. Aumka þu Eckiur allar; Anaud þeirra er sœr, opt þeim af Augum falla, abaadar Kiñar Taar, gief ad þaug ganga kuñi, i giegnum Skyeñ, midt, og med Frelse fram reñe, fyrir Haasæti þitt.

9. Pa sem i Siafar voda, sialfañ þig hroopa aa, edur rata Brimboda, Bœnheyr þu Drottiñ þa, Faangudum Frelse veittu, Farraadum lijkna þu, so þeir Packlæti rieitu, þijna Naad prijse nu.

10. Laat þa stoduga standa, sterkur Drottiñ i hier, sem Ossokn allra Handa, i rata saklauser,

so ad þeir Sigri naae, siidan um̃ eilijf Ar, Coronu ferska faae fyrir siin Pijslar saar.

11. Øllum sem Eymder pijna, iñgief þu Polgiæde, so þeir eignest Saal siina, sañre i Gudrækni, og eftirfylgi hellst hønum, hier nu i Kross burde, sem ad þa svipte meinum, og sialfur doo a Krosstrie.

12. Og nu eñ um̃ fram̃ þetta, allra hellst fel eg þier, i Hond og Hiukun rietta, Hiartans Elsku Fader, þa sem hijma hardkreptir, Helporta vid Dyrnar, midt i milli tæpt tepter, Tijmans og Eilijfdar.

13. Þa sem i Strijde standa, Stijmande vid Daudañ, giefdu þeim Afl og Anda, Ovin ad sigra þañ, Daudans sañi Sigrare, siertu þeim Adstod bein, so þeim ei fyrir fare, Freystingar Bylgia nein.

14. Helldur med Fridi fare, i Føđurland heim til þijn, O! Gud allra Skapare, øllum oss Myskun syn, Eilijfur Allsvalldande, eirn og þreñur ert þu, Æra og Lof þitt stande, Æfenlega og nu, AMEN.



Siøttt

# Siötti Partur þessarar Psalma Bookar, hefur inn ad hallda, Lofsaungva, Bænir og Þackargiordir, a Kvølld og Morgna, So og fyrir Maaltijd og eptir.

## Morgun Psalmur.

Med Ton: Dagur og Lios þu Drottinn.

Dagur rennur og syner sig, sæti Fadir vier lofum þig, Milldri Naad þinne þøckum vier, þessa Noott vel oss vardveitter.

2. Vier erum hier ei Heima Menn, Herra i Dag þig bidium enn. Leid oss hialpa og vernda vel, vid Lijfs og Andar Eymd og Kvøl.

3. Stiorna þu oss med styrkri Hønd; so Verk þijn i oss verdi kiend, Og Nafn þitt heilagt i oss sie, auglyst med Truar Athæfe.

4. So Andenn hafi Yfirvalld, Age, beygie, og side Holld, Ad þad alldrei med Ofurdaad, upphefie sig nie hafe Raad.

5. Drottinn laat hann ei deyfa Kvøl, Dyrfd og Girnd Holldsins briota vel, Svo Sællijfis ei locki þad, liotar Synder ad hafast ad.

6. Veit þu oss i Dag Klædi og Kost, kvelia laat oss ei Sveingd nie Frost, þijn Gudleg Blessan giefe oss biorg, Gagnlaust er allt vort vijl og Sorg.

7. Vernda þu øll vor Verk og Størf, so verda megi

megi holl og Þorf, Fyrir Jesum þiñ sæta Son, sem sætti oss med siñe Bon.

Fødur Syne og Anda sie, ædst Lof, ect.

## Kvølld Psalmur. Med siinum Ton.

Dagur og Lios þu Drottiñ ert, dímit og huled allt er þier bert, Þu Guds Fødurs liomanda Lios, liosañ Sañleika kieñer oss.

2. Þig bidium Herra heilage, hliif oss a Nottu þessare, lattu oss hafa Hvijld i þier, hæga Nott eiñin þyggium vier.

3. Svefn Orar falle oss ei a, Andskotans Vielum leys oss fra, Ad Svik hans ei samþycke Holld, So af þier komi a oss Giølld.

4. Þo Augun take Svefn til siin, samt lat vor Hiertu vaka til þiin, Almattug Hønd þijn þyrme nu, Þionum sem elska þig med Tru.

5. Sia oss Jesu vor Heill og Hliif, hept þeim sem svikia Aund og Liif, kom nu til Hialpar Christeñe Þiod, sem kvittade þitt blessad Blod.

6. Milldaste Jesu minstu vor, mørg er Neyd Hollds ins þung og stoor, Þu ert alleina Andarvørn, æ tijd vardveit þu oss þijn Børn.

7. Gudi Fødur sie sungen Dyrd, Syne hans Jesu Þackargiørd, og helgum Anda sem Huggar eiñ, A Heidre þeim sie ei Ender neiñ.

## Morgun Psalmur.

Med Ton. Christs er koma fyrir Høndum.

Þier Drottiñ eg þacker giøre, þu hefur mijn vel giætt, vid Ogn og ølla Fære, uñ þessa lidna Natt,

Naatt, Eg laa med Myrkre fanginn, mykel var neydin su, nu er eg þar wtgenginn, Gud minn þad veitter þu.

2. Minn Gud og Hialpar Herra, af Hiarta eg þacka þier, þitt Valld er ollu stærra, i Dag vernd veittu mier, Eg treyste Ordum þijnum, af þvi umm Hialp eg bid, varnadu Vilia mijnum, og vijsa mier a þinn Sid.

3. Ad eg alldreie vijke, af þijnum Sannleiks veg og Satan mig ei svijke, so villast mætte eg, Hlijfd þijn og Naad mier hallde, Herra þesß beide eg þig, vid Vielum hans og Valde sem vilia bleckia mig.

4. A Jesum Son þinn sæta, send mier þa riettu Tru, Laat mig minn Lifnad bæta, Lostu vid skiliast nu, Aull Fyrerheit þijn ender, svo eckert bregdast kann, Son þinn bar mijnar Synder, Saal mijna leyste hann.

5. Eg bid þig von mier veita, sem verdur alldrei þreitt, og Hiartans Elsku heita, Hatur kunnande ei neitt, Ovinum gott ad giøre, Girnd mijn ei verde fylld, ast veite eins og mier kiøre allt epter þinne villd.

6. Laat mig þinn Lærdom jaata, lioft fyrir illum Heim, þinn Pion jafnan hier heita, hrædast ei Valld nie Seim, Vid þijna Kienning klara, kunne ei mig skilia neinn, Med Christinna Manna skara, veit mier ad verda einn.

7. Eg skal Dagenn so enda, ætijd þier syngia Lof, Forda mier fra þier venda, Frammfor mier

millda

millda gief, Ønd, Heidur, Eign og Lijfid, og Avoxt vernda vel, allt hvad hefur mier giefid, i Hendur eg þijnar fel.

8. Lof þier Guds Son eg ſegi, ſæta mier aſt og Naad, hefur a hverium Degi, af þiñi Myſkun tiaad, Þitt Nafn vil eg vegſama, Vernd þijn er trauſt og good, mig ſedur med Lijkama, miñ Dryckur er þitt Blood.

9. Lof Dyrd og hædſti Heidur, Herra þier allrei dvijn, hver ſtendſt ef ertu reidur? Oſſ hlijfe Bleſſan þijn, ſo hver i Fridi liſi, ſiert þu oſſ Drottiñ hia, helg Truarvopn oſſ hlijfi, Helpt Dioſuls allri fra, Amen.

## Kvølld Pſalmur. Med ſijnum Ton.

Christe þu klaari Dagur ert, kañ fyrir þier hyliaſt eckert, Af Fødur komſtu lifandi Lios, og Liosſins Kieñing færdir oſſ.

2. O! Gud vor Fader geym oſſ þraatt, vid grimum Ovin um þeſſa Naatt, Oſſ lættu Hvijlder i þier fa, Andſkotans Vielum leys oſſ fra.

3. Eñ þo ſofi vor Augu hier, ævallt vort Hiarta vaki i þier, Hallt yfer oſſ þiñi hægri Hond, ſo hrøpum vier ei i Skom og Synd.

4. Jeſu þig bidium allir vier, ad Dioſuls ſvik ei grandi oſſ hier, ſem ſitur um vorri Saalu ad naa, ſvipt oſſ hans illu Valldi fra.

5. Vier erum Christe þijn Erfdin good, tvtvegader fyrir þitt BleſſadBlood, Eilijft Guds Naad

þvi

þvi oss þig gaf, ad skylldum vier Syndum leysast af.

6. Englum heilegum umbiood þad, Eign þinne Gud þeir giæti ad, Vaki yfir oss vernda su, verda mun oss þa Hvijldin trw.

7. J Nafni Jesu nu sofum vier; nærri sie oss þinn Engill hier, Heilagri Preñing sem Hlijfd oss gaf, hver Madur jafnan syngi Lof.

## Morgun Psalmur.

Med Ton. Drottinn a þier er oll mijn von.

Klaar Dagur og Lios nu kominn er, Kiæri Fadir þig bidium vier, Geym oss i Dag vor Verndar Mann, fra voda sem oss skada kann.

2. Still vora Tungu, ad ei styggest þu, Styrir Himna, og varðveit nu, Augun vor allra einin med, so eckert fææi þau fæænytt sied.

3. Vor Hiortu gior þu og Hugskot hrein, so hverfe af þeim oll Synda Mein, Ofneitsla tak þu oss einin fra, og alla Girnd sem oss skada mææ.

4. Nær Dagur þessi nu lijdur hier, og Nætur Tijminn kominn er, Ad vier allir þier þockum þa, Þu sem oss geymdir illu fra.

5. Sætt Lof sie Fodurnum sialfum tied, hans Syni og Helgum Anda med, sem helldur yfer oss Hlijfdar vord, honum sie eilijf Packargiord.

## Kvolld Psalmur, med sama Ton.

Einn Gud Skapari allra sa, alls Himens Rad

og Jardar a, Dagiñ skrijdandi med Dyrsta Lios, Diñ Nott ad skylldi svæfa oss.

2. Afbyast mætti Lijfid þreitt, Lengur ei sie til Viñu neytt, Hugraun liñi og gledieſt gied, Graatur og Harmur hverfi med.

3. Umlidnum Degi allir vier, af Hiarta syngiandi þockum þier, Byriandi Nott þig bidium nu, Biarga oss sem þier hietum Trw.

4. Þig heidri Hiartans Pelid allt, Þig lofi Rodd og Mælid sniallt, Þig Ast vor jafnan elski eiñ, Þig ækalli vor Andiñ hreiñ.

5. Diupt þo nidri, hin dockva Naatt, Dags Liosid fra oss byrgi braatt. Sortni alldrei hin sælá Tru, satt Lios Lyd Christnum liomi nu.

6. Saal verdi ei af Svefni mood, sosi fra Loftum Christin Piod, Ad Truan hreinlijsañ halldi Sid, Hoofsemdar æ mun þurfa vid.

7. Sofendra Briosti Bygg þu i, ad Blecking Hollds ei grandi þvi, nie Ovinarins illa Villo, ad sokn framkomi og hindri Hvijld.

8. Christ og Fodur vier kollum a, Christs og Fodurs þar Andañ hia, Eining Heilog og Preñing þu, þijnum Lyd Christnum lijkna nu.

## Morgun Psalmur, med sama Ton.

Liosañ Dagiñ nu lijta mæ, Lifanda Gud vier kollum a, i voru Starfi virdist sa, Voda ollum oss frelsa fra.

2. Styri Tungu a helgañ Hætt, ad Heyptar Kijf

Kijf ei sville Saatt, Giæti sionar og giefi Maatt; Glisi Heimsins ad hafna prææt.

3. Hrein verdi jafnan Hiartans Root, hverfi Omeinska leid og liot, Fylli og Sælld ad falla i mot, a Forsi Hollds mun viña Bot.

4. Ad þa Daguriñ hættir hier, og hefst Nottin sem eptir fer, Soñum Gudi Lof syngium vier, Sidadir vel sem skylldugt er.

5. Heilagi Andi er til saňs, eitt med Fødur og Syni hans, virdist þo byggia Briostid Maňs; Blessadur komi til þessa Raňs.

6. Muňur og Tunga, Siňid, Saal, samhliodi æ vid Gudligt Maal, kiærleiki logie, kolni taal, Kveiki Nææunga soddan Baal.

7. Pu saňi Gud og Drottiň dyr, Dasamliga er Skiepnum snyr, med fogrum Lioma Morgun byr, Middagur er og eiňin hlyr.

8. Med Sundurlyndum set þu Grid, svipt af ohreiňar Elsku sid, Lijkømum halltu Heilsu vid., Hiortunum gief þiň Andar Frid.

9. Volldugi Fader fullgior þad, fyrir þijns Sonar Jesu Nææd, med Helgum Anda a Himni og Laad, hafandi med þier eilijft Raad.

## Bænar Lofsaungur a Kvølld.

Med Ton. Eiň Gud Skapari allra sa.

Nu hefst Noottin og hylur Dag, hver Maň skilst vid sitt Viňulag, Gud laati oss vel ganga þad, ad giæti vor med siňi Naad.

2. Af Noott og Mykri Ogn og Faar, Almeňi-

liga

liga jafnan ſtaar, Son Guds vak þu og ſtaa vorn Hag, ſu Vernd nægir oſſ Nott ſem Dag.

3. Leys oſſ alla af Loſt og Synd, til Leidriettingar veit oſſ Stund, Gief oſſ Vitſku ad gaungum vier, grandvarliga ſo lijki þier.

4. Forda þu Hvijlu Fleckun vid, fylgia laat þu oſſ hreinum Sid, bañа ad ſpilli vorri Værd, vondir Draumar og Dioſuls Flærd.

5. Hvers ſem nu framar bidia ber, Brædrum Chriſtnum og ſialfum mier. Lijkñſami Gud þu lijt þar a, og laat yſſ þijna Myſkun faa.

6. Fodur, Syni og Anda ſie, ædſt Lof, Dyrd, Heidur eilijfe, Sem i Upphafi er og nu, æſinliga ſie Virding ſu, Amen.

## Morgun Pſalmur.

Med Lag. Chriſte þu klari Dagur ert.

Standid upp Chriſti Bornin blijd, byrtir ſig Morgun Stiarnan frijd, Lyſtiligaſta Lios hun er, Lioma um̃ allañ Heimiñ ber.

2. Klaar Morgun ſtiarna kom þu ſæl, Chriſt vorn Herra oſſ boda ſkal, Grædari vor er Guds Son kiær, giarnan þig af þvi loſum vær.

3. Af þeirri Stiornu þier mijn Born, þeckid Chriſt Jeſum Herra vorn, Milldaſti er þad Mariu Son, med ſijnu Ordi giefur oſſ Sion.

4. Morguñſtiarna Guds Ord þu ert, alldrei vilium oſſ horfin ſiert, ætijd vertu vort Andar Lios, allegar faanga Myrkrin oſſ.

5. Med Lioma þijnum lys oſſ hier, Lauſnara vorn

vorn so þeckium vier, Mynka þu i oss Myrkra Volld, so megi Elskan ei verda kolld.

6. Velkomiñ siertu Dagur dyr, diñ Noott fyrer þier burtu flyr, hveiñ Lioma oss i Hiartad iñ, Himneski jafnan Geysli þiñ.

7. A þig vier trwum Jesu Christ, med Blodi þijnu hefur oss leyst, Til Heimsins Enda oss siert hia, Arf Himnarijkis laat oss faa.

8. JEsus þu ert vor saña Sool, sa þier trwir fær eilijft Skiool, Arfa liest Sælu eilijfrar, allrt Christni sem bwin var.

9. Hædst Lof og Pock af Hug og Raust, Hier stundligt, sijdar endalaust, fyrir Naad Myskun og Fulltijnge, Fodur, Syni og Anda sie, Amen.

## Kvølld Psalmur, med sijnum Ton.

Eptir Guds Villia gengur þad, su gooda Noott oss lijdur ad, þvi Dagur þessi þrotiñ er, þad Myrkur og Svefn nu eptir fer.

2. Undandraatt allañ af skal slaa, og þacka þessañ Dag sem maa, Gud hefur vor giœtt med Giœsku maatt, Goodliga og er þvi Hiartad kaatt.

3. Þar liggur oss mest Magtiñ a, milldañ Gud bidium hia oss staa, ad Andskotans Ognir eingvar skioott, yfir oss komi þessa Noot.

4 Þig bidium vier med þeirri Tru, þvi ad Fadir vor sañur ert þu, Gior eptir þiñi goodri Lund, geim oss uñ þessa Naattarstund.

5. Lof, Æra sie Fodurnum søgd og tied, lijka

 hañs

hans Syni Jesu med, Þeim Helga Anda heidur sa, ad hverge finist Endir a.

## Ein Psalmur a Morgna.

Med Lag. Dagur og Lioos þu Drottin.

Biartur Dagur nu byriar hier, Brædur þacklaatir verum vier, Milldum Gudi hvers Myskun stoor, miøg vel þessa Noott giætti vor.

2. Lofum og dyrckum aller nu, ein Gud med Muni, Hug og Tru, ad virdist med volldugri Hond, vernda i Dag vort Lijf og Ond.

3. O! Gud vor Fadir eilijfi, sem af þini Myskunseini, Med hiastod, Krapti og helgum maatt, hefur oss geymt um þessa Noatt.

4. So hlijf oss i Dag Herra min, hialpa oss fyrir Sonin þin, Laat ei svijkia oss Satans taal, sem sækir eptir vorri Saal.

5. Veittu oss Drottin Vernd og Hlijf, Vardhalld siert oss a hverri Tijd, Kongur, Skiol, Stiorn, og sterka Vorn, styd og leid oss þijn aumu Born.

6. O! Gud þier giefum oss i Foorn, ad þu Verk Maal og Huga vorn, J Lærdom þijnum leidir hier, Lifnadur vor so þocknist þier.

7. Medtak þa Foorn og Morgun bon, milldi Fadir fyrir þin Son, ad vier so þyggium þijna Giof, þier syngium Packir Dyrd og Lof.

## Kvølld Psalmurin, med sijnum Ton.

Jesu Frelsari Folks a Jord, Fodursins hædsta eilijst Ord, Lioos þess Lioosins sem eingin sier, Svefnlaus Hirdir þeim treysta þier. 2. Þu

2. Pu sem Skapari allra ert, Adgreining Tijma hefur giort, Mañs Holldid Daglig mæda lyr, med Nætur Hvijld þvi Næring byr.

3. Holld vort lijdur nu Hrygd og Kvøl, Hier vist Mañlig er lijtil Dvøl, Sofni Lijkamiñ sætt med Frid, Saalin i Christo vakni vid.

4. Med audmykt bidium allir nu, ad oss fra Ovin Frelsir þu, so komist ei ad Christiñi Piod, sem kvittadi þitt blessad Blood.

5. Herrañ Jesum vier heidrum eiñ, Hialpare vor er ei añar neiñ, Hañ gaf oss Lijf og leysti Qnd, Lof sie honum a hverri Stund.

## Barna Morgun Bæn af Catechismo Lutheri. Ton. Dagur og Lios þu.

Gud miñ Fadir eg þacka þier, þiñ Son Jesum ad gafstu mier, Lijf mitt og Saal um lidna Noott, leystir fra Voda Eymd og Sott.

2. Þig bid eg og um þeñañ Dag, þyrm mier med Naad og siaa miñ Hag, So Olucka og Illska ei nein, a mig falli nie giori mein.

3. Fra øllum Syndum forda mier, Fylgd þijn blessud mig leidi hier, so oll mijn Hegdan þocknist þier, þig ottist eiñ sem skylldugt er.

4. Eg fel i þijna helgu Hond, Holld mitt, sæmd Vine Eign og Ond, Eingill þiñ sie mier ætijd hia, Andskotañ læt ei til mijn na.

## Kvølld Søngur af Catechismo. Med sama Lag.

Gud minn Fadir eg packa þier, þinn Son Jesum ad gafstu mier, Umlidinn Dag min lystir vel, fra Lijfs og Andar Eymd og Kvol.

2. Eg bid þig, ad Forlaatir mier, allar Syndir og Misgiorder, sem moti þier, a allann veg, i Dag rangliga giordi eg.

3. Þijna Mykun eg þar med bid, þessa Noott veit mier Vernd og Lid. J Svefni og Voku veit mier Frid, voda og Ogn mig skilier vid.

4. Eg fel i þijna helgu Hond, Holld mitt samd Vini, Egn og Ond, Engill þinn sie mier ætijd hia, Andskotann laat ei til mijn na.

## Einn Morgun Psalmur, snwinn wr Donsku. Med sijnum Ton.

Dagur i Austri ollum, upprennandi nu skijn, Gud minn fra Glæpa follum, oss geymi og Diofuls pijn, So Lijf Giorvallt framgangi, ad Giedi og þinn Villd, enn illu ei a hangi, oss efli Naad þijn milld.

2. Þier vil eg þijdi Fadir, Packir og Lofgiord tiaa, þu veittir i Noott mier Naadir, og Nauns dum svipter fra, hefur a hverri stundu, Hialp og Naad mier audsynd, Meinin Diofullsins mund du, mier elligar hafa tijndt.

3. Framar eg bid med Blijdu, þig blessud Vonin mijn, Vernda fra Vesolld og Strijdu, ad veniu Bornin þijn, skyl oss undir Skugga, Skaparinn Vængia þier, sem Hænan Unga huggar, hofum vier Traust a þier.

4. Hritt burtu Heipt og Brædi, og Heimsku i Dag fra mier, so i Stilling stiorna nædi, ad Starf mitt lijki þier, og Hiartad Heilags Anda, hæleit verdi Bygd, Laat mig stødugañ standa, i Strijdi og allri Hrygd.

5. Mig hept fra Hollosins Girndum, so Hiartad ei festist a, Heimsins Bloma blindum, og bleckist þier i fra, Pitt Riettlæti virdst mier veita, vidhallt i Truñi mier, so eg ødlist Idran heita, i Anda og Lijkn hia þier.

6. Leidina syn mier saña, i Sorgardalnum hier, Dioflinum bæg og baña, þijn blessud Ord gief mier, med allri Tru ad treysta, tia og hallda þig, fyrir hañ sem Piod hefur leysta, þar til þu styrk þu mig.

7. Ad sijdst mig svikia megi, su Satans vonda Flærd, nie fra Truñi tegi, med Tæli og Maña Slægd, Laat mig þig eiñ akalla, i Anda og Sañleik best, og alldrei fra þier falla, fyrir nockurn Kiærleiks brest.

8. Ad elska Æru þijna, Embætti ad stunda mitt, Herrum Hylli ad syna, sem helldur Bodord þitt, Giefmier þess ad giæta, og Gagnsemd øllum tiær, Voludum Biorg ad bæta, med Blessun þad eg mæ.

9. Dyrd þijn alldreie dvijni, Drottiñ Gud Fader hia mier, þijns Sonar skiært Lof skyni, skylldañ þad krefur og ber, Hier med heilogum Anda, hæleit Tign sie veitt, mig fyrr þu Feari og Vanda, og Frida um sijdir greitt.

10. Gief ad ei kolni Christnum, Kiærleiksins Hitiñ hreiñ, ad vier i Trwñi ei visnum, vernda þu hvern og eiñ, So i Gudspialls Liosi giætum, þier Gudi Packir tied, og i Sonar þijns Fadmi sætum, sijdan ad hvijlast med.

## Bænar Lofsaungur a Kvølld.

Med Lag: Dagur og Lios þu Drott.

Soolar Lios nu fer burtu brαtt, byriar þvi aptur dymma Nαtt, Eilijfi Gud vort Andar Lios, æsinliga þu siert hia oss.

2. Þu ert vor Heill og Vonin sterk, verndar og blessar oll þijn Verk, Ef þu veitir oss ecki Hlijf, eingiñ kañ stoda Saal nie Lijf.

3. Ovini hofu'n marga miøg, Mein taka oss a allañ veg, Siert þu ossei i Svefni hia, Svik og Heipt þeirra reinum þa.

4. Oss og allt vort þier Offrum vær, ad þier tak oss nu Fadir kiær. So Ovin giori oss ecki Tion, añars hofum ei Hialpar von.

5. Blessa oss fyrir Jesum Christ, añars dugir vor Viña sijst, Hia þier faai oss sijnum Sαtt, so ad Morgni þig heidrum hαtt.

6. Þessa Kvølld-Forn þier færum nu, Fader vor Herra þyggir þu, Fyrir Christum þiñ kiæra Son, kvittandi oss med siñi Von.

## Ein gømul Christeleg Dagvijsa, eptir Donskuñi wtlogd, med sijnum Ton.

Þañ Signada Dag vier siaum nu eiñ, og Solar Geyslañ frijda, Gud lysi oss øllum alltijd hreiñ

hreiñ, so ad aukist Gledi og Blijda, Drottiñ lati i Dag ei neiñ, detta i Skom̃ Lost mie kvijda.

2. Pañ signada Dag, þa signudu Tijd, sem fæddist vor Herra mæti, kom ofan þad Lios og Leiptran frijd, sem liomar um̃ Veralldar Stræti, þessi hin fagra Birtan blijd, er Braut i eillift Sæti.

3. Gud Fadir, Guds Son, Gud heilagur Andi, geymi med Englum sijnum, oss i Dag fra døpru Grandi, Diofulsins Neti og Pijnum, fyrir hañs Øfundar Illsku blandi, vora Ønd og Lijf fra Meinum.

4. Kvol vors Herra og Krossins Pijn, sem keypti oss fra Dauda, set eg i Dag millum Diofla og mijn, hañs dreyra Fossiñ rauda. Pad blessada a mier Bloodid hrijn, sem Botin er miña Nauda.

5. Po Grøs og Lauf sem grænu Trie, Griotid og Sandar allir, mæla kyñi ef mætti skie, med Engla Røddu sniallir, Losid nog alldrei laxta i tie, um̃ Lausnara vorn med spialli.

6. Dagur so længur alldrei er, ad ei med Kvellde lendi, Daudiñ Lijfid dregur med sier, dapur i burt wr Hendi, vier skulum wt, eñ Grøfin er giør, þar giefst ei añar Endi.

7. Gud giefe þad, so þionum vier, i þessari Verolld iñi, Ad Guds Son med Truñi taki hver, so traustliga Myskun siñi, Pa Heimuriñ fra oss hallar sier, Hialp vor alldreie liñi.

8. Nær forum vjer i vort Fodurland, og wr

Færinu skulum venda, gief eg mijna Saalu Gudi i Hand, i Gledi Himerijkis senda, Gud Fadir, Guds Son, Gud heilagur Andi, Gief oss godañ Lijfs Enda, Amen.

## Kvølld Psalmur.

Tón. Ad Diwpri Hrygd, ackalla.

I Svefni og Vøku sañliga vier, sialfum Gudi tilheyrum, Hvert oss Dauda eda Lijf þu lier, leitum ei Hialpar af fleirum, Vier þockum þier fyrir Jesum Christ, þu hefur oss geymt i Dag eñ vijst, af Milldi og Myskun þiñi.

2. Fra Skoñ Hneysu og Hreckia nægd, og hvad sem oss kañ pijna, af Pwkans Vielum og Pretta Slægd, hañ plagar sem Lion ad hrijna, leitar ad þeim sem limskur hañ, med Lijfi og Saalu gleipa kañ, olmur med Illsku sijna.

3. Med Saaleysi fromdum giørvallt þad, er giarnast skylldum idia, ad sæma þitt Nafn i sierhvern stad, sijst villdum Naungañ stidia, Vor Veyleiki þvi velldur mest, vier høfum a ollu goodu brest, nema þijn Naad oss leidi.

4. Med swsu Hiarta Fadir af þier, Fyrergiefningar bidium, Glæpa þeirra ed giordum vier, so greidt i Dauda midium, nu er oss Vondskan næsta leid, Naad syn oss fyrir Jesu Deyd, vor mega þad Verk ei bæta.

5. Geym þu oss allri Glotun fra, undir Giæsku þiñar skugga, Og Ovina lijka Ossokn þa, i allri Freistni oss hugga, Andskotiñ fer med Flærdar

stal,

taal, hañ frekt vill bædi Lijfi og Saal, giarnan Glotun brugga.

6. Pijn mykla gaf þvi Milldin hær, oss myrkva Nætt til handa, að hefdum vier Roo og Hvijldir þa, so hressari mættum uppstanda, Af Vijli Sorgum, Vesölld og Prær, sem vora Lijkami jafnan þiær, ær og sijd i ymsum vanda.

7. Pydi Fadir þig bidium vier, þu gief oss Roosemd hyra, i allra Siñi og Hiortu hier, fyrir Hialpara vorn hiñ dyra, Samvitskuñar sarlig Okyrd, fyrir saña Tru sie wte byrgd, og Anda þiñ eñ skyra.

8. Gief vorum Synduga Molldar serk, að sofna i Fridi blijdum, So megi su Hressing ad Morgni sterk, mæta þess Dags Astrijdum, upplys vor Hiortu og Saaler so, að sie þau vakandi lijka þo, og til þijn treysti sijdan.

9. So að af Heilags Anda Nærd, æ kyñum i Voku og Svefni, i þijnum Otta Utvegum og Rærd, med Ønd og Lijkama tilefna, svo að liktum þier lendum hia, og Liossins Born verdum Himnum a, fyrir Aðstod Jesu upphafnir.

10. J fullu Trausti selum nu vier, oss Fadir þier til handa, med Saalu og Lijfi sañur Gud hier, Svipt af oss Hæska og vanda, hlijf þu og vernda Hws og Meñ, af Hiarta þess bidium aller señ, so megi oss Mein ei Granda.

11. Pier liufum Fodur sie Lof og Dyrd, fyrir Lijkn og Velgiord þijna, og þijnum Syni að soñu skyrd, er sig liet fyrir oss pijna, Heilogum

Anda og Heidur sie, sem Huggun vid oss lætur i tie, laatum hañs Lof ei dvijna.

## Ein Morgunbæn fyrir allra Handa Stiettum. Ton. Konung David.

Himneski Gud vor Herra, Heidur og Lof sie þier, fyrir Jesum vorn Frelsara, þañ Fadir gafstu mier, Lof Dyrd med sætum Saung, sijd og aar þier segi, svo og aa þessum Degi, og oll mijn Æsin laung.

2. Miog vel þijn Myskun gooda, mig hefur þessa Naatt, fra Eymd Faari og Voda, fordad a allañ haatt, Af Hug þig Herra bid, Myskun þijn mier til giesi, modgad þig jafnan hesi, med allskyns illum sid.

3. Eñ i Dag Gud eilijfi, eins bid eg geymir mijn, vid Satans Svikum og Kijfi, Synd Smaan og allri pijn, Eldsgang og Ovedri, fra Orhyrgd og Oforum, Illum Dauda og Snorum, Freisting og Faangelsi.

4 Holld, Saal og Heilsu mijna, Heidur Gotz Kviñu og Born, eg fel i Umsion þijna, og Undermañiñ hvern, og alla Audnu mijn, Fedgin Frændur og Vini, med Folki þeirra og Kyni Giorvallt er Gaafan þiin.

5. Engill þiñ uñ mig blijfi, alldrei hverfe mier fra, Vid Fiandans Flærdum hlijfi, forda þeim til mijn naa, Hier ad hañs Illskan liot, i Syndum sijst mig veidi, Saal og Lijf ei leidi, i Hrak og Heliar Noot.

6. Eiñ

6. Eiñ Gud læt eg ollu rædu, allt i hañs Valldi er, vill mig vernda og nada, vel tekst hvad ætlar sier, reidi eg mig þvi a hañ, Efi mijn Ond og Lijfid, i hañs Valld sie giefid, Verdi mier sem vill hañ.

7. Þockum Heidrum af Huga, Herra vorn allañ tijd, Guds laan og Glæsku nooga, giefur oss Ar og sijd, af Audmykt oskum þess, þa hættir Holldlig Efi, Himna Arf ad oss giæfi, Fognud og Fridar Sess.

8. Gud veiti Kyrkiu Valldi, ad vanda helga Stiett, vid Lijf og Heilsu halldi, hañs Nafn ad gofgi riett, og Foolkid frædé nu, med hreinu Herrans Ordi, vid Hræsne ollum fordi, Villum og Vantru.

9. Eins vora Valldsmeñ geimi og Verndi Almwgañ, Bændur og Born i Heimi, Bwfolk og Undirmañ, Pijn Hond þeim hlijfi vel, Plaagum Harska og Hungri, Hernad og Orbyrgd þungri og allri Eymd og Kvol.

10. Þar fyrir kiærer Christnir, kostgiæfid þeñañ Haatt, varist Ovina Freistni, Vakid og bindist þraatt, Ef skal vor audmiuk Boon, Ast Guds og Arfiñ hlioota, og æsinligana nioota fyrir hañs sæta Son.

## Kvolld Psalmur.

Med Ton. Hallt oss Gud vid þitt hreina.

O! Gud sem geymir Jsrael, og ollum Hlutum stiornar vel, af Hiartans Root eg þacka þier, þad i Dag hefur giætt ad mier. 2.

2. Almættug Hond og asiaa þyn, eñ þefur nærd og sied til mijn, lof sie þier Gud fyrir Laan og Hag, lijfed heilsu og vernd i Dag.

3. Eñ hvad eg hefe aum Mañkynd, æreitad þig med margri Synd, Gud miñ blessadur gief þad kvitt, fyrir Giæsku þijna og Nafnid þitt.

4. Nærda Blood Jesu Svidi og Saar, Saalar Angist Kvol Hrigd og Taar, breidist wt yfir Brotin mijn, og byrgi þaug oll fyrir Augum þijn.

5. Þessi Dagur nu wti er, eñ Naattar tijd ad hondum fer, Gud miñ goodur eg gief mig hier, giættu nu eñ i Nott ad mier.

6. Eg vil gaanga til nærda nu, nu bid eg Gud mig geymir þu; vertu hier miñi Hvijlu hiaa, hia mier vak þu og ad mier gaa.

7. Umkringi mig a alla Hlid, a siaa þijn og þitt Engla lid, sem iordi Adsokn Andskotans, æræsum Fiærd og Svikum hañs.

8. Veittu mier Drottiñ værd og Ro, vek mig i riettañ tijma þo, Lijkamiñ sofi sætt sem ber, Saalin og Andiñ vaki i þier.

9. Sky! þu mier þiñi Skiepnu kynd, skapadri eptir sialfs þijns Mynd, Hondin þyn nækvæm hiukri mier, og hlijfi vid þvi sem skadligt er.

10. Svæfilliñ miñ og Sængin mijn, sie oñur miuka Hondin þijn, eñ adra breid þu ofan æ mig, er mier þa værdin Roosamlig.

11. Blessa þu Drottiñ Bæ og Lyd, Blessa oss nu og alla Tijd, Blessun þyna oss breid þu aa, Blessud verdur oss Hvijldin þaa, Amen.

Morg-

# Morgun Psalmur.

Med Ton. Jesu Christe þig kalla eg a.

Blessada Preñing blessud sie, Blessande Hagi mijna, Lijkn og Naad sem mier liest i tie, Lidsemd og Miskun þyna, lijf mitt og Saal um̃ lidna Naatt leyst hefur eñ fra Vanda og illum Auda, so i Dag hef eg megn og maatt, i mijnu kalli ad standa

2. O! Hiartans Fadir eg bid þig, yfirgief þu mig eigi, añastu nu ad ollu mig, a tilkomandi Degi, halltu so fast i Hond med mier, ad hendi mig Slisin eingin, nie Glæpa gengi, helldur hvad sem eg forma fer, farsælist vel og lengi.

3. Eg befel mijna aumu Ond, og vesælañ Lijkama, og þurfanda lijf i þijna Hond, þeñañ Dag og hvern Tijma, Hegdun vit, Skin, og Hiartad kallt, Huxun Skilning og Siñ, sem Maal og Miñi, Ord og Giordir, og Aform allt, iñlæsi eg Tilsion þiñi.

4. Blessa þu Jñ, og Utgang mjñ, og allt hvad eg skal viña, Vidmot og Hegdun sierhvert Siñ, Sess og Gagn Foota miña, Jdiu, Vilia, Raad Asetning, allt hvad eg er og orka, til Vits og Verka, i V: for geym mijn allt um̃ kríng, og giør þa Truna sterka.

5. Hvad þier til Dyrdar eiñ Gud er, og til Velferdar miñar, framkvæm þad allt i aumum mier, af Nægd Myskunar þiñar, Eñ ef i Dag þijn Bodord bryt, Breyskleyka mijnum vægdu, og Hegning hægdu, Hialp og Naad þiñi Fadir flyt, forþienta Reidi Lægdu.

6. Ein-

6. Eingiñ er Gud añar eñ þu, og eingiñ Hialp-ari Maña, þvi bid eg þig i Naudsyn nu, Nꜵd þij-na lꜵt mig kaña, geym mijn fra allri Glæpa slood, gief mier þitt Ord eg læri, og Avꜹrt færi, fyrir Jesu blessada Blod, Bænheyr mig Fadir kiæri, Amen.

## Kvølld Psalmur med sama Ton.

Lof sie þier Gud fyrir lidiñ Dag, og Luckusæla Stiorn alla, þu hefur leydt miñ Lijffins hag, og lꜵtid mier allt vel falla, þo hef eg blessud Bod-ord þijn, brotid i margañ mꜵta, hvad eg nu jꜵta minstu alldrei a Illverk mijn, uñ mier af Synd-um lꜵta.

2. Nu er ad komid Nꜵttar þel, nu vil eg Hvijldir taka, O! Gud sem geymir Israel, yfir mier virdstu vaka, lꜵt þu nu Verndar Vængiñ þiñ, vandliga ad mier giæta, med Svefn-Roo sæta, veittu mier Heilla Hirdir miñ, Hiukrunar Nꜵ-kvæmd mæta.

3. Vertu nu miñi Hvijlu hia, med Heilogum Eingla skara, Ovini drijf þu alla fra, eñ mig heilañ bevara, Lijkamañ lꜵttu sofa sætt, eñ Sꜵlina i þier vaka, og Tilsion taka, Draumora, Ogn og illa Vꜵtt, alldrei lꜵttu mig saka.

4. Eg befala þier Drottiñ dyr, Dag og Nꜵtt Sꜵlu mijna, breid þu yfir mig Herra hyr, heila-ga Blessan þijna, Lijf og Astvini, Eign og Bæ, utan og iñan Gꜵtta, og þa hier hꜵtta, Gud miñ eg þier i Geymslu fæ, gior þu hia oss ad nꜵtta.

5. Eg

5. Eg legg nu saman Augu mijn, i Guds Nafni og Trausti, signi mig Heilla Hondin þijn, Hirdir mińn goodi og hrausti, Signdu Folkid og Signdu Hws, Signing þessi oss hlijsi, og illt wtdrijsi, Signingin þijn sæti Jesus, Signud yfir oss blijfi, Amen.

## Morgun Psalmur.

Med Ton. Guds Son kallar, komid.

Dagur burt tekur dimá Natt, Drottins Folk sparneitt vakna bradt, og heidra Gud þiń Herra, Otelianlig oll Engla Hyrd, ǽn Aflǽts syngur Gudi Dyrd, alls Skapara og þeirra.

2. Hanń og allskyns Fugla Faung, Fagurt vegsama Gud med Saung, sem þa klædir og fedur, Himnar, Jordin og Hafid vijdt, Hǽtign og Lof Guds boda tijdt, þiona honum þar medur.

3. Ollum Heims Skiepnum er so vart, ein og sierhver med sińi Art, skijrt gofgar siń Skapara, Þu mætust Skiepna Madur hver, Mælsku og Vits sem hefur Kior, varast Viliań adspara.

4. Hugleid, ad Gud vid sialfań sig, samlijkań hefur skapad þig, þvi gior hań þeckia kyńir, so þu elskir af Hiarta hań, hefier sem muńur orka kań, Ast hańs og Fylgi fińir.

5. Upp fra þvi Giof hańs Anda hlautst, eińin hańs Sonar Nadar nautst, af Hiarta þackir honum, Velstilltur jafnan vak og bid, Vanda hańs Stett med helgum Sid, sem hæfir hans Lærisveinum.

6. Uḿ

6. Um̃ Herrans Komu ecki veitst, ætsetta Stund hañs eigi leitst, hañ baud þvi þier ad vaka, J Sættmaala Guds þig sida ætt, syng hønum Lof af Hug og Maatt, miñst hañs Milldi ad þacka.

7. O! vor Fadir eilijfi Gud, eg þacka þijna hialp og Naad, Velgiordir Vernd og Gæsku, sem þu hefur mier og mijnum veitt, Mædu, Voda og Sÿmdum eÿdt, Lof sie þier ad eilijfu.

8. Fyrir Jesum sæta Soniñ þiñ, sem med þier lofar hvert eitt siñ, Einglа Her allur saman, Hialp Herra, ad eg sem su Hird, syngie þier jafnan lof og Dyrd, nu og æ til enda, Amen.

## Kvølld Psalmur.

Med Ton: Væri nu Gud oss ecki hia.

Hef eg mig nu i Hvijlu mijn, Himna Fadir ad vanda, yfir mig lysi Asian þijn, ei læt mier Satan granda, þo Augun lykist aptur hier, Andañ læt vaka samt i þier, Ogn rek burt allra handa.

2. Eins sem Daudur a allañ hallt, eg ligg i Hvijlu miñi, Hefur nu ecki Hondin Maatt, nie Huguriñ veykur Siñi, eg veit ei hvert mier audnast æ, aptur ad Morgne Lios ed fiaa, treysti eg þo Tilsion þiñi.

3. Hiartad bid eg ad hrærir þu, sem heilogum, styrir Anda, Draumorum burtu døprum snu, og Draugum allra Handa, Engill þiñ drijsi æ mier fra, Andskotañ sem þar stundar a, grædugur þijnum ad grañda.

4. Bidiandi framar Blessan þijn, Blijdi Fadir

ir med Tarum, Somuleidis þu stattil mijn, vid Satans forda Arum, hier ligg eg eins og lariñ Mañ, Lijfs Biorg eingva fier veita kañ hladiñ med Synda Sarum.

5. Umhyggiu Sorg og Angrid med, allt nu i burtu flioti, halla eg mier so hægt a Bed, hvijldar i Nærdum nioti, þo sijge hægur Svefn mig a, samt vaki Ondin Drottni hia, hañs alldrei Heidurin Prioti, Amen.

## Morgun Psalmur.

Ton: Allra Jesu Endurlausn.

Gudi sie Lof ad Nottin diñ nu endud er, eñ Goodur Dagur giefiñ mier.

2. Allra Dagaña añara hañ Upphaf er, af Sooluñi hvi sitt Nafn ber.

3. A þeñañ Dag var fyrsta Liooslid sunderad, Lioossins Fodur sie Lof fyrir þad.

4. O! Lioossins Fadir, hvernin kañ eg þacka þier, Anægianliga eins og ber.

5. Eg sat i diñum Daudans Dal, eñ Drottiñ þu, i Lijssins Lioos mig leiddir nu.

6. Myrkraña Snoru verid hef eg vañiñ hart, eñ nu fæ lijta Liooslid biart.

7. Uppruñin er nu Eilsku Sool þijn yfir mier, O! Gud miñ Gud þad þacka eg þier.

8. O! Fadir Liooss og Bruñur sañur Byrtuñ ar, sem Fognud allañ sunderar.

9. Kom þu nu i Mitt Hiartans Hws, eg hroopa a þig, Lijf þitt Gledie og lijfgi mig.

10. An þijn er Liooſid ecki neitt, og eckert Lijf, eingiñ Fegurd nie Andar hlijf.

11. Begafa þu mig Lijfinu og Liooſi med, Endurnær ſo og gled mitt Gied.

12. O! goodi Herra, girnd mijns Hiarta, gief mier nu, mijn Sool, mitt Lios, og Lijf ert þu.

13. Sia mig i Dag miñ ſæl, Gud, i ſañri Nærd, añaſtu lijka allt mitt Rærd.

14. Upp reñ þu i og yfir mier, a alla hlid, med Logar di Eiſku lifandi Gud.

15. Tru mijna læattu Lijſſins Geyſlum liooma ſnart, eins og Moyſis Andlit biart.

16. Gief þu i Dag mijn Gudrækni ſo glooe hrein, Zeraphims Klædi ſkiært ſem ſtein.

17. Gief þu ad fagurt logi Truar Lampiñ miñ, og heitur aſtar Elldur iñ.

18. Lattu og alldrei undergangá i hia mier, þitt Nædar lioos ſem eilijft er.

19. O! Andiñ ſæli, Aſtar elldur eg bid þig, upp lioma þu nu i Dag mig.

20. Hættu Myrkri þu hrind i burt wr Hiarta mier, eñ Truar Lioosid tendra hier.

21. Ryd þu mig upp wr Ranglætiſins Rickiu nu, og Verkum Myrkra varna þu.

22. O! þu Drottiñ miñ Aſtar Kropta Elldur hlyr, Verm mitt Hiarta og vel þvi ſtyr.

23. Lijfgadu þad og leid mig ſvo wr Heimi hier, iñ i þad Lioos ſem eilijft er.

24. Þar ſem Daguriñ alldrei framar endaſt ma, og ecki Soolin undir gar.

25. Þar

25. Þar er señ Gledi, Lijfid Lioos, og Liomi klaar, Dyrd og Sæla uñ eilijf aar.

26. Eg mun þa skyna eins og Sool, og Einglsarner, Eilijfur Gud þad gief þu mier.

## Kvølld Psalmur.

Med sama Lag.

Snu þu nu aptur eñ til Hvijldar Hndin mijn, Nott er komiñ eñ Dagur dvijn.

2. Sæti Drottiñ þier syngur Lofgiord Saalin mijn, diñ verdi alldrei Dyrdin þijn.

3. Guddoms Høndin þijn hefur mier nu hlijft i Dag, og lætid ganga allt i Hag.

4. Setid hef eg i Skugga þijnum Skialdborg mijn, og geingid fraň i geymslu þijn.

5. Vel hefur þu mig leidt i Dag, miñ Lijssins Mær, og stiornad Hætttu allri fiær.

6. Margt hefi eg þo Misbrotid a moti þier, eñ samt hefur þu gott giort mier.

7. J Olucku̅ñi yfirgafstu alldrei mig, J Frelstingunum foñ eg þig.

8. Hiavistin þijn var Hiukrun mijn i hverre Neyd, og Mattur miñ þa Megn-þrot leid.

9. O! þu Giæska, þu edla Naad, þu Elskan blijd, eilijft Lof sie þier allan tijd.

10 Þad i Dag hef eg Næxdar þiñar notid, ad, mier hefur eckert Mein grandad.

11. Eingin Plaga og Pijnuslug nie Prokans slægd, hefur mig Næntañ Hugar hægd.

12. Þu hefur verid Skyla Skiol og Skiolldur mīn, Skuggi og Tialldbwd sierhvert sīn.

13. Þvi hefur eingin Olucka mier unīd Tion, og ecki Satan olmast Lion.

14. Samt hef eg þo svivirdeliga saurgad mig, og Margan mǽta Modgad þig.

15. O! Hiartans Fadir siaa þijns Sonar saara Pijn, og fyrirgief mier Glæpi mijn.

16. A hāns Hlydni og Heilagleika horfdu nu, Ohlydni mijna aumka þu.

17. Medtak þu Drottīn mijna Bæn og Mūn-offrid, riett sem Ilmandi Reykelsid.

18. Eg skrijd og kvaka uppa Astar Armīn þīn, Fadma mig ad þier Fadir mīn.

19. Þrycktu mier hyrt a Hiarta þitt, til hiuk-runar, so eg med Fridi sofni þar.

20. Fadma þu mig med hyrum Astar ormum þijn, eins og Brudgumi Brudi sijn.

21. Skreidist eg undir skioolvæng þīn, þvi skyl þu mier, sem Turtildwfan su einfolld er.

22. O! þu Saalnaña vijsi og trui Verndar-īn, goodi Guds Barna Geymarīn.

23. Giæt þu mijn vel og grandvarliga nu i Nott, umkrijngi mig þijn Engla gnoott.

24. Ahyggiu mijna alla legg eg uppa þig, um-mwri nu þijn Myskun mig.

25. Laat þu mig sofa hægaī Svefn og Hvijld i þier, Augu þijn vaki yfir mier.

26. Bevara Drottīn Bæīn, Kviñu, Born og Hiw, Faari og Grandi fra oss snw.

27. Uñ oss ad sofa vel og vært i Vingan þijn, og elsku þiñi sem alldrei dvijn.

28. Jnleid oss siidan i þa Dyrdsem ecklijf er, og Aństreimi framar alldrei skier.

29. So vor Augu þig siaxi þar þu Soolin klaar, Lofandi þig uñ eilijf aar, Amen.

## Morgun Psalmur.

Med Ton: Endurlausnariñ vor Jesu Christ.

GUdi sie lof fyrir liioosid gladt, lidin med værd er þesśi Naatt, eg vil upprijsa, og miñ Gud prijsa, Kyrieeleis.

2. Hvers verk ad eru Himiñ og Jord, Hier med er Lioos og dimman giord, moot morgum voda, moñum til gooda, Kyrieeleis.

3. O! miñ heilagi Herra Gud, Hiartans Dag-Stiarna Sæl og glod, upp upp mijn Saala, uñ hana ad tala, Kyrieeleis.

4. So marga lofgiord sege eg þier, sem þu gafst Andar takid mier, uñ æfi mijna, og alla Blessan þijna, Kyrieeleis.

5. Eg bid þig nu audmiukliga, J-klæd mig Christnum Herskrwda, Send Sigur, Hreyste, Sigrariñ besti, Kyrieeleis.

6. Mijnum Misgiordum Gud miñ gleym, Gud miñ laat mig ei deya i þeim, mijn verk ad stunda, veit mier aan Synda, Kyrieeleis.

7. Forsorga þu mig Fadir sæll, fyrst eg er þiñ dyrkeyptur þræll, Saal og Lijf Sedier, Samvitskuna gledier, Kyrieeleis.

8. Laat mig so sem þu vera villt, vardi Naadar Heit uppfyllt, og mier og mijnum, med Krapte þijnum, Kyrieeleis.

9. Gief mier ad skinia ad endast æ, æfidagar og Lijfsins Stiat, miñ Jesu goode, mier øllum raade, Kyrieeleis.

10. Eg fel mig og øll Guds Børn, J Jesu Naadar skiool og vørn, i Himnarijki, hañ ossi iñtake, Kyrieeleis.

11. Gudi Fødur og Syni sie, samt Helgum Anda verkandi, Heidur og æra, Hvøyld fyrir væra, Kyrieeleis.

## Morgun Psalmur.

Med Lag. Himna Roos, Leid og Lioos.

Dagur er, dyrka ber, Drottiñ Gud miñ, Noott er lidin, lof sie Gudi lioos skyn, Gledur eñ, marga Meñ, myrkra floottiñ, lyf og Saal, lijka Maal, lofi Drottiñ.

2. Fyrir þiñ Son, Sælu von, sie þier Hædst lof, mig þu Spar der, meinum varder, miñ Gud, mier gafst frid, lyku og lid, leid so Noottin, Lijf og Saal, lijka Maal, lofi Drottiñ.

3. Mig hefur leidt, meinum eidt Myskunin þijn, hvør a studnu, og heimsins grundu hier til, afvend þier, ei fraa mier, nær aflegg þroottiñ, lijf og Saal, lijka Maal, lofe Drottiñ.

4. Eg bid þig añast mig, eñ i Dag nu, fyrir þañ Sæta, Saalar mæta, Son þiñ, veit mier

naad,

naad, vernd og raad, vægd og lidsiñ, Lijf og Saal, lijka Maal, lofe Drottiñ.

5. Helgañ dug, Hreinañ Hug, Hiaa mier upp-kveik, þier ad hlyda, lyka lijda laan dags, og þung-añ med, þolugt gied, þreya hlydiñ, godañ dag, gladañ hag, gefe oss Drottiñ.

6. Hvad eg hier forma fer, farsælest vel, ut-gaang framgaang Iñgang blessa æ miñ, og Naad, allt mitt raad, añast hvert siñ, goodañ dag, glad-añ hag, gef oss Drottiñ.

7. Eg fel þier, allt hvad mier, aadur gafstu, sie þiñ dugur, mier maattugur, miñ Gud, bæte saar, best sem maa, breiskleika miñ, goodañ dag, gladañ hag gef oss Drottiñ.

8. Lyf og Ond, efnen vond, eg nu þier fel, ollu Illu, voda og villu, ver mig, Soome og dyrd, sie þier skyrd, Sijfellt Gud miñ, Lijf og Saal, lijka Maal, lofe Drottiñ.

## Morgun Psalmur.

Med Ton: Oss maa Auma kalla.

Heidur og Haaleit æra, Heilogum Drottne sie, sem oss vañ endurnæra, med allskins rooseme, veitandi værd og Naader, veriandi Myrkra her, ad oss so giorla gaader, grandlauser voknum vier, Gud miñ oss geymer vel, Gud blessar Israel, Guds Born Gudi eg fel.

2. Hver kañ ad Hugsa og reikna, hvad margt eitt andartak, liusur Drottiñ oss lyknar, og lætur Sofa med mak, elur so oñ aa medan, fyrir ollum

sem treysta a han, þar til han hiaalpar hiedan, i Himneskan dyrdar ran, Gud Min oss geime vel, Gud blessar Israel, Guds Born Gudi eg fel.

3. Ei kan eg wt ad skijra, alla þaa stooru naad, sem Guds mins giæskan hyra, grunlaus hefur mier tiaad, eg gledst i Gudi Mijnum, þeim goda lyssins brun, Saal mijn med Sætleik sijnum, syngi med Hiarta og Mun, Gud min oss geimer vel, Gud blessar Israel, Guds Born Gudi eg fel.

4. I Jesu Edla Nafne, eg byria þennan dag, blesse han oll min Efne, andar og Lijssins hag, fraa ollum illum Kyndum, adstod hans Hlijfe good, forde vid falle og Syndum, forlijke mig hans blod Gud Drottin geyme oss vel, Gud blesse Israel, Guds Born Gudi eg fel.

5. Himin Haudur og geymar, heitt sem einen Kallt, og allt hvad þar inne Sveimar, hønd Drottins geime þad allt, einkum hans Edla Christne æd're og lægre men, verndest vid voda og freistne, velsigne oss Eining þren, Gud Drottin geyme oss vel, Gud blesse Israel, Guds Born Gudi eg fel.

6. Lotning og Eilijf æra, ædstum Fodur sie, samt hans Syninum kiæra, sem er vor Frelsare, hier med Heilogum Aunda, hiaalpe til Prening skiær, i fognudi lijssins lenda, liooss degi hroosum vær, Gud Drottin geime oss vel, Gud blesse Israel Guds Born Gudi eg fel.

## Kvolld Psalmur, ur Donsku wtlagdur.

Sa liooss dagtr lidin er, lijdur ad Nætur stund, O! Her-

O! Herra Jesu hiaa oss ver, hægañ gef þu oss blund, gledie oss Gud i Himnarijke.

2. Giæskan þijn allvel geimde oss, og good verndadi i dag, mykte i naud Mootlæti og Kross, miskun þyn sa vorn Hag, gledie oss Gud i Himnarijke.

3. Þar fyrir vier nu þackargiord, þier færum Drottiñ stoor, heidre þig meñ Himiñ og Jord, og Heilægur Engla Koor, gledie oss Gud i Himnarijke.

4, So margt brutum vier moote þier, megnum ei telia þad, ord, hugreñingar, athafner, allt var Saar, fordarfad, gledie oss Gud i Himnarijke.

5. Fyrirgef oss nu Fadir kiær, þad fromdum þier aa mot, med Anda þijnum oss endurnær, so ydran giorum og bot, gledie oss Gud i Himnarijke.

6. Adgiæt þu oss nu eñ i nott, med Engla skillde þijn, ad sofna kyñum sætt og rott, sviptir fra allri Pijn, gledie oss Gud i Himnarijke.

7. Paa lijkameñ sefur lattu þo, lifa vorn Anda i þier, ætijd veit þu oss andlega Roo, fra illu vel geimer, gledie oss Gud i Himnarijke.

8. Myrkraña ollum meinum fraa, Myskun þijn oss Hlijfe, voldugi Jesu vert oss Hia, veit naad Sal og lijfi, gledie oss Gud i Himnarijke.

9. Ad Morgne aptur uppvek þu, oss aa hagkvæmri tijd, so af oss þaa i Sañri tru, Singest þier lofgiord blijd, gledie oss Gud i Himnarijke.

10. Eñ þegar endast æfi tijd, og kemur vor Dauda Stund, veit oss Jesu hun verde ei strijd,

væraň gef Sydasta blund, gledie oss Gud i Himnarijke.

11. A enda Heimsins oss siert hiaa, Innleid i dyrd med þier, lat oss Himneskaň fognud faa, og frid uň allar allder, gledie oss Gud i Himnarijke.

12. Lofgiørd fødur og Syne sæt, sijfellt verde framen, heilagur Ande vor Huggun mæt, hlioote prijs æ Amen, Gledie oss Gud i himnarijke, Amen.

## Eiň Kvølld Psalmur.

Med Ton: Christur reis upp fra Daudum.

Dags voku er eň nu ende, eň nætur Svefn fyrir hende, allt Stundlegt hefur so uňbreyting, eň eilijft lijfed Stadfesting, Kyrieeleison.

2. Eilijfe Einvallds Herra, jeg vil þier þacker giøra, fyrir Jesum sæta Soniň þiň, Saluhialpara og Hyrdir miň, Kyrieeleison.

3. Pu hefur a þessum degi, þyrmt mier, eň glatad eigi, aňast so sem þitt einka barn, o! Gud hvad þu ert nadargiarn, Kyrieeleison.

4. Jeg vil þo Aumur jaata, jeg maa ei barn þitt heita, þatt fyrir þier i Himinnň, hef eg þratt syndgast Fadir miň, Kyrieeleison.

5. Pu gafst mier blessan þina, þaa naad hef eg Syndum launad, i Dag sem øll mijn æfi Kvølld, æ mijna þusund punda skulld, Kyrieeleison.

6. Fadir o! Fadir naada, Fadir Saňleiks og daada, fyrirgef øll myn afbrot leid, fyrir aarnan Jesu pijnu og deyd, Kyrieeleison.

7. Aňars eg ei maa sofa, ellegar naadir hafa,
hver

